Fimmtán

# TÍÐAVÍSUR

um árin 1801 — 1815.

Orktar af

sjera **Þórarni Jónssyni,**

fyrrum presti að Múla í Þingeyjarsýslu.



Útgefendur:

**Jónas Jónsson. Vigfús Sigurðsson.**

Kosta óinnbundnar 60 sk.



**Akureyri 1853.**

Prentaðar í prentsmiðju norður- og austur-umdæmisins

af Helga Helgasyni.

## Til lesendanna.

Það er ekki alltíð eins hægt fyrir seinni tíðar menn eins og það er verðugt, að halda á lopt verkum og minningu þeirra manna, sem verið hafa fósturjörð sinni á einhvern hátt til gagns eða sóma, og fyrir nokkru eru horfnir hjeðan til feðra sinna; þungstreymi tímans ber þau of opt á burtu með sjer í haf óminnisins, og veldur því tíðast skeytingarleysi afkomenda þeirra eða venzlamanna, af því þeir annaðtveggja ekki hafa gætt mannsins hver hann var, eða ekki kunnað að meta verk hans; þannig virðist því verið með Tíðavísur sjera Þórarinns heitins frá Múla, er nú koma prentaðar fyrir ykkar sjónir, heiðruðu landar! eptir 38. ára hrakning þeirra; og hafa þær á þessu tímabili töluvert rangfærst í höndum margra óvandvirkra skrifara; engu að síður hefur þeim þó hvervetna verið vel tekið af alþýðu. Vísur þessar ná að sönnu yfir töluvert færri ár enn sjera Jóns heitins Hjaltalíns, er margir unna mjög, og hyggjum við þó, að þessar muni ekki síður ávinna sjer hylli manna, mest fyrir þá skuld, að þær eru langtum yfirgripsmeiri hvað alla frásögn snertir, t. a. m. skýra þessar nákvæmlega frá hinum markverðustu tilburðum í útlöndum, hvar mjög var róstusamt á þeim árum. Eins og Hjaltalín, hefur sjera Þórarinn greinilegar skýrt frá því sem við hefur borið í þeim landsfjórðungi, er hann átti aðsetur, enn í hinum hlutum þess; en ei að síður upplýsir hann hjer menn um margt það, sem heyrir til sögu Íslands sjer í lagi, og hefur tekizt ágæta vel að greiða sannleikanum veg gegnum hina margbreittu röð tilfellanna, í hinum fjöruga anda, og víðast snotra íslenzkulega búningi skáldskaparins, jafnvel þó sumum kunni að virðast stöku orðum ábótavant eins og við er að búast frá þeim tíma.

Tilgangur okkar útgefendanna með að láta prenta vís-

ur þessar var sá, að við gátum ekki liðið, að slíkt verk lægi lengur eða flæktist manna á milli, allt af meir og meir rangfært; og þar margir hafa óskað eptir að þær yrðu prentaðar, rjeðustum við í að láta gjöra það á eiginn kostnað, fyrst afkomendur höfundarins voru ekki búnir að því.

Um handrit þau sem vísurnar eru prentaðar eptir er fátt að tala, nema það eitt, að við gátum ekki fengið eiginhandarrit höfundarins, hversu sem við höfum eptir grafist, og hyggjum við það muni vera glatað; en reglulega skrifað handrit, eptir sjera Benidikt, son skáldsins, höfum við lagt til grundvallar, og eru samanborin við það: handrit eignað sjera Jóni Guðmundssyni á Hjaltastað, og annað eptir sjera Ingjald frá Múla; sömuleiðis hafa enn önnur 2 handrit verið samanborin við það fyrst greinda; eptir þessum handritum hefur verið prentað.

Þannig koma nú Tíðavísurnar undan pressunni fram á skoðunarplázið — úr garði gjörðar eptir því sem við höfðum bezt föng á, — sú eina rödd, er hljómaði sem tímarit hjer fyrir norðan í byrjun þessarar aldar, frá hyggnum og vel upplýstum manni, er frjálslyndislega byrtist þá til að fræða landa sína og skemta þeim. Við vonum að vísnaflokkum þessum verði vel tekið af yngri og eldri, þó þeir byrtist svona á eptir tímanum, því saga liðins tíma er æ ný og fersk handa þeim ungu, þó hún eldist, og er þá ekki síður líklegt, að þeir sem uppi vóru samtíða höfundinum muni vilja eiga þá bók, sem rifjar upp fyrir þeim minninguna um liðna æfi; þá er fyrirhöfn okkar á útgáfu þessari vel varið, ef við verðum varir við, að hún mætir hjá ykkur góðum viðtökum, og getur náð þeim tilgangi og rjettindum, er hún á skilið.

Skrifað á Krossmessu á haust 1853.

*Útgefendurnir.*



# Tíðavísur*

## um árið 1801.

---

1. Öld nítjánda uppreis skær,
Átján burtu runnar,
Enginn geisli eptir þær
Unns við brúnir þunnar.

2. Þeir sem lifa' er upphófst öld,
Almenn dæmi sanna,
Sjá ei hennar síðsta kvöld,
Svoddan forlög banna.

3. Alheims stýrir einn það veit
Út nær slokknar sólin,
Og fram ei bærast fá um reit
Fjörs- og aldar-hjólin.

4. Það er nóg, að vitum vjer,
Vorar lífsins stundir,
Stirðar og blíðar standa hjer
Stjórnun drottins undir.

5. Stundum sýndust stór áföll
Steypa landi' og þegnum,
En hörmunganna hafbrim öll
Hefur oss fleytt í gegnum.

6. Öndverð liðna öldin mein
Oss ljet harðfeng kanna,
Er stóra bólan aftók ein
Átján þúsund manna.

7. Yngisfólki sama sár
Sorglegt gjörðu vinna
Systur hennar síðar þrjár,
Samt þó langtum minna.

8. Atvinnunnar efni brast,
Ei fjekk staðizt viður,
Harðindunum hrakið fast
Hrundi fólkið niður.

9. Enn nú vakti sáran sult,
Sóaði velgengninni,
Tuttugu ára tíma fullt
Tjón, af fjárpestinni.

10. Dunur og bresti dag sem nátt
Dresvarps hristu brúði,
Jarðeldunum himinhátt
Heklufjallið spúði.

11. Eldrauð sprungin ofsa gný —
Urðum hlóðu grundir, —
Loganum björgin ljeku í
Lypt upp skýin undir.

12. Myrkri norður mest um land
Mistur-hríð á skelldi
Vikri fyllta, sem og sand'
Sauði' og hesta felldi.
13. Skaptár-jökuls eldgos enn
Eitraði lopt og jörðu,
Fjellu að nýju fjeð og menn
Fjötur í dauðans hörðu.
14. Átjánda ljet öldin spor
Ásamt hinu stríða
Margs ágætis meðal vor,
Menn sem hefja' og prýða.
15. Hækkað vísdóms hefur sól,
Heitara tók að skína,
Ísa-norður yfir-ból,
Æxlar geisla sína.
16. Stórt umbætt í stjórnar sið,
Straff og laun ei vana;
Rækt eru lög, en rjettlætið
Ríkar dómstólana.
17. Þá vefsmiðja þarfarík
Með þófara-mylnu tygjum
Reist var upp í Reykjavík,
Og reiðskap farfa nýjum.
18. Læknis stjett kom land vort í,
Líknarbúð og fleira;
Hreina-plöntun, höndlun frí,
Er hagnaðar þótti meira.

19. Ungdóms fræðing, allra bezt
Efling heilla fróni,
Hindurvitni og hjátrú mest
Hýðir niður af tróni.

20. Byskup Steinn og byskup Jón
Barnalærdóm skráðu;
Pontoppidan framar frón
Fræða' og Balle náðu.

21. Lærdómsmennta fjelag frítt,
Fyr í Danmörk stofnað.
Íslands sonum næsta nýtt,
Nú, því miður, sofnað.

22. Aldar að kvöldi annað var
Efnað hjer á landi,
Kóngs nafnbót sem kórónar,
Kallað uppfræðandi.

23. Allrar heimsku enn á ný
Upp að slíta rætur
Lestrar fjelag landi í
Líka' er reist á fætur.

24. Álög sýnast Ísalands,
Allt hvað heill þess styður
Áður en líður aldur manns
Optast dettur niður.

25. Stygglynd kvaddi öldin oss,
Ýmiss þreytti skaðinn.
Þessi bauð og kaldan koss,
Komin í hinnar staðinn.

26. Allra' heilagra - messu með
Mest á brustu hríðir,
Í tíu dægur fennti fjeð,
Frost og hörku tíðir.
27. Blotar stundum bleyttu fönn,
Blandaðir frostrigningum,
Fastari gadd og fóður bönn
Færðu oss norðlendingum.
28. Heybjörg þurfti kind og klár,
þá kom á jólafasta;
Svo harðleikið útrann ár
Átján - hundraðasta.
29. Síðla fjekkst á sorgum bót,
Sem og mátti gruna;
Ekki skiptu aldamót
Enn um veðráttuna.
30. Harðindanna hamur þrár
Hjúpaði lopt og veldi;
Veturinn fyrsti og aldar ár,
Ærinn pening felldi.
31. Orgaði stríð við ýmis - tenn,
Ekki hríð nam skána;
Úr páska tíðum meintu menn,
Mundi' um síðir hlána.
32. Hræsvelgur þá haminn skók,
Hristi ›undar svanna;
Enn að nýju yfirtók
Ofsinn harðindanna.

33. Hræðslan fólkið hrelldi því,
Hrapaði' allt í dauða,
Drápu niður ákefð í
Ósköp nauta' og sauða.

34. Vunninn eptir verknað þann
Veðrinu brá í skyndi,
Sunnan-hláku sælu upprann
Sól með hita-vindi.

35. Elfar leystist þykkva þil,
Þrútnuðu vatna agar,
Þegar sumars tøldust til
Tíu vetrardagar.

36. Langvinnan ei lagði' á snjó,
Loptið jeljum stráði;
Vorharðinda vastur þó
Veslar skepnur hrjáði.

37. Yrjur og frostin ýmist gekk
Allt til fardaganna.
Sumartíð gafst þæg og þekk
Þaðan af högum manna.

38. Himininn prýddu hita ský,
Hægðu daggar gæði,
Foldin aldna færðist í
Fögru blómstur-klæði.

39. Þó að sjaldan væri vott
Veður, um gróður-mundir,
Þáðu lýðir grasár gott
Glóðum röðuls undir.

40. Varaði lengi vær og hlý
Vinda sunnan - áttin;
Allmörgum varð erfið því
Önn um túna - sláttinn.
41. Nú þó veittist nýting góð
Næringar útvegum,
Víða skaði' af stormum stóð
Stundum ákaflegum.
42. Hjálpar tíðin þó fyrir það
Þjóðum flestra sveita
Mikaelis - messu að
Mátti farsæl heita.
43. Driftar hrepptu falda fjöll
Föl um dali' og grundir,
Vösuðu risjug veðraföll,
Veturinn hvítan undir.
44. Yfirtók með öllu þá
Ærsli' af veðrum stríðum,
Snáka bani snaraði á
Snjó, áfreða, hríðum.
45. Höfðu krapta' og hörku ei
Hestar að berja klaka,
Fyrir jólaföstu' á hey,
Fólk þá varð að taka.
46. Einni storku' á aðra jók,
Yfir dýra ranninn.
Aldar kaldan enda tók
Árið fyrsta þannin.

47. Veturinn þó að veðrum þrár
Væri' og penings grandi,
Syðra kætti afla ár,
Eins á Vesturlandi.

48. Ágætt sumar, árferð þýð
Á engi og túnum grónum,
Norðanlands og blessun blíð
Barst til vor af sjónum.

49. Sama bera sagna skrár
Sumarið næst líðandi
Frjófgunar- og fiski ár
Fallið austurlandi.

50. Skaðnæm sótt, er skerti móð,
Skarð hefir hvergi stofnað;
En heilmikið af heldri þjóð
Hefur burtu sofnað.

51. Arnórssonar eldra, hýr
Ekkja Þingaseta,
Guðrún Skúla deyði dýr
Dóttir landfóeta.

52. Ísleifs sýslu-merka-manns
Miðaldurs á skeiði,
Guðrún, dáða húsfrú hans
Úr heiminum burtu deyði.

53. Í Stafholti enti líf
Auðnu rík með gnóttir
Sjera Kristjáns sóma víf
Sigríður Steffánsdóttir.

54. Sjera Jón og Sigurð má
Sálaða báða frjetta,
Kálfatjörn og Keldum frá
Krists yfir hjarðir setta.
55. Líknarbúðar landsins hreinn
Lengi störf við þreyði
Maðnr tryggða metinn einn
Magnús Ormsson deyði.
56. Handlæknir, sem hægði bezt
Heilsu norðlendinga,
Jón Pjetursson jáður mest
Jafni skarpvitringa.
57. Heim þá kvaddi, höfum misst
Hjálp í nauðum ríka;
Að jurtavísi og læknislist
Landið á enga slíka.
58. Á aldri bezta, ern og hraust, —
Æfði dyggða gnóttir, —
Sáluð tjáist seint í haust
Sigríður Steffánsdóttir.
59. Lifði og enti lasta frjáls
Líf sitt á Þingvöllum,
Ekta-svanni sjera Páls,
Sannhrósuð af öllum.
60. Saddur lífs í sælu von
Sjera Steffán deyði
Hennar faðir Högnason,
Hár að aldursskeiði.

61. Hjelt sá staðinn Breiðabóls.
Beztan lofi fríju
Utan bæði og innan stóls
Árin fjörutíu.

62. Ýmsum fellur æfiskarð,
Ungum, gömlum seggja:
Frekt mánaðar frestur varð
Feðgina milli tveggja.

63. Á þessu ári, þanka - ranns
þjáð af eymd sífeldri,
Guðrun fyr dó húsfrú hans,
Halldórsdóttir eldri.

64. Áttræður að aldri þó
Æru' og sóma mestur,
Hvammsveitar að Hvammi dó
Kvæntur Einar prestur.

65. Ýmiss feigum auð er vök
Öðru, enn heilsu bönnum,
Á sjó og landi slis óslök
Slíta líf af mönnum.

66. Að veiðiskap í vatni nær,
Við sem gjörði púla,
Drukknaði Einar kosta kær.
Kapellan í Múla.

67. þar af bittu sama sinn
Sálaðist heimamaður,
Einar líka úngur hinn,
Ern og nýkvongaður.

68. Andláts sopin eptir köf, —
Ekkjum tár þó renni, —
Báðir eina byggðu gröf,
Bíða dóms í henni.

69. Hríðarbylur hörku sár
Herti mein og trega,
Marz ellefta manna' og fjár
Mergð drap skelfilega.

70. Grænlands jökli huldi haf
Hörku-bylurinn stirði
Barðaströndu einlægt af
Allt að Reiðarfirði.

71. Hítardalur helzt ókjör
Hæfði, frjett með sanni,
Sextán tugar felldu fjör
Fjár með sauðamanni.

72. Rænu- og máli-lestur lá
Lífs með drögum smalinn
Fimmta dægri fundinn á,
Fóta- og handa-kalinn.

73. Mest fyrir lækni misvitran,
Mál og ráð þó gisti,
Að olbogum hendur hann,
En hnjánum fætur missti.

74. Í Mýrasýslu meinast þó
Meir' enn hundrað tapað,
Hjeraðauk og sumt í sjó
Á [redacted] degi hrapað.

75. Í Húnavatns þingi hirðir fleins
Með hundruðum tveimur sauða
Á Haukagili og svo eins
Úti fraus til dauða.

76. Hjaltabakki og Vatnsnes varð
Vægri fyrir baga;
Á Torfalæk og skeði skarð
Skepna' um beitarhaga.

77. Norður- og austur-fallið fje
Af fóður rírum skamti,
Fimmtíu þúsund sagt er sje
Samantalið í amti.

78. Opt hefur góeþræll með þrá
Þrauta drykkjað könnum,
Storma sköll um land og lá
Lífi rænt frá mönnum.

79. Fimm skip syðra fórust þá
Fullt með nítján mönnum;
Vorið sama vestur frá
Veltust tvö í hrönnum.

80. Af þeim bjargað einum var,
Átta í sjóinn hrukku;
Líkt á strönd til Barða bar,
Með byrðing tíu sukku,

81. Á Kjalarnesi kólgu-mar
Kafnaði ofþungaður,
Tveir af kyli tókust þar,
Tapaðist þriðji maður.

82. Dröfnin þremur drekkti enn,
Drif og storm ei kyrrði,
Við Borgarfjarðarsýslu senn,
Suður Hvals í firði.
83. Að hrís-flutningi hörð áflog
Hittu' af landnyrðingi,
Á firði Breiða fórust og
Fjórir af áttæringi.
84. Eins úr firði Siglu senn
Segjast fjöri lestir
Fjórir á heimleið Fljótamenn,
Farmi skreiðar hlesstir.
85. Súganda'-Eyja- og Skaga-skal
Skeð manntjón í — fjörðum;
Eins í hverjum innir tal,
Af Apríls veðrum hörðum.
86. Í Haukadal vestra var
Vant og leitað sauða;
Úr háum kletta-hjöllum þar
Hröpuðu tveir til dauða.
87. Skagafjarðar helzt í haust
Hjeraðsvötn alþekktu
Umreisendum ekki traust
Einum manni drekktu.
88. Ofsa vindum æsta dröfn
Enn nú brims í hrönnum
Á Eyrarbakka hættu höfn
Humlung' týndi' og mönnum.

89. Hefur lengi græðis grip
Grimmt þar hrundið skorðum,
Marga drepið menn, og skip
Mölvað áður forðum.

90. Stormar biltu stökkuls reit,
Storð að sköflum hrundu:
Höfða skip af höfn upp sleit,
Hrukku tog í sundur.

91. Skipherrann í skrykkjum sjós
Með skeiðina varnings auða
Laxár hleypti inn í ós
Uppá líf og dauða.

92. Hann þar æfi hreppti tjón,
Hjer með einn skipverja;
Hrannar sundur lamdi ljón
Leikur brims og skerja.

93. Með óhöppum metast kann,
Má þar flest að styðja,
Á Hvaleyri einhver brann
Íslands bezta smiðja.

94. Þessa lands í allri átt
Ýmsir burtu deyja;
Veiting brauða víst allfátt
Veit jeg af að segja.

95. Guðbrandi, sem gott var hent,
Gætnum Vigfússniði
Búð – er syðra – líknar ljent,
Læknisdóma smiði.

96. Handlæknir, sem höfum von
Heilsu forði grandi,
Ari' er settur Arason
Oss í norðurlandi.
97. Runólfi Jónssyni senn
Sómdi messu feldur,
Gáfu þeir presti, góðu menn,
Gunnarsholt og Keldur.
98. Staði Skúms og Stórólfshvol,
Stilltum bóka hlini
Heyrist veitt með hógvært þol
Helga Bjarnayni.
99. Jón í Hvammi guðs orðs gekk
Gíslason að starfi,
Hjarðar í skiptum holtið fjekk
Hinn Jón Ketils arfi.
100. Höfðabrekku' og Reyni rjeð
Röskur Auðunn hljóta.
Gufuness og Mosfells með
Markús skyldi njóta.
101. Sjera Þorlák, sem umbað,
Son Jóns þann hinn mæta
Súgandafjarðar settu' á stað,
Sálarheilla' að gæta.

---

102. Ísland fjekk við alda mót
Ærin stakkaskipti.

Himininn veiti hitt umrót
Högunum þess upplypti.
103, Sakir lands að semja' og kljá.
Svo við hjeldist friður,
Fornmenn sitt nær Öxará
Alþing settu niður.
104. Fylkir býður færist það,
Friðar kosta ríkur,
Höndlunar á höfuðstað
Hjeðan af Reykjavíkur.
105. Undir eins var af tekið,
Aðstoð griða bandi,
Elzta lögmanns embættið,
Eitthvert hjer á landi.
106. Mál sem þangað máttu ná,
Meðal vor er settur
Lagadóm að leggja á.
Lands einn Yfirrjettur.
107. Dæma þrír í sjerhvert sinn
Sann-lögspeki-vanir,
Fjórði' í þingbók færir inn
Feldar ályktanir.
108. Öld nítjánda yfir brá
Auðnu biskupsstólum:
Norðurlandsins datt í dá
Dýrð, er skein á Hólum.
109. Tignarmenn þar víkja' úr vist,
Valtir lífs á hjóli:

Buðlung skipar burttakist
Biskupsdæmi' og skóli.
110. Höfðingjar og heiðurs krans
Hjeðan burtu fýkur
Æðst embætti innanlands
Allt til Reykjavíkur.
111. Norðurland er flíkum flett,
Flónsku vanið belju;
Prentsmiðjan og suður sett,
Sinni gleypt af elju.
112. Ef Guðbrandi yrði lypt
Upp af grafar blundi,
þetta sæi, þá um skipt
þykja' á Hólum mundi.
113. Burtu gaf í beztu von
Bújörð sína Hóla
Bóndi' Illhugi Bjarnason
Biskupsdæmi og skóla.
114. Alls sex hundruð ára nú —
Inna sagna letur, —
Nítíu' og þar til þrjú —
þeir voru byskupssetur.
115. Andar heillir okkri jók
Öld frá suðurlandi
Messusaungs ný boðin bók,
Björt og upplýsandi.
116. Um hana hafa aðrir dæmt
Eptir fundnum keimi

Sumir gott, an sumir slæmt,
Svo er nú títt í heimi.

117. Kóngur af því kætast vann,
Kynni' oss vel að líða:
Fjóra sendi herra hann
Hjer um land að ríða.

118. Boðorð útgaf hátign hans,
Hyggnum eptir lifa,
Alla fasteign Íslands
Upp að telja, og skrifa

119. þegar starfi þessu í
þeir hafa lokið ferða,
Afgjald jarða eptir því
Allt skal metið verða.

120. Um bújarðir alþýðan
Ef skal vitni bera,
Sumir herma sannleikann,
Síður enn skyldi vera.

121. Elfur, skriður, eldgos sár,
Ísland níða' og troða,
Hvert tíunda aldar ár
Um má ríða og skoða.

122. Byggð að telja, býli, menn,
Bjargráð, stjettir, aldur,
Skýlaust sjerhvað skipar enn,
Skýra dýr alvaldur.

123. þrykkir landi þrautin sár,
þrótti hnignar bragna,

Varla sýnist vera' í ár
Velgengninni' að fagna.

124. Danmörk hefir dafnað bezt,
Dýrðar fegruð ljósum,
Áttatíu ára mest
Undir friðar rósum.

125. Enskir bjuggu' um uppsa dal,
Ætluðu Dani' að rota,
Undir stoltum aðmíral
Ógnarstóran flota.

126. Orustuljónum etja' af stað
Öldu', og voð uppfestu,
Hátimbruð með herbúnað,
Höfuðskepnur mestu.

127. Flotann út með flýti bar,
Flæða guði mana,
Hyðe og Nelson herstjórar,
Hjeldu að veldi Dana.

128. Skothríð grimm á skipa krans
Skotta bresta mundi
Krónuborgar kastalans
Kominn að Eyrarsundi.

129. Aptur á móti eld og skot
Enskir hvergi spörðu,
Voldugt hinna varnarslot
Vart þó snerta gjörðu.

130. Flotann bruna sikling sá
Svenskur geði fúlu;

þenna vildi ekki á
Einni skjóta kúlu.

131. Drekar, flóða' að danskri torg
Drifnir fiðrið skóku;
Hilmis undir höfuðborg
Hafnir seinast tóku.

132. þar sem Danir þrisvar sjö
þreytast út að búa
Herskip, Enskir hundruð tvö
Herjans efla grúa.

133. Tuttugu danskra tíndust þá
Til, með skipum lestum,
Möstur og stýri mölvuð á
Mörgum, ef ekki flestum.

134. Enskir svana yfir mið
Ekkils grana teygja,
Bjó sig Dana borgarlið
Bardaga manað heyja.

135. Himinljósin heiðmyrkvast,
Hauðrið bresti þylur,
Skot-flugelda skjótt á brast
Skírdags hríðarbylur.

136. Stál-eldkúlur mjög, sem mý.
Mæddar flugi þungu,
Lömdust saman lopti í,
Logandi sundur sprungu.

137. Meira' á Danska mannfall ber.
Mistar heptist vinna,

Að þeirra stóðu skip, sem sker,
Skotunum undir hinna.

138. Við þeim hvergi víkja má,
Varnir sneyddust allar;
Sundurflöktu loks um lá
Líkt sem grindarhjallar.

139. Vörn ei hætti sveitin svinn
Á svoddan skrapatólum,
Fyr enn öll þeim fallstykkin
Felldu skot af hjólum.

140. Enskum þótti orustan heit,
Ei að sigri flana;
Nelson friðar ráðslag reit
Ræsis syni Dana.

141. Krónprinzinum það var þekkt,
Þulu benja grynnti,
Blása ljet til friðar frekt;
Framar skothríð linnti.

142. Danskar vildu dróttir þá,
Drifnar hug órögum,
Betur Enskum berja á,
Með bombu reiðarslögum.

143. Herfang varð hjer Enskra ei,
Eptir sem þó fuma;
En skipa fúin skrokka-grey,
Skrælda brenndu suma.

144. Hersforingjar tveir og tveir
Tvídrægnina jafni;

Sáttmál friðar sömdu þeir
Sinna' í kónga nafni.

145. Hyde Parker heim á leið
Hefrings snjeri svönum.
Nelson lengur nokkuð beið,
Nestaður vel af Dönum.

146. Ganga víða gæddar trú —
Gæfan efli þetta!
Friðar smíða frjettir nú
Frakka milli' og Breta.

147. Bónaparte búa kyns
Bardögum lætur þverra,
Franska' er orðinn frílandsins.
Fremsti stjórnarherra.

148. Enn nú greina fregnir frá
Framar með hástöfum
Ógnar stormi', er yfir brá
Í austur - og norður höfum.

149. Kaupmannshöfn að vísu vann
Voða mikið svaða;
Borgundar á hólmi hann
Hæstan gjörði skaða.

150. Hristist jörð, en hræddist drótt
Hríðar - brims í kófi;
Mölvaði húsin, skóga skjótt,
Og skip, úr öllu hófi.

151. Höfuðskepna heill er stór
Heiminum ákvarðaða,

Þó vindar, eldur, vatn og sjór
Vinni' opt mönnum skaða.

152\. Mörg er að heyra hjer og þar
Heims um lönd og græði
Skæð umbrot og skelfingar.
Skal nú lokið kvæði.

153\. Til að vekja þýðri þjóð
Þægilegast gaman,
Tveir prófastar tíða-ljóð
Tvinnuðu áður saman.

154\. Þó við jafnast þessa hjer
Í þanka setri kyrra
Aldrei hef jeg ætlað mjer,
Allra sízt þann fyrra.

155\. Þeim sem góður mikils mat,
Mislynd geði svölu
Átjánda þó öldin gat
Ýtt úr skálda tölu.

156\. Margur hver á meðal vor,
Metinn sem af hæðum,
Tyllir aldrei tám í spor
Tignarmanns að kvæðum.

157\. Allgóðvikin utan kaup,
Eins og merkja dróttir,
Af Gyllings víni gaf mjer staup
Gunnlöð Suttungsdóttir.

158\. Stamur greppa ölværð í,
Andi bljes ei meira;

Gaman hreppi þeir af því,
það sem lesa' og heyra.



# Tíðavísur
## um árið 1802.

1. Tíða - vísir röðull rís,
Rás er hvetur aldar;
Hennar sára annað ár
Ennið hvítu faldar.
2. Þessar systur `viku' í vist
Vondar opt, og hrönnum
Drápu fjeð og fáka með,
Færðu' kúgun mönnum.
3. Íslands hrerið allmörg ber
Ör, þar sárin voru:
Jarðeldar, og jafnt að bar
Jökla - hlaupin stóru.
4. Hristast fjöll, með hrun og sköll,
Hrapa byggðir manna;
Brestur jörð og björgin hörð
Brauk við jarðskjálftanna.
5. Geystur sjór og stormur stór
Strönd og lendur brjóta;
Sandfok hörðu sökkva jörð;
Sein er von til bóta.

6. Regna-föll og skriðu-sköll
Skaða byggð og eyða;
Elfur þrátt, með öflgan mátt,
Undirlendið sneyða.
7. Blæs upp jörð í holtin hörð;
Hraun, blágrýti, sanda
Finnum þar, sem fyrrum var
Frjófsemd allrahanda.
8. Skóga hjer nú eptir er
Ekki parið víðar,
Sem áður þó með aldin frjó
Allar þöktu hlíðar.
9. Öllu hjer svo aptur fer,
Eins og dæmin sanna,
Bætast á með þungri þrá,
Þrautir harðindanna.
10. Lurkur títt um landið vítt
Ljek í þjóð-minningum;
Þessi par ei vægri var,
Vetur, að fanna dyngjum.
11. Árið hitt með illan kvitt
Al-fjár dauða kvaddi;
Líknar bönnum, læsings fönn
Leyfði', og nóg af gaddi.
12. Harðindin, og hafviðrin
Hótuðu grimmum dauða,
Væri heya-aflinn ei
Eins til hesta og sauða.

13. Þorri og góe þungum snjó
Þegar niður hlóðu;
Hafís-þök með hörku blök,
Hring um landið tróðu.

14. Ærsli hríðar enn nú stríð
Einmánuður þreytti.
Ekki hót á böli bót
Byrjað sumar veitti.

15. Á út-kjálkum óárs bálk
Allt fram dró að messum;
Engin jörð, en áföll hörð
Opt á tíma þessum.

16. Vetrartíðin var óblíð;
Vorið snautt af góðu.
Missiri heilt við hey óveilt
Hestar víða stóðu.

17. Hvar það brast, varð harðfengast
Hesta tjón og sauða;
Þetta víðar þó að lýð
Þokaði efni nauða.

18. Fyrra sára fellis ár
Fækkaði skepnum manna;
Lítil var því víða hvar
Von til bjargráðanna.

19. Færra úr hor þar fjell í vor,
Fjár-eignin var smærri;
Flest að beit hin bezta sveit
Beið nú fellir stærri.

20. Úr krossmessu', og til þess
Eitthvað flóni' í reitum,
Reynt var hjörð að reka' á jörð,
Rauða' í öðrum sveitum.

21. Sumarið allt var sára kalt,
Sinnti ei högum betur
Enn meðal ára margur klár,
Mildur og góður vetur.

22. Máni hjer til meina hver
Mjöll um byggðir sáði;
Penings gagn og gróður-magn
Grimdar-harkan þjáði.

23. Lestum nær, því lengst ófær,
Loksins sveitir tróðu.
Suður-fjöll í sumar öll
Sollin jökli stóðu.

24. Ofaná flestar eymdir mest'
Enn grasleysi bættist:
Jörð öll grá af sinu' að sjá;
Seint úr slíku rættist.

25. Fimmtán vikna fram bar strik
Fyrri sumar-tíða,
þegar mátti þenkja' á slátt,
þó enn seinna víða.

26. Sífeld hretin loptið ljet
Lýja menn og þreyta;
Allt mót-drægt, en ekkert hægt,
Er lið mátti veita.

27. Út á sveitum af tók beit,
Opt í fönn nam sökkva;
Ætlaði slegið ei þar hey
Inni kúm að hrökkva.
28. Svo var stirð og sælu firrð
Sífelt veðuráttin,
Að nærri lá þær legðust frá
Lífinu' um hæsta sláttinn.
29. Undir haust varð hafíslaust
Hjer fyrir norður landi,
Og kaupskip í sama svip
Svifu af eyja bandi.
30. Haustið eins var mjög til meins,
Mengað fjúka rokum;
Heyaflinn var harðsnúinn,
Harla rýr að lokum.
31. Með Október, og allt úr því
Ófönn niður setti;
Kafhöld hörð þá kýfðu jörð,
Krapa hríð á sletti.
32. Tók af beit í svip um sveit,
Svella þyngði pressu;
Óárs skeið svo áfram leið,
Að allr'heilagra messu.
33. Svíaði til um sama bil
Síðan árs að lokum;
Tíðin væg, og harkan hæg,
Hríðar ljetti rokum.

34. Það leifði vor, af hungri og hor
(Hefði' ei fallið betur),
Mundi deytt og allt gjör-eytt,
Eins fyrir miðjan vetur.
35. Aflabrögð að sunnan sögð
Sæmileg hjá mönnum;
Vestra líkt er vottað slíkt
Vertíðar af önnum.
36. Allt að hausti aflalaust;
Isar landið gyrtu
Hjer til meins, og eystra eins,
Ýmsri blessun firrtu.
37. Síldar veiði', í vor er leið,
Veittist Eyjafirði;
Eyddist bezt og allra mest
Eymdar hagurinn stirði.
38. Gagnið smátt, því firna fátt
Fjárins eptir slórði,
Dregið úr sterkri dauðans kverk,
Dug-ljett það sem tórði.
39. Mundu dauða' og mestu nauð
Menn hafa hlotið kanna,
Hefðu' ei kætt og böl oss bætt
Byrgðir kaupstaðanna.
40. Reki hvala skeður skal,
Skæðu' að forða grandi,
Hjer og þar til hagsældar,
Helzt í norðurlandi.

41. Í Málmey skal upp skotið hval,
Skeggs með breiðum þönum;
Bóndinn stal og fólann fal,
Fullur þar af honum.
42. Enn þá dröfn nær Hofsóss höfn
Himinglæfa sveigði,
Stiptamtmanns á lóð til lands
Löðrið öðrum fleygði.
43. Á Siglunes um síldar fles
Síðar bar hinn þriðja;
Hjeðinsfjarðar fjórða varð
Flís um ís að ryðja.
44. Á Flateyjardal hinn fimmti skal
Farga sultar gröndum;
Langaness um sækóngs sess
Sjötta bar að ströndum.
45. Af Barðaströnd nm stökkuls rönd
Stór-hval fundu kættir,
Beinlaus sá, en búknum á
Bar tvöhundruð vættir.
46. Lífið allt er veikt og valt,
Vill að dauða stefna:
Utanlands af múga manns
Má jeg fjóra nefna.
47. Krónprinz dóttir nýfædd nótt
Náði dauðans kanna,
Ellefu daga', og hefðar hag,
Himins flutt til ranna.

48. Gyldendal afgenginn skal,
Gamall bókhöndlari;
Og Balle's trúa byskups frú,
Blásin lífs af skari.

49. Hæsta-rjettar höfuð sett
Hafði skipti' um reiti
Lögspekings er kunst var kring,
Kolbjörnsen að heiti.

50. Líkför hans, þess mikla manns
Margir herrar prýddu,
Og sæmdar þjóð með sorgar móð'
Sorta kápur skrýddu.

51. Heilsu góða hafði þjóð
Hjer, þótt erfitt gengi,
Fátt við skilið, frjettist til
Fólk af heldra mengi.

52. Amtmaður, hjer útlendur,
Alinn kostum hreinum,
Vibe dó, sem virtist þó
Vel í mörgum greinum.

53. Sannleiks beinn og sinnis hreinn
Sjera Steffán deyði
Halldórsson, í helgri von
Himin lengi þreyði.

54. Vandaði presta verkin bezt
Við ei sjónlaus hætti
Að leggja stund á lánað pund
Líkt og sitt embætti.

55. Sama tjóni sjera Jón
Sætti' og gafst ei frestur,
Rómast dáinn reisu á,
Reynistaðar prestur.
56. Deyði einnig sjera Sveinn,
Sem í Stöðvarfirði
Kenndi búum kristna trú
Kjörinn múka-byrði.
57. Á æskuskeiði eystra deyð
Ormur stúdent hreppti
Arason, frá ektakvon,
Anauð lífsins sleppti.
58. Borin Páli Björg forsjál,
Bærðum dauðans hrammi
Ekkja svinn var úthafin
Einars prests í Hvammi.
59. Þingeyra presti Þorlák' fest,
(Þarfa tóls með gnóttir)
Áttræð heimsins kvaddi keim
Kristín Ólafsdóttir.
60. Eyða-þinga auðs sikling,
Undir helgum feldi,
Guðmundsdóttir Þórunn þrótt
Þreyði' og lífið seldi.
61. Þóroddsstaða Þóra trað,
Þæg og spektar kvinna,
Þorleifi skriptar-þýði gipt,
Þjóðbraut feðra sinna.

62. Angurværar ekkjur tvær
Eptir presta þreyðu,
Fengu ró, í friði þó
Fagnaðarsælum deyðu.
63. Sótt og slysin magna' á mis
Mönnum þrauta byrði:
Úr fjalli hraut og bein sín braut
Bóndi' í Eyjafirði.
64. Í Grímstungu áföll þung
Orkuðu sárra nauða:
Hríð allt fjeð og mann þar með
Mæddi loks til dauða.
65, Ofan af fjalla steina-stall'
Steyptist maður og deyði,
Vetrar síð, í vonzku hríð
Villtur á Kleyfárheiði.
66. Barðastrandar Bjarni grand
Bruggaði heiptar flana:
Sambýlismanni' og sinni vann
Sjálfur konu bana.
67. Utanlands þess íllsku manns
Argir makar vóru:
Sama ár þar skeðu' uppskár
Skelmisverkin stóru.
68. Skálkar tveir, sem þenktu þeir,
Þar og myrtu væna
Herrafrú, en hennar bú
Hnossum beztu ræna.

69. Djöfulóðir deyddu' og fljóð
Dyggt, sem henni þjenti;
Lykla snarir leita þar,
Lásunum upp svo flennti.
70. Lykla eigi greitt upp grey
Grufla' að járnbyrðunni,
Gjaldið þar og gersimar
Geima bezt er kunni.
71. Sigurverk tvö mjög svo merk
Meður sylfur-skjöldum
Stálu' um kveld, en kvikan eld
Kveiktu' í hússins tjöldum.
72. Stolin síðan sylfur-smíð
Sönnu' uppkoma mundi;
Beið ei langt, að straffið strangt
Strákana yfir dundi.
73. Góeþræll ei þótti dæll
Þjóð að róðurs önnum;
Syðra kátur bilti bát,
Banaði tveimur mönnum.
74. Bylgjan þvera bát við sker
Bilti' í storma vjesi,
Ei voru fleiri á enn tveir
Af Seltjarnarnesi.
75. Guðmund þar að bónda bar,
Bjarga vildi', ef kynni;
Með stóran hug og sterkan dug
Stýrði' í brimhríðinni.

76. Boðaföll og bylgjusköll
Bátinn yfir ríða,
Æðrast tveir, en urðu þeir
Yfirmanni' að hlýða.
77. Manni náði', er mál og ráð
Missti, en hinn var taptur,
Dró til lands og læknarans;
Lífið fjekk hann aptur.
78. Fyrir slíkt svo frægðarríkt
Fagra' af gulli nýju
Guðmund þann nú gæða vann
Gylfi, medalíu.
79. Heiðursmerki manndómsverk
Mætt skal þetta krýna,
Á mannfundum æfistund
Yfir brjósti skína.
80. Kaupskip þrjú um karfabú
Komu' á Eyjafirði,
Hafnaði lags til höfuðdags
Hafís landa-gyrði.
81. Eitt, það tvista útivist
Átti' í seytján vikur,
Fjórtán daga fjekk opt slag
Fast í ísa-kviku.
82. Höfða-skip eitt hafíss grip
Hart til baka setti,
Á Vopnafjörð, um fiska jörð,
Farminum af þar ljetti.

83. Á leiðinni hingað, landið kring,
Lá við broti sættu;
Eins hrakning á útsigling,
Af þeim nokkur mættu.
84. Eyjafjarðar að því varð
Öldu fylltum hröfnum,
Stríðum í sem Októbrí
Út þar fleyttu' af höfnum.
85. Austan hríð þá ofsastríð
Undir Strandir spennti;
Hjaltsteðs skip þar senn í svip
Sundur brotið lenti.
86. Mönnum sjórinn steypti stór,
Stemmdust bjargar fundir,
Í óbyggð fast þar bröttum brast
Brimið stöpum undir.
87. Annað, þar sem eptir var,
Áður heitið Fálki,
Við Norveg stökk — og síðan sökk —
Sundur á kletta - bálki.
88. Eitt af þeim til Hafnar heim,
Helgasonar, skrölti;
Vetur þenna' hann verður enn
Vakur í kaupmanns brölti.
89. Enn hefur mar, með ærsla far
Yfir djúp og grunnið,
Skagastrandar skipi grand
Skaðvænlegast unnið.

90. Mörgum dröfn á háska höfn
Hels í gaupnir skirpti.
Kunnugt mjer það ekki er
Eins og vera þyrfti.
91. Ef að brestur æfi prest,
Upp þá rísa' að nýju,
Og sæti hans, þess sómamanns,
Sækja' um aðrir tíu.
92. Sjera' að bón fjekk Salómón
Sitja' á Dvergasteini,
Og Mjóafjörðs að metta hjörð,
Maðurinn drottins hreini.
93. Syni Ögmunds sjera glögg
Sigurði fregnin greinir
Herrar greitt að hafi veitt
Höfðabrekku' og Reynir.
94. Voðmúlastað sjer Auðunn að
Á og Krossi lypta;
Prestar þeir til þægðar tveir
Þannig brauðum skipta.
95. Gunnlaugur bað, og gjört var það,
Gæfum bóka hlyni
Reyuistað þeir rjettu að
Rýmdan Magnússyni.
96 Ríp og líka Viðarvík
Vænsta biskups niður
Magnús fjekk, sem mennt var þekk,
Mála helgi smiður.

97. Um Glæsibæ við saltan sæ
Sjera Jónar skiptu
Og Myrká, sem eptir á,
Amtmenn hvergi riptu.
98. Gjörðarmenn frá gylfa enn
Gæta' að hverri lendu,
Ár er hvarf í áminnst starf
Austur og norður vendu.
99. Setja þing, að sönn virðing
Semjist bújarðanna,
Og hverri á það halda má
Hjálpar-peninganna.
100. Eitthvað hjer ef út af ber,
Eða þykjast hvekktir,
Hafa þeir vald með hefnðargjald
Hina' að fella' í sektir.
101. Hólastól, það höfuðból,
Hans með umboðsjörðum,
Upp þeir bjóða ítri þjóð
Í Eyja- og Skaga-fjörðum.
102. Margur sá, sem ekkert á,
Og er að skuldum kunnur,
Býður snjall við koti kall
Kúfaðar sylfur-tunnur.
103, Amtmenn færast upp og nær
Efstu metorðanna
Turnum þeim, sem hefur í heim
Hoffólk konunganna.

104. Etazráð af öðlings náð
Allir skulu þeir heita;
Eins er það, í annan stað,
Eiga' um klæði' að breyta.
105. Kjól þeim rauðan brúka bauð
Baldíraðann á jöðrum
Rósum gulls, og ríft til fulls
Rífkaðir hatta-fjöðrum.
106. Skúfur gljáir öxlum á,
Iða' af gulli rauðu;
Herstjórar kóngs hátignar
Hafa þau merki' ótrauðu.
107. Beltið við þeir bera' á hlið
Bundinn korða' af stáli,
Hýðis mynni' og handkafinn
Hefrings leiptra báli.
108. Beri annar búning þann,
Boðin kóngs til halda,
Hundrað dala heillra tal
Hefur í sekt að gjalda.
109. Friði klárum fyrra ár
Fögnuðu allar þjóðir,
Franskir það og Enskir að
Yrðu vinir góðir.
110. Bónaparte búinn svart
Bretar rjetta' að öldum,
Sem eitur-kind í ýmsri mynd,
Eir-mindaðan á-spjöldum.

111. Upphefð klára öfund sár
Ei má hans umbera,
Heiminum manninn hataðan
Hyggja þeir að gera.

112. Listamanns skal lasta krans,
Líf, og allt hvað gerði;
Djöfla fans við dauða hans
Dikta þeir seinast verði.

113. Viðbjóðslig hjer sjái sig
Sveitin rægikauða,
Ljúgfróðum sem lastyrðum
Lifandi berja' og dauða.

114. Auðlegð, friður, ágætið,
Auðna' og veldi Frakka
Innanlands sem utan hans
Er harðfengi' að þakka.

115. Heimtustór ef hjálmaþór
Heldur kann að vera,
Bresti hans, þess mikla manns,
Mega þeir vel umbera.

116. Þetta gæða þjóð nærstæð
Þvaður mæðist heyra.
Tóm er kvæða orðin æð,
Ekki blæðir meira.



# Tíðavísur
## um árið 1803.

---

1. Nýársdagur nú upp fagur rennur;
Fyrri baga farsældar
Færi' oss hag til umbótar.
2. Aldar þriðja ár nú liðið sannast,
þrauta viðjur vægri þó
Og veðra hryðjur hægri dró.
3. Svo um skiptast sæld og tiptun gjarna;
Eptir sviptir eigna manns
Auðnan lyptir kjörum hans.
4. Optar rætist, að ef gætum, bræður!
Heimurinn græta hjartað má,
Ef himininn kæta síðar á.
5. Veraldar sonur varla honum skeytir,
Sem allskonar sælu skín,
Sálar von er gýll úr rín.
6. þess meir gæða guð upphæða veitir,
Brjósti glæðast elskan í
Á, og fæðast hlýðni ný.
7. Árið leið fyrir utan neyð mjög stóra;
þorra skeið ei þreytti hríð,
þá gekk heiðrík frosta tíð.
8. Storma þrasi stýrði lasin góe,
Um nam flasa yggjar sprund,
Ör í fasi' og stygg í lund.

9. Einmánaðar ofsa-glaðir vindar
Hjetu skaða hauðri' og lá,
Harðlundaðir víða þá.
10. Vorið allt sár voða kalt með hretum,
Kosta hallt af kvikfjenað
Komst gjörvallt og lọtum að.
11. Menn því kviðu, mundu við ei standast
Frost-hretviðrum frekum þó,
Fram að miðjum Júlíó.
12. Sendi drottinn sumars gott hádegi,
Heitt og vott, því hagsæld bar
Hauðri', er sprottið lítt þá var.
13. Með sögðum hætti seint því rættist gróður;
Bág varð slætti biðlund á,
Búa grætti skortur sá.
14. Mæðu klemmdir menn við rembdust sláttinn,
Vætur stemmdu verkin, því
Víða skemmdust heyin ný,
15. September þó sýndist verr útleika:
Hretin þver og hryðju lopt
Hreifðu sjer til þrautar opt.
16. Heyja-fengur helzt varð mengi tæpur;
Vestra' á engi að vetri lá
Volkað lengi, skemmt að sjá.
17. Úr Mikkaelismessu vel nam batna;
Frosta jel og fjúka þrá
Framar teljast ekki má.
18. Hret á ný í Nóvembrí kom miðjum.

Allt frá því, á árs-lok fram
Örn ei skýja bærði hramm.

19. Hefði tíð svo hæg og blíð ei fallið,
Fyrir kvíða máttu menn
Missi víða stórum enn.

20. Heyin lítil, hagfeld nýting minni,
Vart til hlítar, vurðu þó
Vetrar hvítum undir snjó.

21. Aflagóðu ári þjóðir sættu,
Víðis hlóðu vagna krans,
Og veltu móðir heim til lands.

22. Syðra' og vestra sagt með bezta móti,
Nyrðra blesstu eystra og
Ægis hesta veiðitog.

23. Sjúkdómskvíði sjer ei víða hreifði;
Heims frá stríði hjeðan dó
Heldri lýða nokkuð þó.

24. Landsins mesti læknir bezti talinn,
Sveinsson ljezt nú syðra Jón,
Sefaði brest og heilsu tjón.

25. Góðlundaður, gæzkumaður öllum,
Lærdóms- glaður -listir hann
Lífs fagnað æ meta vann.

26. Magnús bera mundi' að skeri sama,
Reiknings gera skyldi skil
Skulda Þverár klausturs til.

27. Sigfús hast í sæti brast og æli,

Sem prófasta settur var
Sýslu vastri þingeyjar.

28. Staðir og kyrkjur stopulvirkum hrósa,
Hvað hann styrkja hvort um sig
Hvatti' og yrkja', ei snertir mig.

29. Getinn annars gáfumanna jafni,
Skáldmælanna sjelegt safn
sæmdar kann að geyma nafn.

30. Rænu bresti' á reisu ljezt og Einar
Haldinn mest, úr helgi-röð,
Hann var prestur fyr á Stöð.

31. Í Hofteigi og húsfreyja þórunn,
Prests þar eigið ektavíf
Einars, þegið missti líf.

32. Kolfreyjustaðar kona jaðars hökla
þuríður trað og þessa braut,
þág fagnaðar himsins skaut.

33. Af slisförum og ókjörum mikið,
Er óvörum ýmsan sló
Álma bör um land og sjó.

34. Úr hlíð Kræklinga hleypa slingir tíu
Með útbúningi ásett var
Áttæring til Grímseyjar.

35. Runnum spanga rataðist þangað leiði;
þar tíð langa, þörf sem bað,
þorska ganga kaupum að.

36. Hlynntu veiðar, hlóðu skreið og vildu

Beina leið til landsins inn
Láta skeiða byrðinginn.

37. Grímseyjar prestur gekk á hestinn voða;
Síðan festu segl við rá;
Súðum brestur hefring á.

38. Hörku' ofbeldis hríð á skelldi norðan,
Grið ei seldi', í grimmdar svip
Græðir svelgði menn og skip.

39. Grafar þró í grunni sjóar hrepptu;
Sjera Bóas Sigurðar-
Sonur dó, og hinir þar,

40. Þrír á degi þessum fleyi hrundu
Úr Grímsey, og vestur við
Vildu sveigja' á hákarls mið.

41. Gautar ýra gættu' ei hýrir taka
Sjóföt, stýri, sigluvoð,
Settust þrír á fiskignoð.

42. Miðin á þeir máttu ná að sönnu;
Í svip við brá þar sjó og vind',
Siglu smáa skóku hind.

43. Hungrið marði, hræðslan skarðar friðinn,
Hafsjór barði hörku þrótt,
Hríðin varði dag og nótt.

44. Loks hálfdeyddir, lífsins sneyddir þörfum,
(Brim við freyddi björgin hörð)
Bátinn leiddu' á Skagafjörð.

45. Lentu á Hraunum, ljettu raunum síðan,

Eymdar kaunum einn þar dó.
Almenn laun af stormi' og sjó.

46. Skipa þriðji skaði við Oddeyri,
Veðra hryðju vondri í,
Varð, og miðjum Nóvembrí.

47. Þrjá karlmenn, og þar til enn nú konu
Hrannar spennu hroða skap
Hremmdi senn, og alla drap.

48. Talað er, og til það ber á stundum,
Að darra grjer ei dirfsku frí
Dæi Hjeraðsvötnum í.

49. Miklu fleira má og heyra' af slíku;
Í dróma keyrir helja hart
Helzt óeirin fólkið margt.

50. Vígðra, dauðra, og veiting brauða síðan
Frjettum snauður af jeg er,
Af því trauðla berast mjer.

51. Jafni beztu Jónas presta' að Höfða
Kjörinn sezt við keilu fles;
Kapellan festir Skúli Nes.

52. Að Bæsá rýma ber Hallgrími vígðum,
Prests þar stíma verkin við
Vel um tíma, Þorsteins nið.

53. Sjera Jón er settur að tóna' og messa,
Prests meðþjón að Þóroddsstað,
Þorleifs bónorð sem á kvað.

54. Sjera' á Hólum sonur Ólafs Gísli

Var í kjóli, verður þess,
Vígður stóli Reykjaness.

55. Fúlu' andana' að fæla svana röddu,
Kapellanar þessir þar
Þrír, og vana klækja par.

46. Byggð og heiðar Björn fór leiðar þangað,
Var að Eyðum Vígfúss bur
Vel sem beiðist helgaður.

57. Stiptis- hreifir stýris sveif -prófastur,
Vígslu reifar heklum hann
Hina', er leyfa byskup vann.

58. Á allar hafnir ók hjer drafnar vögnum
Auðs með safni útlenzk þjóð;
Á odda jafnan kaupið stóð.

59. Allt þeir pranga auðs í svangan maga;
Þörfin stranga orsök er,
Að því ganga hljótum vjer.

60. Eyjafjarðar enn þá varð kaupmanna
Greylegt skarð, því söfnuð sekt
Senn á barði skulda frekt.

61. Hrapaði' að vonum Helgasonur Þórður,
Strauk frá konu, börnum, búð;
Birtist svona meðferð prúð.

62. Ráðhvarflandi reiðar þandi gota
Suður á land, og sigldi burt,
Síðan grand ei til hans spurt.

63. Allt var selt, og andanfellt ei parið,

Sem að hjelt hans sölu búr,
Sæti veltur kaupmanns úr.

64. Í borgun gengnir, betala fengu hans vegna,
Það ef rengja þenktu par,
Þyngra' á slengja dómstólar.

65. Af austurlandi íllt tilstand að frjetta:
Þjófssamband, og þeirra stuld,
Það af fjanda græðgi skuld.

66. Úr Vallaness kyrkju veiddu styrk ríksdala
Tveir illvirkjar tólf hundruð,
Tóku' að yrkja samfögnuð.

67. Kvisaði mengi, hver því drengja valdi;
Stopult gengur stuldar lán,
Strákar fengu skömm og smán.

68. Ángurs frjettir eru þetta víðar,
Stuld og pretti stráka þjóð
Stundar, rjett sem verkin góð.

69. Virðing jarða við ákvarðan stanzar,
Árferð harða umliðin
Ýmiss skarðar frumhlaupin.

70. Kjörinn dáðum kammerráð Erichsen,
Eptir bráða umreið hans,
Amt hjer þáði vestanlands.

71. Um landfóeta líka' er getið nýjan,
Stjórnar letra mettur merg,
Mælt var hjeti Fryðensberg.

72. Burtu Finne býst, þar hinn er kominn

Fógetinn, sem fyrri var,
Fús til sinnar ættjarðar.

73. Virðinganna veltur sanna frjettir:
Stjórnaranna stýri tjá
Stiptamtmanni vikið frá.

74. Mærings vini mjög svo kynjar þetta,
Aðrir skynja ýmsir hjer
Orsökina betur mjer.

75. Stillir mætur stiptamts lætur prýða
Aptur sætið Erichsen;
Ýmsa grætir þetta ljen.

76. Nefnd er sett, sem nú skal rjett aðgæta.
Ýmsra stjetta sýslun senn;
Suma þetta hræðir menn.

77. Rannsókn tjáða ræsi skráð afhendist
Hans skal dáða um herra trú
Hæstu ráða dómur nú.

78. Ýmsir bragnar eigin gagni sæta,
Meta fagnað maurakrans,
Meir enn hagnað náungans.

79. Verkin mannsins votta hans frómlyndi:
Föðurlands ei elska er
Allt, sem glans af henni ber.

80. Búar slota biti hnota' áreitast
Í samfloti á einum taum
Af eiginnota rekast straum.

81. Ljón í kyrrð þó lund-ill virðist björnum,

Ráði spyrðast einu á,
Ef skal myrða dýrin smá.
82. Engi' er sómi, auðna' og blómi slíkur,
Sinni frómu sýna stjett,
Sem eintómu' að stunda rjett.
83. Þótt mótlæti þyrnuð stræti troðum,
Er sælgæti innra manns,
Yndi' og kæti góðverk hans.
84. Auðnu sól ef æfiþjóli ljómar,
Geðs um ból sig tvöfalt tjá,
Tignar stóli situr á
85, Dýrkara tryggða dauða hriggðum sneyðir,
Æfi dyggðum sáða sjá,
Og sælu byggðir opnar stá.
86. Deyandi hjarta dirfir snart að mega
Sólar bjarta' að setjast þar
Sigur - skarti í fylkingar.
87. Ó hvað fáa að vjer sjáum þannig
Himininn þrá, enn heillum mest
Í heimi sá er geta bezt!
88. Þung er tiptan, þau umskipti reynum,
Ísland sviptist ýmsum mest,
Er þess giptu rækja bezt.
89. Framandi landa friðar band ei styrkist:
Hremsu standa hríðir enn,
Hrella, granda' og drepa menn.
90. Orustu hanzka ýmsir kannske missa.

Enn þá Danskir eru' í frið',
Enskir Franska rífast við.
91. Hers ógrinni hjeðins kvinna steypir;
Hvorugir vinna öðrum á,
Ei því linna styrjöld má.
92. Enskir í sjónum etja lóna vörgum;
Hinir fróni herja á,
Harðara ljónum berjast þá.
93. Franskir þeigi fá á eyjar Breta
Landsher dregið sinn í svip,
Sitja' í vegi hinna skip.
94. Útgrynningar England hringa víðast,
Hervíkingum hepta flot,
En hafnir kringum varnarslot.
95. Her þó sendi hinir á lendur Frakka,
Skotinn, brenndur skjögrar heim,
Skotta' ei stendur neinn við þeim.
96. Öld spekinga upplýsingu hrósar;
En siðu' heiðingja sæmir þá
Særa, stinga, drepa' og slá.
97. Að vita minna virðast kynni betra,
Skikkun sinna skaparans,
Og skyldur vinna' að boðum hans.
98. Þetti' að framan frjetta glamur stamað;
Steypi jeg saman stirðum óð;
Stundar gaman virði þjóð.



# Tíðavísur
## um árið 1804.

---

1. Nú skal vakna' á nýársdag og nokkuð kveða;
Um árið það sem af er liðið,
Og í gær í burtu skriðið.
2. Ár nítjándu aldar fjórða út er runnið
þegar dægur þannig spinnast,
þættir munda saman tvinnast.
3. Skjótt þá nýárs skein fram sól um skýja
brautir,
Gaf oss einkar góðan vetur
Að góu fram og jafnvel betur.
4. Himinblær af höfuð-áttum hægt rjeð gusta;
Fyrir bæði fje og hesta
Fóður af jörð nam ekki bresta.
5. Fögnuðu menn að fá nú vetur fagra' og milda,
Eptir hina áðurtöldu,
Er ákaft skepnur drápu' og kvöldu.
6. Sár-blautum var sumar-heyjum saman
hrúgað;
Mundu því ei mikið duga,
Menn ef skorti beit hentuga.
7. Góe þótti geysi hörð í gjeði' og fasi,
Storð um brauzt með stormavjesi,
Stundum æði kalt þó bljesi.
8. Vinda barði viðblinds kvinnu vængjum dreki,

Hríðir jóku hrelling kviku,
Hröktu' og skóku' um dimbilviku.
9. Grænlands norðan greypti landið grimmur ísa
Alinn hörku ærinn klasi
Áttar hafs í storma þrasi.
10. Eptir páska aptur stilltust áhlaups veður;
Himins urðu úr hörkum þýður,
Hagkvæmar á allar síður.
11. Sumars heilsun sárköld þótti' á sumum stöðum,
Varðist þó samt vonzku hríðum,
Vægar hörkur opt og tíðum.
12. Virðast mátti vorið þó með vægra móti,
Græna sáum gróður - feiti
Græða sig um túna reiti.
13. Grasvöxtur þó grannvaxinn á grund að lokum,
Hrjáðist mjög af súldi, svækjum,
Og sára köldum daggar lækjum.
14. Hafíss - stanglið hörkur jók og hríðar norðan,
Utan hverjum fyrir firði
Fannar storðar yfir gyrði.
15. Volkuðust heyin víða hvar, en vart til skaða,
Sumir blautum saman hlóðu,
Sjóðheit nærri bruna stóðu.
16. Haustið allt var hörku blandið hríðar flögrum
Út að messu allr'heilagra,
Upp þá rann oss veðrið fagra.
17. Allt til nýárs æskilega entist tíðin;

Gladdist mjög við þetta þjóðin,
Þróast mundi vonar gróðinn.

18. Sæmilegt var sagt um afla' á suðurlandi;
En vel með Jökuls vestur-ströndum
Veiði leikur þar í höndum.

19. Nokkur afli norður og austur nú um fjörðu;
Hafís gjörði happið skerða,
Hann var seinn til burtu-ferða.

20. Opt var gagn að ísakomu' á öldum fornum:
Rekar hvala' og viða vænni
Veltust upp að foldu grænni.

21. Gekk á fiskur gjarna með þeim Grænlands jökli;
Kringum jaka kræfir stikla
Og kræktu þar upp blessun mikla.

22. Þornaðir eru þessir brunnar þorsta traustir.
Skröltu um landið skreiðar lestir,
Og skröpuðu saman nokkuð flestir.

23. Kvikt úr sjó þar kunna menn nú hvergi að hitta,
Langanes og líka Sljetta
Ljós eru dæmin uppá þetta.

24. Stór veikindi' ei stiptað hafa starfa mönnum;
Fyrir því hver á fold og unni
Forsorgunar leita kunni.

25. Eptir því sem alvalds höndin út rjeð býta
Hjálpræði til sjós og sveita,
Sjerhver mátti glaður neyta.

26. Hefir þó dauðinn höggvið skarð í heldri
manna
Tölu, sem að ýmsir unnu
Æfilangt og sakna kunnu.
27. Erichsen frá amts er vestra umsjón dauður,
Um stund oss settur stiptamtmaður,
Stórborinn og velmenntaður.
28. Hans má söknuð hauður ísa hafa' í minni,
Velferð þess hann vildi sanna,
Vænsti einhver tignarmanna.
29. Fóetinn sem fyr hjer var og Finne liðinn,
Sá viðskilinn sessinn tjeðan,
Sigldur þó ei burtu hjeðan.
30. Nefnist Oddur nótaríus nú andvana,
Búinn ættar beztu láni,
Borinn presti var Steffáni.
31. Ef góðmenni einhver hjer af alda sonum
Heita mætti, svo ljet sína
Sanna hógværð æ fram skína.
32. Úr sveit andlegri svo og líka Sveinn
er misstur;
Sat Knappstaði sæmdar prestur
Sína tíð og einhver beztur.
33. Hel burt tók og heiðursmann frá hefð og gróða
Skapta prest á Skeggjastöðum
Skaptason, og helgi-röðum.
34. Sjera Gunnlaugur son Magnúsa sæmda lystur

Í riki dauðra rómast seztur
Reynistaðar klaustur - prestur.

35. Heldri manna heyrða' jeg ekki heim við skilda
Frekar þeim jeg fram hef talda;
Frjetta skortur má því valda.

36. Um slisfarir ákaflegar ei er getið
þetta ár, sem þjóðir græti,
þægðum svipti' og eptirlæti.

37. Hissuðust niður hey í tóptum hita soðin,
Nokkrir af því námu skaðann,
Norður í Múla brann upp taðan.

38. Bátar þó af boðaföllum biltust syðra,
Enga furðu ýmsir kveða,
Almennt þar menn sáu skeða.

99. Með korn og vörur komu' í sumar kaupför hingað,
Er þeir vita út að pranga
Við Íslendinga jafnan svanga.

40. Akureyrar enn nú skip á útsiglingu
Slóst í spón við Sljettu - tanga,
Slysið vill það Lynge ganga.

41. Tvær á Siglufirði fórust Friðriks skeiðir,
Sökk við Norveg þó hin þriðja,
þessa fjórðu mátti ryðja.

42. Bjargað mönnum bæði varð og byrðings fylli
Að miklu leyti ef ei öllu,
Ægis skolað sumt í höllu.

43. Báru jór og baggar hans upp boðnir voru,

Happa kaup við höfrungs mýri
Hæfði múgurinn seggja dýri.
44. Tign að biltist til og frá, er títt í heimi,
Víða flýr hún vænstu guma,
Vitlaust þegar eltir suma.
45. Útlenzkir hjer æfi' eg dvöl ei ærna hafa
Vesturamt, sem var til leyfa,
Veitt er Friðrik Trampe greifa.
46. Amtmaður Steffán Eriksens skal erfa sæti,
Stiptamtsins forstöðu veita
Störfum, þangað eigum leita.
47. Vígðir prestar víkja byggðum víða' um landið,
Upp þá gefast aðrir stundum,
Eða sofna dauðans blundum.
48. Sjera Einar, sonur Gríms, er sat í Fjörðum,
Að Knappstöðum komst í kyrrðir,
Kyrkjuna þar og staðinn hirðir.
49. Sjera Skúli, Sigfúss prófasts sæmdar mágur,
Norður eins að Nesi dregur,
Næsta hýr og góðmótlegur.
50. Eiríkur Þorleifs arfi, prestur á Svalbarði,
Niður er settur nú í Fjörðum,
Náð að boða drottins hjörðum.
51. Þórarinn Jónsson, lærdóms lítt að list og kostum,
Að Múla norður meinast seztur,
Möðruvalla klaustur - prestur.
52. Sjera Ingjaldur sitt í Múla' afsagði brauðið,

Lærdóm drottins lengi skoðað
Og lífsins veg þar hafði boðað.
53. Vígður Möðruvalla til er vænsti maður,
Heyrari Jón á Hólum áður,
Harla vel að menntum dáður.
54. Sigurður stúdent Sigurðsson ásamt að Völlum
Vígður þótti vel til fallinn,
Við skulum ekki tvíla karlinn.
55. Styrjöld ekki stillist par und' stjörnu hvolfum;
Bombu má í byljum skjálfa,
Börn sín drepur norðurálfa.
56. Enskir og Franskir aldrei hætta örlög stofna,
Himininn fyrri heiður rifnar,
Og her úr jörðu dauður lifnar.
57. Frelsari hinnar Frönsku þjóðar frægða listur,
Bónaparte herra hæstur,
Hátign kónga þegar næstur.
58. Herstjóri í heimi mestur hárs á kvendi,
Almennt haldinn ósigrandi,
Eldi' og járni fram brunandi,
59. Keisara tign hann kaus í haust með krónu' og sprota,
Allir Frakklands ítru sveita,
Eiða' að tryggðum skyldu veita.
60. Heilagur páfi á höfuð setti hans kórónu,
Gimsteinum og gulli búna,
Geysi stórt um dýrð var núna.
61. Heims þeim áður höfuð presti hratt af stóli

Bónaparte sigursæli,
Saung og klukkur hinn þó stæli.
62. Í sæti' upp aptur setti hrók að sunnan kominn,
Trúarbrögð hans sjer ljet sóma,
Sálumessur, helga dóma.
63. Kristófórs og Katrínar að kríka stólpum
Krupu fyr og kröfðust hjálpar,
Kröggur þegar fast í dálpar.
64. Keisarans var við krýning haft að kæti manna
Veröld allt hvað veita kunni
Vellystar af skærum brunni.
65. Skalf af gleði skjöldungs höll, en skotin þruma;
Skarans þar af björtum blóma
Bar ei par á sólar ljóma.
66. Tiggja seztur tróninn á með tignar hætti
Stjórnarlögum brátt umbreytti,
Branda hríðir enn nú þreytti.
67. Á önnur ríki ekki herja' enn enskar storðir;
Og aðra þá sem uppreist gjörðu
Eggja teinum Franskir börðu.
68. Vorkunn er, þó vef darraðar vilji kljáðan
Enska við, sem ekki góðir
Æstu mót þeim flestar þjóðir.
69. Ágirndin var orsök þess hin íllsku tryllda
Frakka hripsa vildu veldi,
Viðnám trautt því hinir seldi.
70. Innbyrðis sem illvígt stríð nú áttu lýðir,

Og í grimmdar æstum móði
Út sakleysis helltu blóði.
71. Höfuð af kóngi höggvið sínum höfðu verstir,
Og saklausa öðlings næstu
Ýmsa dauða-fjötrum læstu.
72. Örsökin var álög þyngstu' á alþýðunni,
En óhóf mesta yfirmanna,
Aðalsins, og kennendanna.
73. Oðling landsins eptir sótti einvalds ríki,
Að hann mætti einn án saka
Allt sjer fyrir hendur taka.
74. Landið, eignir, líf og friður ljek í höndum
Grimmustu — um greindar mundir —
Grey-skelmira sólu undir.
75. þá týrannar þessir týndu lífi' og tóku' að fækka,
Hinir betri hefðar rekka
Hófu lýðstjórn einkar þekka.
76. Ei vóru líkur, öld í slíku arga-fasi,
Mundi hinum rönd við reisa,
Er rammefldir með hernað geysa.
77. Enska stjórnin í því trausti orustu byrjar,
Allrar norðurálfu verja
Eggjuðu nær á Franska' að herja.
78. Svíar, Danir, Sveiz, Genúa í sverða hríðir
Flönuðu ei með gínars glóðir,
Og glæstar vesturálfu þjóðir.
79. Blakkar ekkils blóðs að steypum blá-
röst tróðu.

Með harðneskjum og herbúnaði,
Hilmir Breta' er ákvarðaði.

80. Keisarar tveir og keisarainna kólgu fáka
Sendu út að saxa brauki,
Svo og kóngar fimm að auki.

81. Erfðastýrir einn, kjörfurstar átta taldir,
Og tuttugu hertogar gildu
Að tyrfings hríðar byljum fylgðu.

82. Full tvö hundruð fursta enn, og fjögur hinna
Drottnara landa meiri og minni,
Maktar stærð hver eptir sinni

83. Hermanns grúa helzt óvígan heiman senda,
Eins á storð og eyja bandi,
Að einu saman Frakkalandi.

84. Hótuðu þessir heiptar - boltum hörm-
unganna,
Aldrei stríði láta linna,
Og landið allt um síðir vinna.

75. Ofan á þetta innlendir þeim áhlaup gjörðu,
Kóngs vinir, og klerka hirðar,
Kveðjur þóttust fanga stirðar.

86. Þriðjúng lífs, er þessum sæg nú þurfti'
á móti,
Kunnu Franskir út ei íta,
Eldur og járn þá skyldi bíta.

87. Hinir þenktu í höndum leika heill og sigur,
Heiptar fylltir heitum loga
Hervirkjum í landið roga.

88. Skanza byggja, vígskörð vanda, verjur remma,
Sköfnungs jel þá skyldi dimma,
Skothríðina efla grimma.

89. Einhver mestu' um aldir mættum undur sanna:
Á skelfilegum skara hinna,
Skyldu Franskir sigur vinna.

90. Stopulli var stríðs-lukkan enn stoltir hjeldu;
Hinar Frönsku hetjur gildar
Herjuðu sem væru trylldar.

91. Óvinina eldi' og skotum ólmir börðu,
Svo þeir hörfa undan urðu;
Allir mega kalla furðu.

92. Hauðrið skalf, en himin- brestir hræðslu efna,
Kúlu flugum elda ofna,
Eins og mundu sundur klofna.

93. Hæfðu sigur einn af öðrum orku strangir,
Hrundu' af landi hervíkingum,
Hröktum, drepnum allt í kringum.

94. Hetjur mesta herbúnað og höggvörðs dyngjur
Af þeim tóku að herfangi,
Ættar- sem að leyfði -tangi.

95. Frakkaland að friða' ei nægði frægðarmönnum,
Óvini hugðust æstir finna,
Af þeim lönd og ríki vinna.

96. Her út bjúggu harðsnúinn sem hristi rendur,
Uns að ljek þeim allt í höndum
Af Austurríkis Niðurlöndum.
97. Yfir pýreneiskufjöllin annar skyldi,
Og um Spánar vaða veldi,
Vekja stríð með járni' og eldi.
98. Fimmtíu þúsund franskir slóu á fróni tjeðu,
Og herstjóra æðstan lýða;
Unnu lönd og staði fríða.
99. Alpa-fjöllin himinháu hjelt sá þriðji
Yfir, og þóttu' ei gestir góðir,
Geyst á sóttu Vallands þjóðir.
100. Hernað ráku, hjer inntóku hjeröð bæði,
Og Sardiníu siklings staði,
Sem honum var að mesti skaði.
101. Einkum þann, sem Oneglía er að nafni,
Með ærnum flota' af öldu hröfnum,
Er þar bundnir sátu' í höfnum.
102. Helgum páfa hitna tók um hjartarætur,
Hersögur þá heyrði skjótar,
Hringir og tónar messur fljótar.
103. Fimmtán hundruð ferhýrndar mílur fjekk nú landa,
Á milíón fjórðu ábúenda,
Öldin franska hreysti kenda.
104. Tuttugu' og þrjár eru taldar borgir týs með skarti

Óvinanna' er friði fyrrtu,
Og fast herskildi þeir umgirtu.
105. Fólk-orustur svo og sex með sigri háðu,
Fjörutíu og fjóra hraðir
Fram yfir hundrað námu staði.
106. Þúsund tvö, og þrjú um tuga þar til átta
Fallstykki í hríðum hrotta
Hremmdu þeir með hveiti grotta.
107. Eltu fjör úr ógnar-grúa óvinanna;
Sextíu þúsund hermenn hinna
Hertóku, sem bezta finna.
108. Öll hjer töld þeir afreksverkin unnu strangir
Mánuði átta', á málma þingum,
Meiri nokkrum hervíkingum.
109. Óvini sína eins hart ljeku á öldu skíðum,
Skutu' og brenndu' á skeljungs heiðum
Skip Hollendra' á fiskiveiðum.
110. Allir þóttust, er þeim mættu, ákaft hirtir,
Harðfengi þó helzt um kvarti,
Þá herstjóri varð Bónaparte.
111. Heimur á sigurherra fáa honum líka;
Haldinn má í hildar svaki
Hannibals og Sesars maki.
112. Framar öllum fremd og sóma Franskir hrósa,
Þeirra stjórn og veldi vísa
Vilja flestar þjóðir prísa.
113. Kóngs til nafns og ríkisráða randa þundar,

Ólu hatur óslökkvanda,
Eins og þeirra höfuð - fjanda.

114. Ei að síður öld að lokum ungan hylltu
Stjórnar til að stilla veltu,
Og stemma' að blóði sinna' út helltu.

115. Vikið hef jeg á valda bilting voða stríða,
Framgang hinnar Frönku þjóðar,
Frægð og afla báru glóðar.

116. Útskýringar yfir þetta eru betri
Í tíðindum Íslands vitrum,
Enn ofan hreittum bögu - slitrum.

117. þeir, sem betur kunna' að kveða, kæti líði,
Er mitt þrotið efnið ljóða,
Öldin haldi slíkt til góða.

# Tíðavísur
## um árið 1805.

1. Ljós af austri leiptur klár
Lopts um hvolfin glæðir,
það nítjándu aldar ár
Enn hið sjötta fæðir.

2. Oss hafa svalað, alfögnuðs
Af þeim skæra brunni,
Kristalls - straumar góða guðs
Gæzku' í náttúrunni,

3. Við óáran veldi hlíft,
Vægð oss sýndi' eintóma:
Himininn mildur, hafið ríft,
Hauðrið klætt í blóma.

4. Gengi þjóðum gæfan bar
Gott til fróns og rasta;
þar í fyrravetur var
Veðurátt hagstæðasta.

5. Svalaði lítt um svarðar kjöl,
Sveit og byggðir orra,
Varla kenndist fannar föl
Fram að miðjum þorra.

6. Heilla vetrar heitinn mund
Hægur þeyvinds asi
Hepti, því ei greypti grund
Grænlands ísa-klasi.

7. Hafa laungum hafbrim ýtt
Honum strandir kringum,
Svo er þetta næsta nýtt,
Norður-Íslendingum.

8. Ef að reis um röðuls braut
Ryk af fjúka skýjum,
Innan stundar þetta þraut
þá fyrir vindi hlýjum.

9. Jörð ósnýfin jöklum frá
Jafnt að tengum yztu;
Elfur hvolfin ísa blá
Af fyrir sumar hristu.

10. Fram leið tíðin farsæl mjög,
Fagnaðar ljek við hagur,
Til þess sumar lopt og lög
Lýsti' upp röðull fagur.

11. Veðuráttin vildi' úr því
Vorum þrengja kosti,
Himininn fjúka skyggðu ský
Skjót með með snjó og frosti.

12. Byrgðu norðan brimla grund
Bakkar hríða dimmir
Opt, fardaga allt að mund
El og kuldar grimmir.

13. Storma þegar stilltist far,
Stóð af veðri blíðan;
Himinljóma heiðgeislar
Högunum þægðu síðan.

14. Náttúran endurnýuð öll
Nægtir fagnaðs jóku;
Grænan búning grund og fjöll
Gróðrar á sig tóku.

15. Allvel blómuð yfir sveit
Afrjett, tún og hagi;
þáði grásár þjóðin teit,
það í bezta lagi.

16. Tók hjálpræðis til inndæl
Tíð, sem hepti föllum,
Heynýtingin sann-farsæl
Síðan veittist öllum.

17. Stóð veðurátt stillt og hlý,
(Stofn farsælda lýðum).
Samt í miðjum Septembrí
Syrti' af norðan-hríðum.

18. Bagaðist af því bjargræðið,
Bús- og heyskaps-fengur;
Áfellið þó varði' ei við
Vikunni' öllu lengur.

19. Þá gekk ýmist þurrt og vott,
Þaut í skýja hringum;
Haustið mátti heita gott
Hjá óss norðlendingum.

20. Þessum tíma öllum á
(Eptir sem jeg heyri),
Vindur og rigning vestur frá,
Voru langtum meiri.

21. Optar stillt og kyrrt, enn kalt
(Kusum tíð ei betri),
Fast að jóla-föstu allt
Framan af þessum vetri.

22. Veðra föll þá skiptust skjótt,
Skömmum tíma síðar
Dundu' um loptið dag og nótt
Dimmar norðan-hríðar.

23. Svo varð snjóa áköf önn,
Óstillt vinda hjólin,
Brjóta mátti breiða fönn,
Bragna sveit um jólin.

24. Þótt nú fjelli arðsamt ár
Öldum sveit byggjandi,
Sjáfarafli sagðist smár
Af suður - og vestur - landi.

25. Sumars byrjuð seint vertíð;
Samt umbætti forðann,
Þorska - veiði', er þægði' um hríð
Þeim hjer fyrir norðan.

26. Kjörheill þessi kætti lund;
Kusu menn það lengur,
Fram á haustið stutta stund
Stóð sá happa - fengur.

27. Þótti hlutur þorska fár
Þresti borinn rasta;
En heilag - fiskis afla ár
Eitt hið blessaðasta.

28. Stór - fiskanna sterkleg sveit
Storðar inn með síðum,
Brunaði' af hafi brjósta feit,
Brast og hvein í skíðum.

29. Reykjar - strokan blásturs blá
Um blíðar morgun - stundir
Hafs innbúa hernum frá
Himininn kepptist undir.

30. Skelk í bringu skötnum þá
Skaut, sem á það horfðu
Siglu ljónum æginn á
Etja miður þorðu,

31. Bæði' um vor- og vetrar-dag
Veiði-keppnum fanga
Sjerlega bætti sældar hag
Sels- og hákarls ganga.

32. Inn að leirum hafsíld hörð
Hópum trað bláröstu
Endilangan Eyjafjörð
Undir jóla föstu.

33. Sumarið færði sjúkdóms kíf
Sumum, við þótt hjari;
Heilsan vor er lífsins líf,
Já, lífinu dýrmætari.

34. Fylgdu nokkrir fötum vart,
Fyrir því dró af máttinn,
Hindraði veiki hjer óspart
Hjálpræðið um sláttinn.

35. Burt fluttust í betri heim
Börn og gamalmenni,
Nafns auðkendir saddir seim
Samt ei deyðu' úr henni.

36. Lúðist sjúkdóms langri tíð
Lífs og andar þróttur;
Endaði loksins eymda stríð,
Ólafar Jóns dóttur.

37. Guðhrædd, dygðug, ljúfri lund
Leið æ beztu vonar,
Sjera Einars ektasprund,
Áður, Hjaltasonar.

38. Lærdóms fallinn Líbanon,
Liggur í dupti Hóla:
Halldór deyði Hjálmarsson,
Heyrari þar við skóla.
39. Munu fáir mýkri enn hann
Menntarar skóla barna;
Lærdóms vinir misstu mann
Mikils verðan þarna.
40. Barns-sæng af hins merka manns,
Mitt á aldurs skeiði,
Assessoris og Steffáns
Ektafrú burt deyði,
41. Jústizráðs, sem lærdóms ljer
Landi voru gnóttir,
Sáluð og í sumar er
Sigríður Magnúsdóttir.
42. Æsku morgun æfi kvöld
Yfir skyggði hrönnum;
Hún var blóm í ungdóms öld,
Alin tignarmönnum.
43. Þá og látinn þjóðin kvað
(Þótt ei hærður yrði),
Sjera Guðmund sem á Stað
Sat í Hrútafirði.
44. Skipatjón í vor eð var
Varð með atburð skjótum:
Hrannar ljóni hrundu' á mar
Hreystimenn úr Fljótum.

45. Lögðu níu fróni frá,
Framdró þeirra' ákafi,
Hákarls vastir yztu á,
Út á regin hafi.
46. Þar að líkur þjóðin dró,
(Því er ver og miður),
Þeir hafi hlaðið sig í sjó,
Og sökkst með farminn niður.
47. Sama bar í sumar til,
Sorglegt þjóðminningum,
Settu skeið á saltan hil
Sex af Eyfirðingum.
48. Ógnar vindur æsti sjó,
Aldan þeitti rokum,
Skekktist sigling, skrið af dró,
Skipinu hvolfði' að lokum.
49. Sumir ólu dauða dvöl,
Drafnar grafnir föllum;
En þeirra skreiddust þrír á kjöl,
Þeim varð bjargað öllum.
50. Vorleysinga ákefð öll,
Allnær hvítasunnu,
Skriðu og vatna skæð um föll
Skaða' á byggðum unnu.
51. Veðuráttin vot en heit,
Vatna - flóð óstilltu
Úthögum í ýmsri sveit,
Engi' og túnum biltu.

52. Hræðilega skeði skjótt
(Skalf við undir frónið)
Mikaelismessu - nótt
Manna' og skepnu tjónið,

53. Nóttina alla næstum gegn
Niður fjöllin hrundu;
Því stormur bæði' og steypiregn
Stórkostleg á dundu.

54. Hörgárdals varð hætt afnám,
Hrutu' úr klettum skriður;
Nýjabæ með fólki' og fjám
Færðu' í ána niður.

55. Sárum lítt þó sundur sleit,
Sofandi' í dauðann hröktum,
Elfan spýtti ofan í sveit
Aumingjunum nöktum.

56. Fengu bana fjórir menn,
Faldir í rústar pressum:
Bóndi, kona' og börn tvö enn,
Bar hana lengst af þessum.

57. Datt á víðar dali' um kring
Dapurt efni nauða:
Afrjettanna umbilting
Olli fjenu dauða.

58. Skepna dregin allmörg ein,
Engum sætti griðum,
Marin, kramin, brotin bein,
Burt úr ám og skriðum.

59. Haustrigningar, mæla menn,
Mörgum kæmi' að grandi;
Skal og af þeim skeður enn
Skaði' á suðurlandi.
60. Framar þótti flestu verst
Fólki búsitjandi
Í haust uppkomin hesta pest
Hjer í norðurlandi.
61. Strit því ljettir, styður gögn,
Sterkur og þolinn hestur.
Út hún breiðist, eptir sögn,
Austur, suður og vestur.
62. Kóngs að boði skjótt með skrið
Skyldi' um frónið vendað;
Íslands jarða virðing við
Var í sumar endað.
63. Lætur velta lukku hjóls
Lýð í gaupnir hlaupa
Heilu jarðir Hóla-stóls
Sem hærstbjóðendur kaupa.
64. Öndvert sumars enn um skeið,
Aðals-tignar lampi,
Íslands vestur-amtið reið
Yfir greifi Trampe.
65. Djákni fyr, og dáður þar
Dyggðar hótum glöðum,
Sjera Steffán vitur var
Vígður að Skeggjastöðum.

66. Sjera Páll með sóma von
Siða prýði laðar,
Einnig vígður Árnason
Er til Reynistaðar.
67. Klædda múkum klerka lið
Og klækja umvandanar,
Gísli' og Baldvín bættust við,
Báðir kapellanar.
68. Hjer að auk er Hallgríms bur
Helgan stein í seztur
þar fyrir norðan þorlákur
þistilfjarðar prestur.
69. Lífsins kjör og lukku von
Leikur allt á hjólum:
Menn hafa sett Jón Mikkelsson
Múnk að Vestrhópshólum.
70. Misjafnt fara sumum sögð,
Sem þó ætti' að prýða,
Er prestshempa yfir lögð
Aðra fleiri víða.
71. Metorð hárra dotta dúr,
Dæmin þetta sanna;
Völdum ýmsir veltast úr
Vorra tignar manna.
72. Dýrðin fleirum heldur höll
Hamingju verða mundi,
Skyldu koma skiptin öll
Skapara rannsak undir.

73. Fríhöndlunin fögur á brún,
Forspár við því kvíðir,
Að líkkista Íslands hún
Ætli' að verða' um síðir.

74. Þótt að himin, land og lá
Ljeni fögur gæði,
Dýrtíð verður almennt á
Øllu lífs bjargræði.

75. Í viðskiptum öllum því,
Eins þeim stærri' og minni,
Sjerhver hefir annað í
Augað krambúðinni.

76. Svo ei mennta sífelt val
Sökkvi' í gleymsku boðum,
Millitíðar skaptur skal
Skóli' á Bessastöðum.

77. Tilheyrenda tala rýr,
Tekst því fræðing betur,
En kennendur þeirra þrír
Þar eru nú í vetur,

78. Uppfræðingar Íslands ljós,
Áður himinflogið,
Tindrar nú sem tíra í fjós
Tjöru kveiktrar logið.

79. Elskan, dyggða aðalvagn,
Allra vinsæld hyllir;
Enn ofsi, stolt og eigið gagn
Athöfn beztri spillir.

80. Viltú öðrum vera sól,
Vizku' og dyggða merki,
Elskan fróm skal einka hjól
Í því sigurverki.

81. Framandi löndum fregn ógóð
Frá er komin á blaði:
Allrar norðurálfu þjóð
Er í herbúnaði.

82. Herrar margir herskip því
Háreist búa' úr landi,
Benja vargi' að etja í
Orustu blóðrignandi.

83. Skothríðanna skruggur slá
Skulu niður dauðum;
Varnar skönzum varpað frá
Víga-hnött eldrauðum.

84. Skeðu veldi skipti góð,
Skipuðust grið og mildi.
Ó að hjeldi alheims þjóð
Uppi friðar-skildi!

85. Óttalegt er á að sjá
Umbrot flestra þjóða;
Forsjón stýri himins há
Heiminum því til góða.

86. Að er seztur óðins fugl,
Ei á fleira gónir.
Þeir forláti þetta rugl,
Sem það kemur fyrir sjónir.

# Tíðavísur
## um árið 1806.

---

1. Allar mundir eiga kvöld,
Ein í nánd þá hin er fylld;
það sjöunda árið öld
En nítjánda leiðir mild.

2. Lífs sem draumur, skuggi, ský,
Skin að grímu fram sig dró;
Fljótir straumar eylífð í
Allir tímans falla þó.

3. Ár næst liðið örðugt varð,
Áttin veðra þung og hörð;
Bú lá við að skeði skarð,
Skorti fjeð og hesta jörð.

4. þótti tíðin þrauta löng,
(þau eru kvæði forn og ung)
Vetrar hríða veðrin ströng
Voru', og æði frosta þung.

5. Norður bólum Íslands á
(Undir póli köldum þó)
Skorpuna jólaföstu frá
Fram á sólir páska dró.

6. Harka blandin hafrenning
Og hríð á dundi kvíða löng
Yfir landið allt um kring;
Af því fundu margir þröng.

7. Hey vel skipað hafði sveit,
Hjörð án snöp við fóður sat;
Svo ei gripa — sem jeg veit —
Sárri töpun ollað gat.
8. Allt með jökul umsollið,
Elfur, lækir, síldarhlað;
Hafíss þök ei hjeldust við,
Hjer þó rækist landi að.
9. Sól Apríls þá suðra fald
Sinni strjálar geisla fylgd,
Fanna skýlu felldi tjald,
Fræva sálum hita mild.
10. Happareistum hag að brá,
Hita-gustur víða fló,
Ísar leystust allmjög þá,
Elfur brustu fram í sjó.
11. Kættist bæði lopt og láð,
Ljek við blíðan hýra þjóð,
Þessi gæða fögur fráð,
Og fagnaðar tíð ei lengi stóð.
12. Vors þá bistist veðurlag
Vært, og hvessti' að lýðnum mjög,
Sumars fyrsta sunnudag
Syrtu' að vestan hríðar-drög.
13. Harkan reis um lög og láð,
Lagnaðar-ísum saman hlóð,
Hríðin geysi hörð og bráð,
Hryggðar vísir okkri þjóð.

14. Norðanvindar bljesu, blár
Beljaði' undir kletta sjór;
Vor-harðindin vikur þrjár
Vera mundu þrauta stór.
15. Tilhlökkun jók tíðin hin,
Tók að hlýna' og bætast mein.
Sólar-bruna-sífelt skin
Sást, en fína dögg ei nein.
16. Gróðrar kosta almennt ár
Aumlegasta víða hvar,
Næturfrostin næsta sár,
Norðan hvasst á daginn var.
17. Fram að slætti loks svo leið,
Lítt þó sprottið væri' um síð;
Þá ei bættist þessi neyð,
Því að vott gekk alla tíð.
18. Hjer á túnum heyið laust
Heilan mánuð volkaðist,
Lá og fúnað langt á haust,
Loks ei skánað heimfluttist.
19. Regnin mikil, þoka, þeyr,
Þá og klaka-jel að bar;
Í sex vikur, eða meir
Úthey hrakið líka var.
20. Enn nú víðar innt er frá
Út á jöðrum sveita þó,
Fólk að síðast flytti þá
Fúnar töður út í sjó.

21. Bjargar höllun mest til meins
Með gjörvallan skepnu fans;
Barst í öllum brjefum eins,
Betur fallið sunnanlands.
22. Anna tíðum öldin fast
Undir trauðum fram svo brauzt;
Þegar stríðið þetta brast,
Þá kom nauða stirfið haust.
23. Allt af hretin efldu tjón,
(Auðnu lítil spádóms rún),
Þótti vetur þegna sjón
Þegar hvítur undir brún.
24. Dreif þá niður dag og nótt
Dimmu með og frosti þrátt,
Hríða kliður heyrðist skjótt,
Og hörkuveðra norðanátt.
25. Hólar, vellir, hálsar, fjöll,
Hitt eins millum, driftar full,
Storðin svelli storknuð öll
Stóð, og illum krapa sull.
26. Lukkuhnöttur leiðir sút,
Löngum glettinn kyrr ei sat,
Þannig sjötta árið út
Aldar þetta liðið gat.
27. Landi flesta þrykkir þröng,
Þrýtur kærsta lífsnæring;
Syðra og vestra fiskiföng,
Fólki næsta þóttu ring.

28. Hjer fyrir norðan afla ár
Eitt hið stirða kallað var;
Veittu forða víða skár
Vopnafirði hvalrekar.

29. Lifrarfeita hákarls happ
Hefur Fljótum komið upp;
Næstu sveita sama kapp
Semur skjótan gróða bupp.

30. Margt vill fjörið mæða sár,
Manni hjer ei staður rór,
Sjúkdóms kjörin samt í ár
Sízt hafa verið þrautastór.

31. Hjeðan deyði horfinn pín
Hólma staðar kyrkju þjón,
Prýddur heiðurs hærum sín,
Há-aldraður sjera Jón.

32. Sannorðastir segja menn,
Sæmdar listum hagbúinn
Sje prófastur syðra enn
Sjera Kristján viðskilinn.

33. Hjervist óðum hittir kvöld,
Hels og mjaðar ber að sáld,
Sigurljóðin seinni öld
Sýna það, að hann var skáld.

34. Grímseyjar prestur ungur, ör,
Andaðist, sem nokkuð var;
Hefur ei setzt að hökla bör
Handa kristni síðan þar.

35. Utanlands að aðli hár
Arfaprinzinn deyði vor;
Lifa hans í lofi klár
Lærdóms - vins og frama spor.
36. Ljet af hendi lærðri sveit,
Laun að vanda bóka strit,
þrykkt svo kenndust næsta neyt
Norðurlanda sagnarit.
37. Æfirósir (efni gráts)
Einkar vísra, kenndu slits:
Týndu' ei hrósi til andláts
Tóðe, Riisbrich, Obelitz.
38. Lærdóms stór og lyndis hýr
Lista hver ágæti bar,
Prófessórar þessir þrír
þóttu vera snillingar.
39. Mjög aflvana manns er hönd
Með forsjón og hapta grand;
Skötnum bana skaðavönd
Skipatjón í kringum land.
40. Flyðru' í kyrrðum veiðar við,
Vært án ferða' um saltan beð,
Í Ólafsfirði áfallið
Eymdarverða svo er skeð:
41. Illsku gapti efldur þrótt,
Upp sjer lypti fiskur hátt,
Stórum kjapti skipsins skjótt
Skut afklipti' og muldi' í smátt.

42. Ginið þandi geysisnar,
Gusaði' undir helblár sjór,
Mann sofandi, með sem var,
Marði' í sundur kjapta stór.

43. Allnær skip hvað yfirgekk
Eygði' og tapað sundurstökk,
Heila gripið hina fjekk,
Hrof í gnapið fyr enn sökk.

44. Storðar gyrði stökkuls flog
Stórum barði nótt og dag,
Í Hjeðinsfirði áfall og
Annað varð með sama slag.

45. Fiska vanir veiði stjá
Við, nær búnir hætta því,
Fengu bana fjórir á
Fari, dúnalogni í.

46. Skjótir blotar skemma lönd,
Skirpa bleytu, leyr og sand;
Vatns umbrotin vinna gröndd,
Veikja sveitar - bónda stand.

47. Fljót - Skjálfanda stíflað stóð
Í stórum vindi' um páska tíð,
Yfir landið fleigðust flóð;
Flutu undir norður hlíð.

48. Fljóts - yfir - bakka flóðið dreif,
Fje þar stökk með húsum af,
Skal heystakka sköðuð leif,
Skjótt nær sökk því allt á kaf.

49. Meðan bif í burtu flaut,
Böls í kífi fólkið sat
Húsum yfir hærst, úr þraut
Hjálpað lífi þannig gat.
50. Inn til saka ei gekk flóð,
Eins og líkur drógust að,
Við bæinn jaka-stífla stóð;
Stemmdi slík að nokkru það.
51. Tjón umkveðna tún af stakk,
Torfa þiðnuð ei nje klökk,
Storðin freðna' í stykki sprakk,
Straumi gliðnuð undan hrökk,
52. Jaka-burður jörð upp hjó,
Jafnótt hörð í flettum lá,
þar af urðu þegar hróf
þjett samborðu, stór og smá.
53. Á Grýtubakka fjeð allt fór,
Fast í dokk er hríðin bar;
Skafl fram sprakk með skyndi stór,
Skall á flokkinn undir þar.
54. Kuldans þjáði kvelling stinn,
Kól því víða nokkra senn;
Ofsa bráðum einneginn
Úti' í hríðum deyðu menn.
55. Hörðum linað harma sting
Hauðrið kveinar dægur löng,
Mörg á dynur mótlæting,
Mörgum reynist æfin ströng.

56. Skjöldungs það að skipun fer,
Skilinn við með sóma þar
Stiptamtmaður okkar er,
Embættið sem fyrri bar.

57. Þurrð að reyndi þar af sízt,
(Þurfa mundi brauð og ost),
Aptur beindi öðling víst
Átta hundruð dali' í kost.

58. Einn það leifir, eignast hinn,
Auðnan vefur slíka menn:
Aptur greifi embættin
Ólafs hefur fengið tvenn.

59. Mörg það tjáðu merkis-spor,
Maður að góðu þekktur er,
Steffán áður assessor,
Amtmanns hróður vestra ber.

60. Fátæklingur fellur senn,
Finnur engi bjargræðin;
Höndlun þyngir á oss enn,
Upp því sprengir varning sinn.

61. Varnings herra vinnings lyst
Vex enn hærra nú sem mest,
Hálfu verri' enn hún var fyrst,
Hótar stærra' ef við skal fest.

62. Barlóm stirðan berja menn,
Buldri skarða lítið vann.
Letra byrgðir ljenar enn
Leirárgarða prentsmiðjan.

63. Skynsemd rjetta skrif ágæt,
Skyldu hitta þökk á mót;
Allt er þetta iðni mæt,
Ó að spritti' af kærleiks rót!

64. Ó hvað veldur ofsi manns
Illsku fylldur þrátt til meins!
Styrjar elda utanlands
Órar hvíldir fá að eins.

65. Frakkar og Spánir flotum tveim,
Fagur-búnum styrjarham,
Vendu' um rán í Vesturheim,
Voð í húnum storma nam.

66. Rifu kenndir ráns áfalls
Röskri mundu þá til fulls
Þar á lendum Enskra alls
Um þrjú hundruð tunnur gulls.

67. Komið gæti kíf á lopt
Kalt úr máta þar af skapt;
Minna þrætu-epli opt
Ýmsir gátu stórir haft.

68. Nelson, Enskra aðmíral,
Æsti Frönskum styrjar byl,
Fá karlmennsku og huga hal
Heimur á kannske jafna til.

69. Löngu áður, fram þá fast,
Fullur bræði geysaðist,
Hafði tjáður, hjör þá gnast,
Handlegg bæði' og augað misst.

70. Frægðar menni fast ódæll,
Fallstykkjanna kænn við sköll,
Hugstór enn og sigursæll
Sótti hrannar randa göll.
71. Atall ríta, Englands her,
Elds við þrot á söltum mar
Sigur úr býtum bar; en hjer
Bana skotinn Nelson var.
72. Honum í að hola grund,
Að heiðrast megi greptran kennd,
Fjörutýgi og fimm þúsund
Fregnin segir dala vend.
73. Hver í óra hildar bjó
Hraustan skara bezt sem má,
Helzt var stórum þruskað þó,
þrír keisarar flugust á.
74. þýzkir og Rússar odda at
Æstir hvessa Frönskum mót;
Saman pressuð sveit ei gat
Svig á þessum unnið hót.
75. Franskir hörðum óðins il
(Aldrei þurrða hreysti skal),
Heljar börðu hina til,
Hníga urðu í rauðan val.
76. Stríð þeim ákaft stofnar grand,
Stórum jókust dreyra sund,
Frakkar ráku flótta' um land,
Fólks hertóku mörg þúsund.

77. Keisari þýzkra' úr Wien varð
Víkja' af kaskra hers aðferð,
Heiptin ýskrar, grams um garð
Geysuðu vaskra blóðug sverð.
78. Í hildar stakki fer um frón,
Færir rekkum æfi hrun,
Niflung Frakka Napóleón,
Nokkur ekki' hans líki mun,
79. Herra slíkur, hvar sem fór
Hann í brauki styrjaldar,
Kóngaríki stiptar stór,
Sterkum aukinn sóma var.
80. Enginn því við reisir rönd;
Ritin segja um Þýzkaland,
Kóngar tíu hans af hönd
Hafi þegið tignarstand.
81. Friðnum bani stofnast stór,
Styrjar hvína fregnir meir,
Krónprinz Dana Friðrik fór
Fylki sín að verja geir.
82. Herma letur, lið með strangt
Laufa skati hafi' og ungt
Í Holstein setið sumarlangt,
Samt ei ratað stríðið þungt.
83. Arfa ræsis æ sje mæld
Auðna, prís og friðar snild;
Trón hans glæsi sigursæld
Og sönnum vísdóm gæzka fylld!

84. Rússar undra fólk og fans
Frönskum senda enn til meins,
þrisvar hundrað þúsund manns,
þessir benda' í óra fleins.
85. Enn fimmtýgi þúsund þjóð
þann jók grúa safnað lið,
Ham í nýjum styrjar stóð.
Stríðs tilbúið Pólen við.
86. Enskra jafnframt ætla sjer
Að þeim stefna fylkingar,
Preussar safna sæg af her,
Sama' í efnum þeirra var.
87. Sjer ímynda sumir því,
(Sökum stendur þannig á)
Stórtíðindi nú á ný
Nokkur sendist slíku frá.
88. Hörð þó stríð um haf og grund
Heimsins mæði' sælustand,
Enn nú fríðum friðar blund
Forlög gæða þetta land.
89. Ástin bræðra er þó köld,
Öfund stríðir vonzku fylld,
Skammar kvæðum okkar öld
Illa níðir sína snilld.
90. þykist bezt, og það nú fyrst,
Þjóðin flesta vel upplýst,
Hrós ber mesta lærdóms lyst,
Letra verst þeir skyldu sízt.

91. Lifir tjeðra lastagrein,
Land umriðlar smán ófrín;
Vegna feðra mest er mein,
Megi niðjar skammast sín.
92. Drepur hylli' og mannorð manns,
Margir falla' að höggi steins.
Skenk það spillir skaparans,
Skemmir alla farsæld eins.
93. Hitt að fræða' og gleðja gjört,
Gjarnan lýðir þakka virt.
Þetta kvæði þrýtur ört,
Það er víða skakkt og stirt.



# Tíðavísur
## um árið 1807.

1. Áfram skundar tímatal
Tafarlítt samhnytað;
Átjánhundruð átta skal
Eptir nýár ritað.
2. Velsemd hallar, voði sár
Vex nær ómælandi;
Hjer má kalla eymdar ár,
Eins á sjó og landi.
3. Illviður og allmörg slis,
Með afla - gróður bresti,

Herfjötur nú harðæris
Herða þjóð að flestri.

4. Frost og líka fjúkið dimmt,
Fannst ei veðrið kyrra;
Vetrarríki vonzku grimmt
Var oss með í fyrra.

5. Fannar-hökli fast á hlóð,
Fjánum ók til bana;
Herklædd jökli storðin stóð,
Stormar skóku hana.

6. Engja' og túna saman sett
Sízt nam forða grandi
Heyið fúnað, fóðurljett
Fannst í norðurlandi.

7. Sjórinn flestum mjög til meins,
Meður krafa slökum,
Norðan, vestan, austan eins,
Undir hafíss þökum.

8. Storma hríðum sterku þrátt
Stafli klaka skurnar,
Risu víðis himinhátt
Hálir jakaturnar.

9. Ísa þök um uppsa beð
Ollu stærstu föllum;
Auða vök gat enginn sjeð
Af þeim hærstu fjöllum.

10. Hvort á annað fanna förg,
Frostin óþolandi;

Oss var þannig bönnuð björg
bæði' af sjó og landi.

11. Hríðin skjótt og harka þrá
(Hófust mein og skaðar),
Vetrarnóttum fyrstu frá,
Fram til einmánaðar.

12. Veðuráttin vors ómjúk
Var eins fyr og síðar;
Duttu þrátt á frost og fjúk,
Fönn og yrju-hríðar.

13. Afleiðingin af því varð:
Eystra mestu nauðir,
Búpeninga skaðlegt skarð
Skráð og hesta dauði.

14. Storma rosa stór við jel,
Stakt þó reynast megi,
Að átta frosið hafi' í hel
Hestar á einum degi.

15. Eyðilögðust allnær bú;
Upp sum leyst til fulls og alls,
Múla sögð í sýslu nú,
Syðri', og eystri Skapta-fjalls,

16. Hungurs dróma hefur af kvöl
Hjálpar færzt í leitir
Fólk um tóman vonar völ
Víða' á næstu sveitir.

17. Fleirum hætti vegu við
Vesaldar að kanna,

Seint því bætti sumarið
Svaðilfarir manna.

18. Undan dauða dregin hjörð,
Dáð-ljett fóður næra
Og kuldans nauðum kalin jörð
Kunni' ei gróður færa.

19. Ísa mikil lög um lá
Loksins gliðna fóru;
Sextán vikur sumars þá
Síðst afliðnar voru.

20. Sjaldan hlýtt, en fjúkafar,
Fjalla niður af brúnum,
Grjeri lítt, og grátlegt var
Grasleysið á túnum.

21. Hjer í sveit við höfgan slátt
Hófust bagar stærri,
Kulda-bleytur þungar þrátt,
En þerrir daga færri.

22. Tíðum virtist töpuð stoð,
Tímann stutta þenna;
Túnin hirt, en töðumoð
Tók heim flutt að brenna.

23. Mörgum bæjum munu' þar að
Mein allstór í vetur;
Útheys-slægjur eptir það
Ekki fórust betur.

24. Horfði kviku fullt til falls
Í fóður pressu stumri,

þegar vikur átján alls
Af vóru þessu sumri.
25. Fyrri tíða fárleg regn
Fólki kvíða jóku,
En snjóhríða áköf megn
Yfir síðast tóku.
26. Veitti mönnum verka skarð
Veðrið gríðar stirða;
Heyja-önnum hætta varð
Hjer allvíðast nyrðra.
27. Storma grimma strok um búk
Storðar þverraði' eigi;
Krapar, dimmur, frost og fjúk,
Festi' á hverjum degi.
28. Elju rindar áður sezt
Að og byrjuð hvetur
Snjór harðindi megn og mest
Mánuði fyrir vetur
29. Byggð um víða bundin ei
Búið að slá og raka,
Urðu síðast úti hey
Undir bláum klaka.
30. það innborna þakið lítt
þá, eða regnum opið,
Brunnið, ornað nær ónýtt;
Niður í gegnum dropið.
31. Haust erfiðis margt til meins
Mundi liðsemd banna

Rigndi niður úti eins
Eldiviður manna.

32. Útrjettingum ekki skár
Öðrum gaf að vonum;
Í snjó-dyngjum fjölda fjár
Fennti' á afrjettunum.

33. Gegnum árnar síldar senn,
Svella hlaup og fanna
Broddum járna brutust menn
Braut til kaupstaðanna.

34. Austanað er skrafað skeð,
(Skrif að slíku bresta),
Í kaupstaðar-ferðum fjeð
Fennti' og líka hesta.

35. Angursboði ei sig fól,
Illt sem leiða kunni:
Eldi roðin sýndist sól
Sveima' í heiðríkjunni.

36. Banvæn sýra brennisteins,
Böli menguð hríðar,
Jörð og dýrin undir eins
Auglýst fengu síðar.

37. Bein með hnútum blaut og þunn,
Bagi fóður-tanna,
Leit eins út og lýð fyr kunn
Leif eld-móðu hranna.

38. Töpunin, sem mættu menn
Af meini slíku stóru,

Þó er minni orðin, enn
Allar líkur voru.

39. Haustið stríða hjáliðið
Hófst ei tíðin vægri:
Tók stór-hríða vetur við,
Varla lýðum hægri.

40. Flestu kosta happið hallt
Hjet um sveitir móði,
Geystist frostið gegnum allt
Getið af heitu blóði.

41. Herti' að nýju harðindin,
Hafbrimrokur grimmar;
Hreittu skýjum hreggviðrin,
Og hríðar strokur dimmar.

42. Mörgum nauða magnað sár
Mjög hefur annars sviðið.
Þetta dauðans eymda ár
Út er þannig liðið.

43. Oss má fæðast af því traust,
Einna mest líðandi,
Að sumar er gæða sagt og haust
Á suður- og vestur-landi.

44. Mætti þetta mýkja grönd,
Mjög þar auðvelt standi,
Að bræður rjetti bróður-hönd
Bræðrum nauðlíðandi.

45. Fyrra vetrar fiski-bann
Færði skaða mestan;

Í sumar betra sagt um hsnn
Sunnan að og vestan.

46. Aflalaust, sem eitt á ný
Eymda þyngði standið,
Norðan, austan, næsta því
Nú í kringum landið.

47. Öldu hrannar yfir tjöld
Ofsi brauzt að vana,
Höfrunganna' og hnýsu fjöld
Höggum laust að bana.

48. Eyfirðingar ýmsir, því
(Íss rak hart í pressu),
Drápu slingir eyðum í
Æðimargt af þessum.

49. Vetrar stundu brims við brak
Björg allstinn með landi,
Á þriðja hundrað þesskyns rak
Þingeyra' inn að sandi.

50. Íta síldar aðflog hörð
Allvel svanga fæddu,
Er án hvíldar Eyjafjörð
Endilangan þræddu.

51. Fólk nær aleytt fje sem gekk
Frá með þungri pínu,
Reyðar - hvali fjóra fjekk
Til forða' í hungri sínu.

52. Enn er skrafað á þá leið,
Uppsa dal við bláan

Að sveitin hafi' af svengðar neyð
Svolgið hvalinn hráan.

53. Bóndi rar, sem átti einn,
Af hönum skar sjer forða;
Það eptir var gaf elsku hreinn
Aumum þar að borða.

54. Guðs - jeg hygg - þó gæzka hrein
Gæfi krapt að bjarga,
Svoddan liggi sóma grein
Samt fyrir aptan marga.

55. Sjúkdóms kíf ei segjast má
Sveit hafi þröngvað manna.
Nokkrir lífi færðust frá
Til fagnaðar söngva ranna.

56. Mjög tregaður mörgum lýð,
Mikið - blindur - þreyði,
Sóma maður sína tíð
Sjera Erlendur deyði.

57. Stöðugur, góðfús, stilltur, jafn,
Styggð ei byggði neinum,
Prófasts hróður, prests og nafn
Prýddi dyggðum hreinum.

58. Kennslu sýslið, kvinnu og börn
Kvaddi, er slinga hriggði,
Sjera Gísli, sem að Tjörn
Svarfdælinga byggði.

59. Sannelskaður, sinnis hreinn,
Sæmdur bezta rómi;

Gáfumaður afbragðs einn,
Ungra presta blómi.

60. Snögglegt þagnar datt í dá
Dauða' af köldu blaki,
Sjera Magnús Saurbæ á,
Settlegur öldungs maki.

61. Og svo dauðir, — æru nafn
Aldrei fúni slingum, —
Sjera Auðunn, sjera Rafn,
Settir Húnvetningum.

60. Harðfengast á hjarta' og brjóst
Hel nam píslar brodda
Setja fast, og sundurhjóst,
Sjera Gísla' í Odda.

63. Stórum eyðast stoltarmenn,
Stígur af þorri beztur;
Síðast deyði' í sumar enn
Sjera Snorri prestur.

64. Há-öldruð gekk heimi frá
Himins enn' til byggða
Madama Guðrún Múla á,
Munstur kvenna dyggða.

75. Stiptamtmannsins fyrrum frú —
Fregna bragna dróttir —
Sunnanlands er sáluð nú,
Sigríður Magnúsdóttir.

66. Hæga lausn af líkamans
Lífinu eptir hennar

Stóra rausnin stýrði hans
Störfum greptraninnar.
67. Vænstu gæðum veizlan af
Veitt og líka' án trega;
Silfur bæði gott hann gaf
Og gullið ríkmannlega.
68. Engan hafa merkismann
Munum hans jafningja
Rífð stórgjafa rómaðan'
Ríkra landshöfðingja.
69. Þorsteinn Melsteð þvinnils-val
Þeita að Papey skyldi;
Eystra vel aðseturs sal
Sinn þar skapa vildi.
70. Trjávið stórum fylltu fley
Fimm, en snjöllum hnekktu
Þeim brimórar þægir ei,
Þegar öllum drekktu.
71. Helgi orðan helzt við dýr,
Hjer þó breyti fjöðrum:
Vígðir að norðan þessir þrír,
Af þeim ei veit jeg öðrum.
72, Presta áður prýddi það,
Parruk, bönd á kjólum;
Ólafur náði Auðunns stað,
Aptur í Blönduhólum.
73. Einnig hast með ektakvon
(Auðnan valt svo blöðum),

Stiptprófastsins settist son,
Sölvi', að Hjaltastöðum.

74. Melstaðar er múnka von
Muni ei fundinn brestur
Gunnlaugur þar Gunnlaugsson
Gjörðist undir-prestur.

75. Hýrt á skakk ei happið gekk:
Hagleik mesta dáður,
Hjaltabakka Haldór fjekk
Hjer með prestur áður.

76. Kurteislig með konu' og börn,
Kjör sín beztu viður,
Þórarinn Sigfússon á Tjörn
Seztur er prestur niður.

77. Um kjölstiga Eiríks bur,
Ektasvanni' og fleiri,
Sjera Vígfús sunnlenzkur,
Sótti' að Hvannaeyri.

78. Einn þá hnígur lík í láð
Lagður, mundi sleppir;
Annar flýgur eptir bráð,
Og á stundum hreppir.

79. Leutenantar tróðu tveir
Týs um meyar gyrði;
Ekki vantar það, sem þeir
Þurfa' á Eyjafirði.

80. Íslands sælu af því má
Eyðast skarð að vonum;

Ef þeir mæla land og lá,
Ljettir á harðindunum!!
81. Hærur skjálfa heimsins enn,
Hrynja slot í glóðir: —
Norðurálfan sýnist senn
Sinna flotin blóði.
82, Leik nam skakka þundar það,
þrek enn skjótir efndu,
Preussum Frakkar æddu að,
er þeim móti stefndu.
83. Preussen skjótt þá lægra laut,
Leiptruð skotnum funa,
Kaskir á flótta keyrðu braut,
Kóng og drottninguna.
84. Niflung sterki Frakka' um frón
Fenju hvessir gríði,
Kónglegt merki, tign og trón,
Tók inn þess er flýði.
85. þaðan harðfengt ljet enn lið
Leitt í rokur vigra;
Rösklega barðist Rússa við,
Rjeð að lokum sigra.
86. þar valkestir þöktu hjall,
þruma brast við geira,
Hrepptu mesta mannafall,
Og megnar rastir dreyra.
87. Sáttmáls voru samdar skrár,
Settu' upp grið og stilli

Maktir stóru þessar þrjár,
þeirra' um frið á milli.

88. Víðar blóð á vopnum flaut,
Vinsemd klárri hrinda,
Dana þjóðar drottinn hlaut
Dýr um sár að binda.

89. Bretar svana brátt um völl,
Brjefa þengils arfa,
Herskip Dana heimtu öll
Heim til Englands þarfa.

90. Heitorð gildir höfðu snjöll,
Hinum danska lýði
Fengin skyldu aptur öll
Að enduðu Franska stríði.

91. Illt hjer niðri undir bjó,
Að nú kreppti' úr máta,
Krónprinz Friðrik þorði þó
það ei eptirláta.

92. Ills von þótti alls af þeim,
Ekki' að griðum snúast;
Reisti skjótt úr Holstein heim,
Herskjöld við að búast.

93. Reistu firðar ráðagjörð,
Að raska' áföllum nauða,
En Sjáland gyrða herskip hörð,
Hótuðu' öllu dauða.

94. þegna fjöldi þekur torg,
þunn sem glaðjel bærði.

Harðfeng öld að höfuðborg
Herbúnað sinn færði.

95. Prinzinn, röðuls áður at
Óðins gengi hvassa,
Sjer og föður sínum gat
Sjálfum fengið passa.

96. Stillis hefnir stúdent einn
Stamar þulu' í fræðum,
En Buðlung nefnist barón Steinn;
Báðir í dularklæðum.

97. Mikið fátt við manna safn,
(Málma baga þrætur),
Kepptust brátt úr Kaupenhafn,
Keyrðu daga' og nætur.

98. Ýmsra grunur er á því,
(Eins og skriptir segja),
Að ræsir muni Renzborg í
Ríki sviptur þreya.

99. Danska sveitin fyrir fá,
Fári þjettu hlaðin;
Skotelds heitu skruggum slá
Skarar Breta staðinn.

100. Herinn grimmi hallar lýð
Hels í dúra slengdi;
Barði' á dimma bombu-hríð,
Borg og múra sprengdi.

101. Skalf við hauður skotin hvellt,
Skaða blök sem vunnu;

Kífs eld-rauðu kúlum smelt
Kopar-þökin runnu.

102. Eldsins gnýstur ákaft vex,
Um brauzt hallar ranna;
Dofnuða sízt um dægur sex
Dunur fallstykkjanna.

103. Borgin stærsta beið af spell,
Bál sem nú rjeð styrkja,
Timbruð hæsta turni fjell
Til með Frúar-kyrkja.

104. Lágu helskotnir, lestir fast,
Lamdir, þrengdir snauðir,
Kvistaðir, brotnir, kæfðir hast,
Kramdir, sprengdir, dauðir.

105. Liðsmun stóran máttu menn
Merkja' í hjörva stíu:
Danir vóru settir senn
Sex mót fjörutíu.

106. Varð ei bana fríað frá
Fólk, með sorgarhlekki,
Herinn Dana' í Holstein lá,
Hjer gat borgið ekki.

107. Vörn nóg sterk ei vinnast má,
Við ei tefur skaðinn;
Hers Danmerkur herrann þá
Hlaut að gefa' upp staðinn.

108. Lá um grundu látið margt
Lið karlmensku þrotið;

Hans áttunda höfðu part
Hinir Ensku brotið.

109. Fyrirliðar þjóða þá,
Þar sem einir ríkja,
Settu grið, og síðan skrá
Sáttmáls - greinir slíkar:

110. Afhent skyldi Enskum vald
Ólmum fresta bruna;
Taka' að vild í hefðar hald
Hólm og festinguna.

111. Tilskilur og þar, að þeir
Þessu valdi gildu
Sex vikur, en sízt þó meir,
Sjálands halda skyldu.

112. Síðan brátt um salta dröfn,
Sefa' ofstopa kenndum,
Ránar áttu' að halda' úr höfn
Hestum koparrendum.

113. Þangs um höllu þá sjerhvað,
Þeir sem vildu nytja,
Herskip öll og herbúnað
Hafnar skyldu flytja.

114. Enska þjóðin illsinnuð,
Orustu hirðar gripa,
Þar af hlóð nú þrjúhundruð
Þeirra birðar - skipa.

115. Lýjast strengir, leika hjól,
Löðri spýta gnoðir,

Skjótt fram gengur skæra sól,
Skein á hvítar voðir.

116. Vægðar kljena ákefð ólm
Ekkert sparar tíðast:
Buðlungs trjen á Bremerhólm
Brenndu þar upp síðast.

117. Bóka fríu söfnin sín
Sáu, hnoss ótrauða,
Thorlacíus, Thorkelín
Tæma blossann rauða.

118. Lýður hrakinn laufa skúr
— Ljek um torgið funi —
Flýði nakinn eldi úr,
Og undan borgar hruni.

119. Bæði víf og börnin smá,
Bagaða, elli-hruma,
Hræðslan lífi hrakti frá,
En húsin fjellu' á suma.

120. Þúsund skipa sagt er senn
Í suður- og höfum Spönskum
Hafi gripið Enskir enn
Alls frá jöfri Dönskum.

121. Innir skrafið ýkjutamt,
(En opt var hressum kraptur),
Að Norskir hafi nokkru samt
Náð af þessum aptur.

122. Þriggja manna nefnd skal nú
Ný foristu drýgja,

Stjórnar anna störfum trú,
Stiptuð í Kristjanía.
123. Kaupmannshafnar vart í vænd,
Viðreisn skýrð af nýjum,
Brotin, jafnframt brennd og rænd
Brögnum dýrð, hertygjum.
124. Rönd mót Enskum reisa skal.
Rússa ver og Danskir,
Preussar, Svenskir, Portúgal,
Og prýðis-hermenn Franskir.
125. Öld þótt herji ákaflig
Eins á sjó og landi,
Bretar verja' á siglu- sig
Svönum óvinnandi.
126. Leiða stríðin yfir allt
Efni þungra nauða;
Ísland bíður af því kalt,
Örbyrgð, húngur dauða.
127. Ógnarlegan ófögnuð
Oss þó blandi' að vonum,
Allavega getur guð
Greitt úr vandræðunum
128. Vor í hæðir bruni bón,
Í brjósti festum hana
Að aptur klæðist tign og trón'
Tiggi beztur Dana.
129. Verða mætti styggða stans,
Stríðs ofbeldi slota,

Að vjer kættir undir hans
Unum veldis-sprota.

130. Ljetti bragna seinkar, sár
Sorgar skeður fleira.
Frjettir þagna og í ár,
Ekki kveð jeg meira.

131. Æfi sólar merkjum manns
Mána smiður ræður,
Gæfu hjóli lýðs og lands.
Lifið í friði bræður!



# Tíðavísur
## um árið 1808.

1. Semur aldir sólin klár
Saman taldar nýtt við ár,
Átjánhundraðasta senn
Og níunda, byrja menn.

2. Aptur vendir af það leið
Ekki' að hendi tíma skeið;
Dagar, tíðir ár og öld,
Eitt um síðir hitta kvöld.

3. Voru landi ýmsar enn
Aðdynjandi þrautir senn
Hart áliggja heil-margar,
Himininn skyggja farsældar.

4. Árið þetta, út sem rann,
Oki þjettu pressa vann.
Áður skaðað Ísa-flet;
Ekki baða' í rósum ljet.
5. Veðuráttin vonzku hörð
Var, og þrátt að skorti jörð,
Hörkur píndu, holdi' og þrótt
Hjarðir týndu dag og nótt.
6. Reisti hríðar öndvert ár
Ofsa stríðar himin blár;
Frosta sótti feikn að ríkt,
Færri þóttust muna slíkt.
7. Hrannar blök, og hörku skvak
Hafíss-þök að landi rak,
Þjáðu gríðar-þung og löng
Þorra tíðar veðrin ströng.
8. Ólu flestir um það grun,
Yrði mesta penings hrun;
Fóðrum ljetu fækkað á,
Fyrst með vetri' og síðan þá
9. Þorri skeggið þeytti grimmt,
Þusaði hregg og veður dimmt;
En Góu fata-gustur vann
Gefa' oss bata farsælan.
10. Hefði' ei þessi happa tíð
Heill og blessun stofnað lýð,
Kindur, hestar, kýr í vor
Kafnað flestallt mundi' úr hor.

11. Söfnuðust lítil sumars hey,
Síðan nýt til fóðurs ei,
Sex fyrir vetur, vegna snjós,
Vikum ljetust kýr í fjós.

12. Hjeldust víða harðindin
Haustið, síðan veturinn
Góu að, um dægur dimm,
Dráp og skaða veittu grimm.

13. Veðurátt góð og velþokkuð
Væg fram stóð á Einmánuð;
Bjuggu menn við betra kost,
Bitur enn þó næturfrost.

14. Sunnanvindar, sólskin hlýtt,
Sinntu rindar elju títt,
Ísa þrengdu ár og sær,
Öldur slengdu þessum fjær.

15. Dreifðist síðan fjeð um fold
Fagra, víðar grannt á hold,
Yrjum bráa af því vann,
Úti lá um tíma þann.

16. Úr hafi þegar hríð og snjór
Hastarlega geysi stór
Niður hrapa, fjölda fjár
Fönnin drap og harka sár.

17. Enn í miðjan Einmánuð
Ægis - hryðja stórrituð
Jökli hálum helzt óvær
Hafs úr álum renndi nær.

18. Hel enn orma' í hala dró
Hafís, storma, frost og snjó.
Lands og sjóar bjarga bann
Bættist þó á fjárskaðann.
19. Vorið eptir veturinn
Víst að krepptu hretinn stinn,
Öllu þörfum alls á ný,
Að sólhvörfum næsta því.
20. Um fardaga yfirsló
Aptur baga' af hríð og snjó;
Fjeð þá nakið fraus í hel,
Fór nýklakið ekki vel.
21. Fjell í skautið farsæld ei:
Fólki þraut eins mat og hey;
Skepnur stóðu hætt af hor;
Harla gróður-lítið vor.
22. Sunnan betur landi ljet
Liðinn vetur, minni bret;
Byrsæl höldin búsmalans,
Bæði töld og notin hans.
23. Vetrar síðla voru þar
Vatns stórhríðir ákafar;
Vor og sumar öndvert eins,
Urðu guma þar til meins,
24. Sumarið allt var sólhvörf á
Sára kalt hjer norðurfrá;
Um svo breytt í einkar gott,
Allmjög heitt, en sjaldan vott.

25. Túnin snögg, því tíma þann
Tæra dögg mjög skorta vann;
Gróðrar bætur engi á,
Optar vætur gengu þá,
26. Sláttar tíðin þótti þekk,
Þurkinn víðar taðan fjekk;
Auðnast vann og ítri þjóð,
Útheyjanna nýting góð.
27. Velsemd stærstu veitti slag
Vika næst fyrir höfuðdag:
Hreggs í hviðum hríð og snjór
Hrapaði niður geysi stór.
28. Grasið spillast við það vann,
Og vinnan illa tíma þann;
Fagnað skata fyllti þó
Fagur bati', er eyddi snjó.
29. Höggvið skarð í heyskapinn
Hjá oss varð, því stórviðrin
Ofsafengin ekki' i hag
Yfirgengu nótt og dag.
30. Þegar vóru vetrar til
Vikur fjórar hjer um bil,
Hart að streymdu harðindin,
Hjarðir eymdu stórviðrin.
31. Utan-hriðar efldu blak,
Ófönn stríða niður rak;
Þótti tíðin þessi hörð,
Þegar víða bágt um jörð.

32. Allr'heilagra messu mund
mikið fagra gæfustund
Oss framskína aptur ljet:
Öll þá dvína mundu hret.

33. Veðurstaða' og vinda hjól
Var oss þaðan allt á jól
Hagstæð, snjólaus, hægðar frost.
Himininn bjó þann vægðar kost.

34. Haustið syðra sagt er allt
Sár- hretviðra fullt og -kalt,
Höfuðdegi frekt svo frá
Framar eigi þornað strá.

35. Mælt er það, að mjög í haust
Menn til skaða vægðarlaust
Gripum farga þyrftu þar,
Því heybjargar lítið var.

36. Frost í haust og feikna snjó
Fyrir austan niðursló;
Voða stríða vetrarfar
Verður síðan letrað þar.

37. Ýmist gengur með eða mót,
Misjafnt fenginn skaði' og bót;
Einn þá kætir ábatinn,
Annan grætir töpunin.

38. Syðra vetrar afla enn
Ekki betri töldu menn,
Enn næst afrunnin nokkur ár,
Neyð er spunnin þar af sár.

39. Víða fengur vers um krár
Vestra gengið hefur skár,
Og í vetur aflabrögð
Ólíkt betri þaðan sögð.
40. Innir þjóð í allan stað
Afla góðan sunnan að;
Sumarið nú er síðst af rann
Sæld í búi skapa vann.
41. Þyngstu nauða efni er
Og manndauða norður hjer,
Sumarið bæði' og síðan haust
Sjóar gæða' og fiskilaust.
42. Í Austfjörðum aflabrögð
Auðs af njörðum betri sögð:
Happ ei ringað hefur mal
Húnvetninga' af reka-hval.
43. Steyttu þorra stórviðrin
Storð að vorri hafísinn;
Tennta vestan Tjörnes bar
Tíu', er festast, höfrungar.
44. Skornir síðan þessir þar
Þjentu lýð til saðningar,
Þó hríðir stærstu' og hörkur senn
Hefðu næstum drepið menn.
45. Þá í haust enn þjós upp brá
Þingeyra klausturs sandi á:
Hnísur, marsvín, höfrungs ger
Í hóp upp bar, vel sextyger.

46. Heilsan góða happa klár
Hefur þjóðir kætt í ár:
Þó eru nokkrir merkismenn
Meðal okkar dánir enn.
47. Hafinn sóma, veg og von
Vígður Tómas Skúlason
Árið fyrst við uppbyrjað
Andaðist á Grenjastað.
48. Klerka prýði vor hann var,
Vænn og fríður ásýndar,
Lærdóms maður lista kær,
Lyndis-glaður og sí-hógvær.
49. Sjera Vigfús sælu stað
Í sumar hníga gjörði að,
Norður í Garði vel sem var
Vörður hjarða drottins þar.
50. Stórættaður mjög svo, með
Mildi laðað höfðingsgeð,
Auð og blóma hafinn hátt,
Happ eintóma ljek við dátt.
51. Heims frá neyð í himna rann
Hjeðan leiða dauðinn vann
Þorleif prest frá Þoroddsstað,
Þægan flestum öldin kvað.
52. Enn nú skýra letur lands
Látið sjera Jónatans:
Þenna hugvits mikla mann
Mjög óðfluga dauði vann.

53. Benedikt Pálsson birt er að
Burtu sálast hafi' á Stað
Reykjaness, alrómaður
Ræðu' og versa snillingur.

54. Syðra' er líka sálaður
Sjera Eiríkur prófastur
Borgarfjarðar, höggvið hætt
Hjer var skarð í biskups ætt.

55. Hel ei reiðir vægð nje vörn:
Vígður deyði' sjera Björn
Á Hrepphólum eystra þar,
Auðnu sól er geisla bar.

56. Harmar stinga hjarta ranns,
Húnvetninga sýslumanns
Ástarríkust ektafrú
Er og líka sáluð nú.

57. Lífsins gæða settist sól,
Sveif að hæðum næst við jól
Madama Steinunn, móðir hans,
Mætust ein af fljóðum lands.

58. Vatnsfjarðar á vænum stað
Vestra, þar er sannfregnað
Guðlaugs prófasts, sonar Sveins,
Söknuð' gróið dauðsfall eins.

59. Lærdóms smíða lands við safn
Letrað víða hans er nafn:
Maður að orði mikill sá,
Mun og borði slíkur á.

60. Veldis prýði væn afmáð,
Veikleiks stríðu kvölum þjáð,
Vaðla-þingis jáður Jón,
Jafnt höfðingi' að raun og sjón.

61. Lærdóms verkum æfður í,
Yndið merkast hafði' af því,
Hafinn prýðis hagsældum,
Hjartaþýður nauðstöddum.

62. Norður Sauðanesi á
Nam enn dauðinn presti frá
Ungum skjótt og aldurs síns
Önnu dóttur Vídalíns.

63. Ekki heyri' eg merkismenn
Mælt um fleiri dána senn.
Sízt er ljett að sjá óvalt
Sannleiks frjett um landið allt.

64. Einn frá mæðum andlát ber,
Öðrum fæðing hjervist ljer;
Eins er dauði' og unnið stríð
Öðrum brauð um sína tíð.

65. Satt er meinað, setjist að
Sjera Einar Þóroddsstað,
Mývetningum messur hann
Margar syngja fyrrum vann.

66. Lærðir bærast lands um reit:
Lýðurin fær í Mývatns sveit
Hökli merkum hæfan nóg
Helga klerk frá Stærr'árskóg

67. Auðu sezt að inni þar
Árni prestur Grímseyjar.
Kjörinn gerfi kennimanns,
Kristján erfir sætið hans.
68. Getinn maður góðsemdar
Grenjastaðar djákni var,
Guðfræðingur, greina val
Grímseyingum kenna skal.
69. Stendur von á stofni hins,
Steffán sonur Þórarins,
Frá þar sjera Vigfús varð,
Vígðist nýr til prests í Garð.
70. Hjer ei kætir yndi allt,
Auðnu sætið reynist valt,
Dansað manna færstir fá
Farsældanna turnum á.
71. Á suðurlandi' í vetur var
Vurðu' að grandi rigningar;
Eyddu Reynivalla völl
Veitu og steinum skriðuföll.
72. Enn þó heyrist, skeður skal
Skaði meiri' í Norð'rárdal,
Regnið hleypti fjalli fram
Frekt og steypti' að öllu Hvamm'.
73. Innsligaði húsin há,
Hraktist maður lífi frá;
Baga særður búnað sinn
Burtu færði presturinn.

74. Úr humra beltum hjer og þar
Háum, veltu skriðurnar
Stóru grjóti, leðju leir,
Lands umróti valda meir.
75. Meðan láðið líður spjöll,
Leysing bráðri hrapa fjöll,
Háska eldur háreistar
Hrauð og felldi byggingar.
76. Auðs safnaðar fögrum fans
Feikna skaða vestanlands
Stór áfjell, og stoltar rann
Staðarfell að ösku brann.
77. Engu við úr eldi þeim,
Utan fiðursængum tveim,
Hjálpa kunnu þegnar þar,
þó ei brunnu peningar.
78. Hinum sirkluð húsum frá
Heilög kyrkjan geymdi þá;
Eins til skaða eld við þann
Enginn maður heldur brann.
79. Bæja fleiri brenna sár
Borin heyrist við í ár,
Að sögn manna, austur frá,
Ekki kann jeg nefna þá.
80. þorra hríða vastur við
Vonzku stríða Tjörnesið,
Bylur gaus, þó bæjum nær,
Bóndi fraus í hel og mær.

81. Til óbóta tvo menn kól:
Tapaði fótum, missti ról
Annar, vetrarlangt sem lá,
Leiddist betur hinn þar frá.

82. Fleiri skemmdu frostin hörð,
Fannir stemmdu skrið um jörð;
Sjór og hauður hóta vann
Hörðum dauða tíma þann.

83. Mála vastur það og það,
Þýfi, last og ójafnað,
Dyggð sem bana' en deyfa frið,
Dómstólana kljáð er við.

84. Skaps úr álum skipast hörð
Skattamál um Eyjafjörð;
Hryðjum vara hreita senn
Hreppstjórar og sýslumenn.

85. Ei kaupfar um æga dröfn
Íslands bar að nokkri höfn
Sumar þetta', er síðst af leið,
Sem af ljetti vorri neyð.

86. Herskip Engelskt hjer að bar,
Hirzlu þengils fjársjóðar
Ræntu Dana' í Reyjavík;
Reifara flan er breytni slík.

87. Fólkið Bretum fremsta lið
Fingurs spretta þorði' ei við;
Enskir rændu engar senn
Eignir bænda þessir menn.

88. Herskipið með hundrað manns
Harðsnúið, og foringjans
Getið Tómas Gilpins var
Góðs að rómi lýðstjórnar.
89. Tveir matrósar fljóða fund
Fýstust kjósa litla stund;
Undan flúðu tvistar tvær,
Tjörgu súðar eltu þær.
90. Áfram sætur æddu mest,
Fins og fætur toga bezt,
Elltu drengir, bæ að bar,
Búið spreng af mæði var.
91. Í því kerling út þar stökk,
Ekki' á ferli hjarta klökk;
Á handlegg stinnum barn hún bar,
Beitt í hinni sveðja var.
92. Rösklegt víf með reiði þjóst
Rak þeim knífinn fyrir brjóst,
Og hjet að slíðra' í hjarta reit,
Hinir viðrast upp sem geit.
93. Kvíðinn linar kviðar skak,
Kvennsemina' á flótta rak,
Kossa bæði' og kveðjur þraut,
Kauðar æða hræddir braut.
94. Furðu stóran hermanns hug
Hafði Jórunn full-sjötug;
Lofstír hressi landið þinn
Lengi, blessuð kerlingin!

95. Vösuðu fram til Viðeyjar,
Viðdvöl skamma höfðu þar,
Stórbretanna strákar tveir,
Stiptamtmanninn ertu þeir.
96. Frá honum tóku falleg þing,
Fengu hrókar þó refsing,
Eins og til þeir unnu þar;
Aptur skilað ræntu var.
97. Danaveldi dýrð er sneitt,
Dökkum feldi yfir breitt,
Sorgar linda enn í ár
Um má binda dauðleg sár.
98. þess er slokið líf og ljós,
Lofðungs fokin ættar rós,
Kristján ljezt á kónga stól,
Kjörinn beztur undir sól.
99. Enskir senn með eld og skot
Upp hans brenna vildu slot;
Hildar knúður hörðum byl
Holstein flúði sjóli til.
100. Auðnaðist ei eptir það
Aptur vist í heima stað,
Himininn greiðir harma ský,
Hilmir deyði Renzborg í.
101. Sat hann sprota veldis við —
Varð ei þrot á sælum frið —
Tvö um fjóra tugi ár',
Tignar stór og frægðar hár.

102. Ríki' og lífi ræntur nær,
Ræsis víf í herkjur þær
Honum brá, og herrar tveir,
Hugðu ná til ríkis þeir.
103. Voða eldur tiggja á torg
Tvisvar felldi' af höfuðborg,
Mest þó síðast brann og brauzt
Við Breta stríð í fyrra haust.
104. Konstir, handverk, lærdóm líkt
Ljet hann vanda' og stunda ríkt,
Blóm farsæla lífs og lands
Lyst, inndæli' og kapp var hans.
105. Æfi strax þá settist sól,
Sama dags á kónga stól
Í hans stað var eingetinn
Úthrópaður krónprinzinn.
106. Hafa flestir huggunar-
Herrar mestu veraldar
Honum -brjef í hendur sent,
Hann án efa' í brjósti' um kennt.
107. Málma sennur, morð og smán,
Meiðsli, brennur, skiparán,
Allir sanna ærulaust
Englands manna' í fyrra haust
108. Öðling Franskra æðsti' í heim
Ungum Danskra kóngi þeim,
Sem ótrauðast sóma hnoss,
Sendi' af rauða gulli kross.

109. Stórættaður, stillis ráð,
Stiptamtmaður á Jyllskri láð,
Guldberg — aldar geislaklár
Gimsteinn haldinn — deyði' í ár.

110. Stundaði bæði stórt með vit
Stjórnarfræði' og sagnarit;
Guðfræðinga lista ljós,
Lögspekinga mesta hrós.

111. Enska sveitin álma klið
Enn nú þreytir Danska við;
Og Svía grey með sverðin blá
Svífast ei að drepa þá.

112. Þúsund reiddu tíu tvenn
Til, að deyddu Norvegs menn;
Harðar kjapta hnjátur fá,
Heim svo aptur sneyptust þá.

113. Hundrað manna' og herbúnað,
Höfðingjanna sumt var það,
Öldin stranga', er álma skók,
Að herfangi' af Svíum tók.

114. Norskir því með harðan her
Heilsa Svíum ætla sjer;
Hvað útrjett þeir hafa þar,
Hingað frjett ei síðast bar.

115. Með karlmennsku hug og hag
Hafa þeir Enskum gefið slag
Skipum, annars fangað fá
Fallstykkjanna bátum á.

116. Ullar tjörgu Englands skip
Eitt nær Björgvin lestu' í svip,
Höfuðsmanninn helskotið
Höfðu, og annað fjölda lið.
117. En það hjarði' af Enskri drótt,
Undan varð að halda skjótt,
Bar að stafni byrjar happ,
Bylgju hrafn í sárum slapp.
118. Kanón-báta og kapara skip
Kosta láta mörgum grip,
Ræna' og Danir Enskum af,
Um sem flana norðurhaf.
119. Utan fyrir Amager
Ofsi styrjar hreifði sjer;
Sóknar slingir sigra greitt
Sjö byrðinga' og herskip eitt.
120. Brendu fimm, en einu á
Afar grimmu kappi ná
Farmi, sem er sagt til fulls
Svaraði þremur tunnum gulls.
121. Kóngur Friðrik köskum þrótt
Kapp-erfiðar dag og nótt;
Sjálfur stýrir Sjálands her
Sjóli dýr og stáli ver.
122. Skipastól að skapa' á ný,
Skenkir sjóla margur frí;
Sjóðir fullir safnast þar,
Silfur, gull og peningar.

123. Elska sýuist einkar skær
Allar krýna gáfur þær
Fylkis til og föðurlands,
Farsæld vilja þess og hans.
124. Sverfur hungur Svenskum að
Sveitum, þunglegt annálað,
Norveg' bjó og næsta frekt
Neyð, ei þó svo skelfilegt.
125. Týs að svanna tæk um geim
Tilfærslan er stífluð þeim,
Með kosta söfn í kyrrð og ró,
Úr Kaupmannshöfn og Austursjó.
126. Danmörk' veittist velti-ár
Vænsta eitt og frjófgun klár;
En tuttugu þúsund þarfalið
þeim til húsa bættust við.
127. Af þeim kjörum ávalt rís
Á matvörum hærri prís.
Illu flestu orkar stríð,
Eymdum, pest og dýrri tíð.
128. Frakkar skrýðast hildar ham,
Hefja stríð í Afríkam;
Reifara steyta' af ríki þar,
Randir sveita' í Gíbraltar.
129. Skal af þessum grannt að gætt,
Greitt með Persum hvert óhætt
Með lið að muni lukkast þeim
Landveg bruna' í Austurheim.

130. Spánar krónu særði sinn
Son af tróni föðurinn;
Frekt að stund með frægðar hag
Frakkar hrundu því í lag.
131. Ríkis von skal rekinn frá
Ræsis son, en hverfa á
Spánar lóð til Lúcíans,
Lofðungs bróður eins í Frans.
132. Hafa' enn Franskir herbúnað,
Hugsa' að kannske vinnist það,
Afrek stæra í eptir tíð,
Enskum færa' á hendur stríð.
133. Frakka þengill hefðar hár
Hefur fengið nú í ár
Herra nýjan hæstarjett
Í Hetrúría' og kyrkjustjett.
134. Enska þjóðin enn í grið
Æskir blóðugt haldist stríð,
Hyggja' eintómir hafi á
Herradómi sjer að ná.
135. Rammar skorður ræsirar
Reisa Norðurálfunnar,
Að á láði föstum fót
Fái' ei náð og kosta bót.
136. Á skipum fimm við Sjáland senn
Sóttu grimmir Danska menn
Traustu fari örlögs á
Einu, þar sem fyrir lá.

137. Skothríð grimm þar hófst og hörð,
Himininn dimmir, skyggði jörð;
Fasta báru fyrir vörn
Fólk á ára dönskum björn.

138. Loksins harða Dana drótt
Dofna varð að hörku' og þrótt,
Og við Breta undan svif
Upp þá settu fast á rif.

139. Engelsk þjóð að ending kífs,
Það eptir stóð af Dönum lífs
Tóku' í svip á söltum ál,
Settu skipið allt í bál.

140. Herskip vóru þeirra þar
Þurfin stórum aðgjörðar,
Mjög af skotum mölvuð flest,
Möstur brotin, stýri lest.

141. Svíar renna' í sveit með þeim,
Og svartir menn úr Vesturheim;
Reifara grúi röskur þó,
Rómast búi' í Domingó.

142. Aðrir nokkrir ei um heim
Eru' í flokki liðs með þeim;
Englands stjórn er allri byggð
Unns og fjórnar viðurstyggð.

143. Riddari Banks er reisti hjer
Rít með blanka' og Sólander,
Borinn kyni ensku af,
Út sem vinur sig hann gaf.

144. Úr Englandi frjálsa' að fá
Fríhöndlandi hverja þá,
Hjer sem konur höfðu' og bú;
Hingað er von á slíkum nú.

145. Riddarinn bezti reisu á
Rausn hjer mestu gjörði tjá.
Þessa mildi þína, hreinn,
Þakka skyldi hver og einn!

146. Þeim kaupförum Íslands af,
Er með vörur sigldu' um haf,
Fáein skip í fyrra haust
Fjekk ei gripið öldin traust.

147. Friðriks góða ástar il
Íslands þjóðar veslu til
Innanum stríðsins elda flug
Einkar þýða vottar hug.

148. Það að boði skjöldungs skal
Skipuð gnoð með rekka val
Og þarfavörur Þrándheim frá,
Þær sem kjörum helzt að fá.

149. Timbur, ærið vista, vín,
Veiðarfæri, járn og lín,
Allt saman með afar prís,
Alþýðan sem við ei rís.

150. Gegnum Breta skútur skauzt
Skipið þetta seint í haust:
Átta daga' um Íslands haf
Auðnan fagra reisu gaf.

151. Enn nú sýnir öðlings náð:
Alla krýnir sanna dáð
Heiðri, launum, hylli kætt,
Hafi' úr raunum manna bætt.

152. Storms og hrannar ofsa af
Átta manna dauðans kaf,
Gat fyrir nálægt girt og tjón
Gufuskála bóndinn Jón.

153. Fyrir mesta manndóm þann
Maðurinn bezti sjer ávann
Og starfið svinna, stoltar þing,
Stóran minnis-gull-pening.

154. Hann og kaskir hásetar,
Hönd sem vaska ljentu þar,
Enn að nýju öðlast rjeð
Áttatíu dali með.

155. Tuttugu' og fjóra fyrir dyggð
Fjekk, og stóra sýndi tryggð,
Að ungbarn stöðugt annast vann,
Eptir föður drukknaðan.

156. Dyggðin er í rjettri raun
Rífleg hjer sín eigin laun,
Æðst í kæti innra manns
Af rjettlætis verkum hans.

157. Nefnd er manna' af sikling sett,
Sem upp kann að finna rjett,
Hvernig bæði' og hentugast
Hingað næðu skip komast.

158. Meðan Enskir magna stríð,
Mæta Svenskum illsku lýð
Danir verða vaskir þó.
Voði' á ferð um land og sjó!

159. Hildar gröndin hamla því,
Hefur löndum sínum í
Máls til klíða milding sett
Millitíðar sakarjett.

160. Dómara talan við það vex,
Vera skal í honum sex,
Þá og ætíð efsta hans
Aðalsæti stiptamtmanns.

161. Kóngs að bæta kassa rán,
Knýr hans gætir saman lán,
Og fast ákvarðar fyrir því
Fylkis jarðir gisling í.

162, Þótt að Franskir leggi lið
Lýðnum danska stórmikið
Enskum mót og Svíum senn,
Sízt til bóta horfir enn.

163. Út um heim á æstum mar
Enskir sveima víkingar,
Læsa allt, sem árbót gaf,
Um Eystrasalt og Norðurhaf.

164. Ísland vona þarf ei þá,
Þegar svona stendur á,
Hjálpar Dana' af hungurs pín
Heil-máttvana börnum sín.

165. Náttúran er nógu rík,
Nauðsyn manna fyllti slík,
En illskan þjóða eitrar heim,
Öllum góða snýr frá þeim.
166. Hvar skal leita hælis þá?
Hver oss veita mun ásjá?
Yfir sveimi sólar far
Sál, og heima biltingar.
167. Allt að þengils engla trón,
Upp sjer þrengi hennar bón:
Heill að gæði land og lýð,
Ljetti mæðu' en hepti stríð.
168. Felum blíðri föðurhönd
Forlög, tíðir, líf og önd;
Biðjum, þreyjum, búumst að,
Burt þá deyjum, sælustað.

## Tíðavísur
### um árið 1809.

1. Nú frambrunar nýárs morgunroði,
Geima suðurs geislum brá
Gullstöfuðum vagni á.
2. Skýja brautir skundar undan sólu;
Fagna kindur, lögur, láð,
Og loptið yndis blóma stráð.

3. Ár nítjándu aldar það tíunda
Leiðir ört um loptin blá
Ljóssins björtu vængjum á.
4. Árið það, sem af rann stjörnu tjöldum,
Að veðraföllum vægðarsamt
Veittist öllum, þó ei jafnt.
5. Yfir höfuð, en þótt góður væri,
Mjög svo undra misfallinn
Margir fundu veturinn.
6. Hörð þá norðan hauðrið veðrin skóku,
Ís úr hafi aldan spjó;
Ei viðtafir hafði þó.
7. Vetrartíð að vori fram svo leiddist,
Hæg og væg að hörku' og snjó,
Högunum þæga von tilbjó.
8. Vestan æstist veður hvasst með Góu,
Frosnu varð á fróni rót,
Frekt uppbarði sand og grjót.
9. Húsa fjell og heyja þökum skaði,
Voða þjett um víða sveit,
Veðrið þetta sundursleit.
10. Vetri þýðum vorið eptirfylgdi,
Raunar síðla, rammar þó
ráku hríðar niður snjó.
11. Mestu hitar mundu' um Hvítasunnu,
Himin glóðar hægt umfar
Högum þjóðar yndi bar.
12. Skömmu síðar skiptist veður í lopti:

Í fardögum yfirsló
Ísalögum, hríð og snjó.

13. Veitti hnekkir vaxtar-ríki öllu:
Skemmdi jörð og skepnurnar;
Skorpan hörð og lángstæð var.

14. Grasár bágt, og grundin víða kalin,
Sumarið veittist síðan allt
Sjaldan heitt, en fúlt og kalt.

15. Úr hófi keyrði' í hundadögum miðjum;
Vest að frosti vetrarhríð
Var, og kostalítil tíð.

16. Á sumum stöðum sukku hús og bæjir,
Við heima-túna heyskaps önn
Að hálfu búna', í gadd og fönn.

17. Gras af kulda gróið lítt og vaxið
Fordjarfaðist fast og laust;
Firna skaði þar af hlauzt.

18. Hundadaga — hundrað ára gamla —
Voða frekan vonzku byl
Varla rekur minni til.

19. Mun og þetta mest í Norðursýslu;
Hún hefur þrátt af harðindum
Harma mátt og illviðrum.

20. Grasið skorti, grárri sinu blandinn
Fengur heyja finnst nú rír;
Fálkast eigi mjólkurkýr.

21. Yfir lysti öld úr regin hafi,

Er vikur fjórar vetrar til
Vóru, stórum hríðar-byl.
22. Ár og vötnin ísalögum fyllti;
Veðra gammur víða fló,
Viðdvöl skamma hafði þó.
23. Aptur bati æskilega góður
Mikaelis-messu frá,
Mánuð vel ei þessu brá.
24. Haust-brim mestu höfin norður æstu;
Skaflar sprungu, skelli-klið
Sker og klungur börðust við.
25. Enn nú síðast undir jólaföstu
Væga tíðin vistum brá,
Vetrar-hríðir lögðust á.
26. Heldur bágt enn hitt af suðurlandi
Í fyrra-vetur afla ár
Allar letra sagnaskrár.
27. Marsvína gafst mergð á Akranesi,
Þaðan ritað þúsund tals,
Það menn vita, fangað alls.
28. Undir jökli eitt hið happa-mesta,
Þjóðir greina þar á mót;
Það er meina fögur bót.
29. Syðra hefur í sumar betur gengið
Afla-tíðar árferðið,
Af því lýðinn rjettir við.
30. Af austurlandi afli frjettist góður

Sumar þetta' er síðst afleið,
Sem af ljetti þeirra neyð.
31. En fyrir norðan ógnarlegt sem fyrri
Kvein mannfalls og kvíða bjó;
Kvikur varla dregst úr sjó.
32. Vor afrunnið veðra' og hörku stranga
Þar hið sanna lagði lið
Lífi manna hrognkelsið.
33. Skortur grass, og skipa koman engin,
Fiskiveiðar bætt á bann,
Búa deyðir fátækan.
34. Vestur-Sljettu veittist sela tekja,
Bæjum tveimur ágæt á;
Og hjá þeim var björg að fá.
35. Heilsukjörin hafa' á ári þessu
Heppnast mönnum harla góð,
Hjálpar-önn ei fyrir stóð.
36. Taksótt gekk um tíma sumars framan,
Nær í bragði nam af þraut,
Nokkra lagði' [illegible] móðurskaut.
37. Nafns auðkenndir nú eru burtsofnaðir
Yfir bláan Ísa-reit
All-mjög fáir, það jeg veit.
38. Sjera Bjarni', er sat á Mælifelli,
Í sagnaritum, sálaður,
Sjerlega vitur öldungur.
39. Sjera Árni, sonur Skapta gamla,

Fjell með hesti ofan um ís,
Aldur lesti feigðar dýs,
40. Á Hálsi eystra Hamarsfjarðar prestur
(Happið gengur hallt í kring),
Hafði fengið Mývatns þing.
41. Þorsteinn djákn, er þjenti' á Möðruvöllum,
Gáfumaður ern og ör,
Al-tregaður missti fjör.
42. Ljet ósnauðan líkt á reisu kenna
Faktor Hólm á Húsavík
Helið ólma kjörin slík.
43. Steyptist niður um staka jökul-dokku,
Bekkur undir belja vann,
Burt með skunda færði hann.
44. Fyrrum húsfrú faktors Pjeturssonar,
Madama Sæunn, merk að tryggð
Metin æ, og sannri dyggð.
45. Jómfrú Steinunn jafnt á Möðruvöllum
Mælt afgengin mennta klár,
Með nær fengin hundrað ár.
46. Madama Þóra, mjög af stórum ættum
Sjúkdóms-gjarna seldi líf,
Sjera Bjarnar ekta víf,
47. Eyjardalsár yfir prestakalli. —
Andaða heyri jeg ei með skil
Aðra fleiri nefnda til.
48. Sjera Jón er seztur að Mælifelli

Konráðsson í kyrrð og spekt,
Kall að vonum sómalegt.

49. Jón Einarsson jafnt frá Sauðanesi
Hamarsfjarðar Hálsi að
Hafinn varð í dáins stað.

50. Kvennmenn þrír frá Kaupangs messu gengu,
Hríð og nóttin herti að,
Hungur og ótti samtvinnað.

51. Einsamlar og utan fylgdarmanna
Úti blá við ísa tjöld
Annað láu fram á kvöld.

52. Hríðin næstum hrakti þær til dauða,
Dönskum búning annars í,
Ekkert hún samt vægði því!!

53. Geystist frostið gegnum kattúns voðir;
Íslands var þá betri brók
Brúðum, þar er hríðin skók.

54. Ein var heil, en önnur lítið kalin,
Þriðja svöðuð lengi lá,
Loksins sköðuð fíngrum á.

55. Ekkils blökkum undir landið renndu
Dana' og Breta þjóðir þrátt,
Þraut af ljetta mundu smátt.

56. Eptir nýtt ár Enskir farmenn hjeldu
Um æga dröfn með efni rík,
Inn á höfn í Reykjavík.

57. Seldu vörur síðan landsins mengi

Ærnum prís, sem ekki þá
Undir rísa fólkið má.
58. Í vor frá Norveg' voða gammur flökti,
Um sem færði Etazráð
Ólgu-hrærða karfa láð.
59. Kom út síðar kammerherra Trampe,
Alvald hjer sem eptir það
Átti' að bera' í kóngsins stað.
60. Hjelt ei lengi hæsta sæti þessu:
Enn nú flóða örlögs mar
Enska þjóð að landi bar.
61. Kom út Jörgen, kyni Dönsku borinn,
Breta lýður hertók hann
Í hörðu stríði sigraðan.
62. Síðan hafði sikling enskum þjónað;
Vildi hjer það veslings flón
Veldis sjer upp reisa trón.
63. Landi' og þegnum ljezt hjer stýra mundi
Valda-sletta, vorn af því
Varðhald setti greifann í.
64. Stiptaði lög og stjórnarbilting nýja;
Dana láða fje, hvar fann,
Firna bráður hripsa vann.
65. Höndlunarstaði hálfa' og stundum meira
Burt ósparast bruðla rjeð,
Baun sem þar ei átti með.
66. Reisti' um landið, rjett sem kónga maki.

Og tukthúss fanta fylgdar lið
Fjekk sjer gantinn útvalið.

67. Tyllti á stælta tignarklæða voðum,
Bissur skyldu bera' á hlið.
Og beltið gildan korða við.

68. Hæstu fjöllum hjet af gulli', að kalla,
Skulda fríun, skatta rírð,
Og skapa' að nýju landsins dýrð.

69. Heils árs forða' á höfnum landsins öllum;
Skyldi mengið skort ei sjá,
Skip þó engin bættust á.

70. Lýðstjórn skyldi' í landi þessu hafin,
Og formenn átta fyrir sjá
Fólksins háttalagi þá.

71. Víða hvar, þeir völdum áttu' að stýra,
Af sjer vundu embættum,
Eiðum bundnir kónginum.

72. Áttu valdsmenn, er þeim stjórnarlögum
Vildu þeigi veita skil,
Vestmanneyja flæmast til.

73. Jafnótt setti Jörgen aðra' í staðinn:
Skoppaði gönu-skeið í völd,
Skenkt af hónum, sjervís öld.

74. Reist hervirki' í Reykjavík nú skyldi,
Og orustu kenndar íþróttir
Íslendri þjóð, sem fyr.

75. Skrugga þaðan skoteldunum átti,

Sæktu hingað, harða slá
Hervíkinga landi frá.
76. Verndar-engill vor hann sjálfur skyldi,
Og hæstráðandi herra þó
Hjer um land og norðursjó.
77. Um völd ófrjálfs og virðing ofurhræddur,
Ljett við hótar laga brot
Láta skjóta menn í rot.
78. Tókst það einum, tráss við lýðsforíngja,
Jörgen fugli, stjórnar stands
Stólpum rugla þessa lands.
79. Ó hvað mætti Íslands tetur harma!
Einn þess fælir aumu börn,
Enginn stælir móti vörn.
80. Ól það fyrri afreks kempur gildar;
Autur og vestur út um heim
Ótti mestur stóð af þeim.
81. Einn var samt, er etja kappi þorði
Viður þann með vjela strik
Vakti manna drottins-svik.
82. Saptafells sá skipaði vestur sýslu,
Hvergi sljór á herjans kvon,
Hugarstór Jón Guðmundsson.
83. Letur sendi landsins herra nýjum,
Afsegjandi alla trú
Enskum fjanda þessum nú.
84. En þótt hernað austur þangað færði,

Kúlu skyldi' á kjapti fá
Kemba gilda þaðan í frá.

85. Þegar hinn heyrði þessa afarkosti,
Allt hans hjarta, sinni' og sál
Settu snart í reiði bál.

86. Datt úr völdum dárinn mitt í þessu,
Fjellu' í skarnið heitorð hans,
Hefð og varnir sunnanlands.

87. Herskip kom að heiti Talbot síðan,
Æðst-ráðandi enskur þar
Alexander Jones var.

88. Jafnt sem heyrði Jörgen mannsins getið,
Herrann mikla hræðslan tók,
Hjartað spriklar niður í brók.

89. Skýja fætur skulfu lognum tróni;
Eyddist hroka einvalds form,
Eins og þoka fyrir storm.

90. Herrum lýðs, sem hóf í tignar sæti,
Var og steypt úr völdum þeim,
Vöguðu sneyptir síðan heim.

91. Ráðgjafarnir rákust eins til baka;
Varnarslot að velli hans
Var og brotið sunnanlands.

92. Allir þeir, sem af sjer völdum sögðu,
Að sjer tóku embættin
Eptir hrók þann burtrekinn.

93. Samning gjörði síðan Jones enski

Landsins yfirvöldin við
Vor, að lifa' í sátt og frið.
94. Mælt er sigldur muni greifinn Trampe,
Að lögsækja, eptir von,
Aðil klækja Jörgenson.
95. Stephensenir stiptamtmanns embætti
Greifans vegna lærðir lýð
Lofa' að gegna' í millitíð.
96. Sjálfur Jörgen sigldi' á ensku fari;
Eldur kvikna í því vann,
Upp þar stikna mundi hann,
97. Annað skip ef ekki bjargað hefði
þeirra manna lífi' um lá,
Sem ljóni hrannar fluttust á.
98. Allopt slysa egndri bana snöru
þræla slæma þjóð að bar;
þess eru dæmi víða hvar.
99. Jörgens boð og Jones sáttmál prentað
Etazráðs með upphafning
Ísland bráðum fló í kring.
100. Lán, sem fyr í landi kóngs fjehirzlu
Ríkir lögðu rekkar til,
Rjett eru sögð á komin skil.
101. Lofðungs jarðir leystar eins úr panti;
Hver hefir fengið síðan sitt,
Svo eru lengi málin kvitt.
102. Föður-boðorð Friðriks konungs sjötta

Votta góðan ástar il
Íslands þjóðar veslu til.
103. Hann bauð allan hagnað við að brúka,
Sjerhvað nýta', er veitir vörð,
Og vor útbýtir fósturjörð.
104. Neyð að ljetta nú á liðnu sumri,
Styrk peninga stórvaxinn
Stillir hingað sendi inn.
105. Hreppstjórarnir hressast upp úr dupti:
Setjast færri' enn fyrrum var,
Fá þess stærri virðingar.
106. Lagt er þeim til launa hrepps í störfum,
Kóngs skattgjaldi fríun frá,
Og fátæks haldi búum á.
107. þjónusta við þörf og skipun sveitar,
Ýmiss hrasan almúgans,
Auðgar vasa hreppstjórans.
108. Fanga skulu þeir fæði' og vöktun annast;
Amtmenn fögrum sæmdir seim,
Semji lög til handa þeim.
109. Leyfðar bláar langbuxur og treya,
Vesti gulu enn við ýkt,
Amtmenn skulu biðja' um slíkt.
110. Kragann treyu kring og ermar framan
Silfur-snúru mjórri má
Með útflúra', er glóir á.
111. Sauða þjófar sæta' ei Brimarhólmi,

Nje tukthúss veru' í tötra mynd;
Til þó beri' að steli kind.
112. Eins og títt var áður hjer í landi,
Hafi' eintómar hýðingar
Heilags frómleiks níðingar.
113. Slaður-hrókar slíka typtun hljóti,
Og húsgangar ýmsir senn
Ásamt flangurs lausamenn.
114. Sveitar fólkið, svo og tukthúss lýður,
Hesta spiki alist á,
En ei skal mikið bera' í þá.
115. Fátt er hingað frjett með nokkrum rökum
Um stríðstíðir erlendis;
Æðir lýða flimtur-kvis:
116. Franskir sæki frekt í Austurheima,
Orustu vastur áfram bar
Enskra fast að Gíbraltar.
117. Tvistir máttu tvisvar undan hrökkva,
Harðfeng varðist heima-þjóð,
Hvergi sparði líf nje blóð.
118. Þriðja sinni, og það með kappi ströngu
Frakka svaðað frægðar lið
Fjekk þó staðinn inntekið.
119. Fregnin segir: fjórtán þúsund manna
Í svo hvellum odda gný
Af þeim fjelli valinn í.
120. Uppreist Þýzkir enn mót Frönskum gjörðu,

Höfðu skaðann heimgjald í;
Heitir það ei bóla ný.

121. Keisari þeirra komst í herkjur mestu,
Sáravöndum hýddur hann
Hartnær öndu tapa vann.

122. Útkom skip við austurlandið síðla,
Annað bar á Hofsóss höfn,
Höndlunar með vöru söfn.

123. Skelfilega' á skipum þessum báðum
Var nauðsynja vara dýr,
Vor þar kynja móti rír.

124. Ganga munu geysi prísar, meðan
Heyptar stríð á storð og geym
Steypa víðast norðurheim.

125. Einn það veit sá örlög manna vegur,
Angur í kætis ásett mál,
Í rjettlætis metaskál,

126. Farsæld nær á friðarins gullnu vængjum
Mörgum þreyð af allri önd
Yfir breiðist norðurlönd.

127. Felum oss hans föðurhandar skjóli,
Unz að mæling alin frið
Æðstrar sælu tekur við.

# Tíðavísur
## um árið 1810.

1. Einn er tugur afliðinn,
Aldafars nítjánda,
Um eystri buga annar hinn
Aptur á flug er nýkominn.
2. Fyr enn líður, fær ei mann
Forlög vitað gjörla,
Oss hvort blíður auðnast hann,
Ellegar stríður verða kann.
3. Heims í skara sæll er sá,
Sorgar jafnt og gleði
Tímunum vara tekur á,
Til að fara vel með þá.
4. Árið síðast af sem leið
Einkum norður-byggða
Íslands lýður enga neyð,
Ellegar stríðan skaða beið.
5. Víðar sýndist veðrafar
Vægt að snjóaföllum;
En hörkur píndu harðfengar,
Holdi týndu skepnurnar.
6. Vetrarríki vestanlands
Var og syðra þyngra.
Hesta slíkur felldi fans,
Fjár og líka búandans.

7. Regns af þíðum reis ólag,
Rosa vestan stormar,
Af snjóhríðum ofsa-slag
Opt og tíðum sama dag.

8. Af því löngum stirða storð
Steyptu svella hjúpi;
Ótíð ströng á annað borð,
Útigöngu-penings morð.

9. Í norðurhorni voru var
Vægra þessar tíðir;
En himinbornu hörkurnar,
Hauðri fornu skaðvænar,

10. Útmánaða yfir skeið
Ákaft jafnast vörðu;
Vorinu' að svo loksins leið,
Langan skaða þar af beið.

11. Jörð ófólgin jökli drakk
Jafnan kulda skerfi,
Hafíss-kólgu hulin stakk
Hörku bólgin sundur sprakk.

12. Gróðurleysið hams og hold
Hesta' og fjárins rírði.
Dugði' ei geysi dáðlaus mold
Dýr að reisa blóm úr fold.

13. Hríða skvaldurs þreytti þrátt
Þraut yfir Hvítasunnu
Vorið kalda veður-hátt,
Við nam halda norðanátt.

14. Grænlands ísa þó ei þök
Þjáðu norðlendinga,
Af sem rísa óhöpp stök,
Eða vísust banatök.

15. Veðurátt þó vægði til,
Vantaði dögg heilnæma;
Gróður þrátt um þetta bil
Þróaðist smátt við sólar il.

16. Nætur frostin eymdu, [redacted]
Ofur heitt [redacted] daga,
Hauðrið þorsti sókti senn,
Sem landkosti fyrrti menn.

17. Varmi sunnu veitti spjöll
Vaxtar-ríkis blóma.
Mýrar, brunnar, fen [redacted] fjöll
Fast að grunni þornuð öll.

18. Það aðgætti þjóð, og kveið
Þurrð á heyja safni;
Sama hætti sumars skeið
Setti' að slætti fram á leið.

19. Veðra hryðjum varðist átt,
Vinda ljeku hjólin,
Heyja iðjum hepti þrátt
Hiti', að miðjum túna slátt.

20. Síðan vætur settust að,
Sem ei komu' að spjöllum,
Gróðrar bætur þóttu það,
Þægra' að sæta heyverknað'.

21. Veitti mengi veðra far
Værð að túnhirðingum;
Töðu fengur vor því var
Vel umgenginn heimfluttrar.
22. Heyja önnum höllun bjó
Hafið norður kalda,
Veðra mönnum værð af dró
Vætu hrönn með Ágústó.
23. Heppni bráð í hendur gekk
Hálfum mánuð' síðar,
Heyjum náði þjóðin þekk
þeim, sem áður losað fjekk.
24. Veður því að voru klár
Veitt, þess neyttu flestir;
Sæl og hlý um sólir þrjár.
Síðan skýja hrundu tár.
25. Vinda rimma vóx á ný,
Vinnu brögðum hnekkti;
Fjúk og dimma fylgdi því,
Frostin grimmu' í Septembrí.
26. Vetrar kulda veður hörð
Veldi' og hjarðir skóku,
Fast um buldu fjalla skörð,
Fölið huldi tíðum jörð.
27. Víðar engja vaxið lítt
Visnaði gras að rótum;
Fjárins gengi nær ónýtt,
Neyðir mengi þetta títt.

28. Að jafndægrum loks svo leið,
Lítt viðbættist heyja:
Tíðin hægri þjóð alþreyð,
Og þaðan af vægri kuldans neyð.
29. Mikaelismessu frá
Mund að Allheilagri
Fjell dável um fold og lá;
Farsælt telja haustið má.
30. Harðlynd tíð, sem högum manns
Hjer fyrir norðan þrengdi,
Stofn var lýð og bjarga banns,
Böl vatns hríða sunnanlands.
31. Túns og engis þó mun þar
Þeim hafa gengið betur
Heyja fengur, hallkvæmar
Hjeldust lengur gæftirnar.
32. Foldu jólafastan djörf
Faldaði hvítum dúki,
Norður bóla nærði þörf,
Næstu sólar yfir hvörf.
33. Allt hvað fokið áður var
Um og fyrir jólin,
Árs við lokin burtu bar,
Bylja rokum þeyvindar,
34. Allmjög hvessti, yggjar mey
Útsynningar hristu,
Báta hlestu, hús og hey
Hast af vestri' í lokinn þey.

35. Vetrar skeið þó veitti hnjóð
Víða suðurlandi,
Bætti neyð, en þægði þjóð
Þorska veiðin harla góð.

36. Orkar mestu árferð blíð
Eins við mar og sveitir.
En fyrir vestan afla tíð,
Einhver bezta kætti lýð,

37. Þegar gaf um þorska hlað
Þilju vagni' að aka.
Eins er skrafað austan að
aflast hafi', — og satt mun það.

38. Fiskileysi enn í ár
Amaði Norðursýslu;
Bjargar geysi-banvænt sár
Búa reisir aumra tár.

39. Happ af unni hefur ei menn
Hjer, eða sigling stoðað
Síðst af runnin sumur þrenn;
Sama' af brunni drekkum enn.

40. Þegar aðgætum þekktan mun
Þess'ra' og fyrri tíða,
Að ei mætir manna hrun,
Má vel sæta forundrun.

41. Augu þegar uppljómuð
Yfirskoða, sjáum
Mildilega góður guð
Gefur af trega lífsfögnuð.

42. Faðirinn getur bita brauðs
Blessað aumra munni
Sumar og vetur safni auðs
Sumu betur hjálpar-trauðs.

43. Hungurs þætti voðann við
Vorið festi stríðum,
Úr eymdar hætti allmikið
Aumra bætti hrognkelsið.

44. Rak og festi reiðarhval
Röst í Þistilfirði.
Er það verst ef um hann skal
Aukið presta deilu tal.

45. Hákarls fengur hagnað bar,
Heilagfiski, skata;
Vers um tengur víða hvar
Veiðar gengu þvílíkar.

46. Reynslu játa rök það skír,
Rjeni bætikostur,
Af hákarls áti', ef hann er nýr,
Heilsumáti verði rýr.

47. Þrykkir óðum þrátt á lögð
Þraut hjer fiskileysis;
En þó góð í sumar sögð
Syðra þjóðar aflabrögð.

48. Heilsan góða hefur þjóð
Hresst með beztu kostum,
Happa sjóði' af hafi' og lóð
Hún og gróða' ei fyrir stóð.

49. Yfir bláan Ísa-reit
Arið næst afrunna
Hafa fáir af heldri sveit
Hjeðan dáið, það jeg veit.

50. Lífs er blóma rós upp rætt,
Ragnheiðar Steffánsdóttur,
Sprottin sóma amtmanns ætt,
Uppheims ljóma fegur kætt.

51. Andláts blundar eðlis-far
Að Ási prest í Fellum
Sigfús undan sorgum bar
Son Guðmundar vígðan þar.

52. Tjarnar vestra ljet og lon
Ljós með Vatnsnesingum,
Giptur, beztri getinn von,
Gísli prestur Magnússon.

53. Helgastöðum Helga [redacted]
Himin-reisu gjörði,
Dýrð alföðurs sæl að sjá,
Sjúkdóms böðum numinn frá.

54. Happa vonar herrans þjón
Á Holti' í Önundsfirði,
Ásgeirs sonur, sjera Jón,
Setti' að honum lífsins tjón.

55. Herma dáinn rómur rjeð
Runólf prest á Keldum;
Hruna frá Jón Finnsson með,
Fyrrum sá ljet kallið tjeð

56. Fptir kærum syni sín,
Sjera Torfa presti;
Prófasts æru-skarti skín,
Skal hann fær um störfin brýn.
57. Sótti feginn sælu rann
Sjera Jón Árna niður, Ara
Virðar segja viðskildan
Vestmanneyja prestinn þann.
58. Bjarni nokkur, bóndi þar,
Brjef um prestsins dauða
Ljet í stokk, er lands til bar
Löður um dokkir skervallar.
59. Storma rimma hefur í haust
Hepta sigling þaðan,
Hafið grimma björg við brauzt,
Bifroks dimma' í loptið skauzt.
60. Rysjugt beið á rögnis kvon
Ríslis sýslumaður
Hátt lífs skeið, í himins von
Halldór deyði Jakobsson.
61. Lyndis glaður, lögvitur,
Letrast Ketils arfi,
Sjúkdóm hlaðinn, sálaður,
Sýslumaður Guðmundur.
62. Hastarlega heiminn við
Hinir og þessir skilja,
Sælli vega sóktu mið,
Sofa' án trega' í móður kvið.

63. Líka' óvörum sökkva' i sjó,
Sumir úr björgum hrapa,
Af slisförum árið þó
Ýmsra kjörum niður sló.
64. Íslands sunnan skeð enn skal
Skipatjón í fyrra;
Mara unnar mætast val,
Mjer er ei kunnugt þeirra tal.
65. Ærslum hrannar þrotnir þrótt
Þrengdir hels í dróma
Fimmtygir] manna fórust skjótt,
Fækkar þannig kaska drótt.
66. Landið kringum letrast senn
Ljóna skerja vallar
Stórhrakningar ýmsir enn
Eymt og þvingað hafi menn.
67. Þó nam banna þar og hjer
Þungum styrjar órum
Illhvelanna harður her
Hægðir manna' um fiskiver.
68. Hríða gráðin hristu jörð,
Hreyttu' og veittu skaða,
Vermenn þjáðu veður hörð,
Vonzku bráð um fjalla skörð.
69. Holtavörðu heiði skjótt
Höldar þrír í flokki
Yfir börðust eyddir þrótt;
Árás gjörðu hríð og nótt.

70. Enga í styggðum áttu ró
Yfir dökkva grímu,
Mettir hryggðum, mæddir snjó,
Manna byggðum nærri þó.

71. Hríðin trauða hrakti þá,
Hress var einn, en kalinn,
Annar nauða þrengdur þrá,
Þriðji dauður eptir lá.

72. Reisu önnum rysjug grið
Reyndu greindum fleiri;
Háska mönnnm hætti við
Af hörku, fönn og storma klið.

73. Af mjóum stalli missti fót
Maður í Grímsey ungur,
Bjargs um hjalla- biltist -mót
Bana-falli niðurá grjót.

74. Fyr við skóla fræða vins
Fótur lestist sundur
Gísla' á Hólum — göfugs kyns, —
Gamla stóli biskupsins.

75. Elfu bakka of nær reið
Eystra ferðamaður,
Hauðrið sprakk, í hana' um leið
Hrökk með blakk, og gisti deyð.

76. Eysu hranna ungur týr
Á við lamba gætti,
Fram í hana fyrir þau snýr,
Fjekk þar bana hreysti rýr.

77. Strauma spennu heljar hörð
Hofsá enn nú drekkti
Álma sennu ungum njörð,
Um sem rennur Vopnafjörð.
78. Fóru leiðar tveir um tíð
Tjeðrar jólaföstu
Eystra, neyð þeim æsti stríð,
Úti deyðu' í grimmdar hríð.
79. Enn nú tjáð er og með skil,
Aðrir tveir á ferðum
Kafalds hrjáðust köldum byl,
Kól þá báða skemmda til.
80. Eptir dauðan alstaðar
Annar kemur í sætið;
Fregn ótrauð mig fyrir bar
Fá um brauða veitingar.
81. Oddi fallinn eystra rór
Er Steingrími veittur;
Lektor allmjög lærdóms stór
Ljentu kalli þjena fór.
82. Skal hans sætið skólann við
Skreyta Jón frá Görðum,
Með ágætis mennta sið
Mest innræta guðfræðið.
83. Auðnan hefur ákvarðað
Enn að kenna syðra
Hallgrím Scheving hins í stað,
Hann án efa getur það.

84. Einhvern bezta yggs á kvon,
Önundsfjarðar sveitir
þyggja vestra; þess er von,
þorvald prestinn Böðvarsson
85. Kveikir bezta lýðum ljós
Lærdóms Helga sonur
Árni prestur, æðst með hrós,
Að er seztur nú í Kjós.
86. Runnu' enn þá um rákir flóðs
Reflum hvítum undir
Hestar knáir hafla blóðs
Harla fáir oss til góðs.
87. Enskir svana yfir beð
Einir flana gjörðu,
Ameríkana eitt skip með,
Örfá Dana gátum sjeð.
88. Færðu ljónar yfir ál
Oss tóbak með salti,
Hveiti, grjón, rúg, steinkol, stál,
Og staupa lón að hressa sál.
89. Eirði í kyrrð við akkers bönd
Ein frá Dönum síðast,
Landa gyrðis eggjuð önd
Á Eyjafirði' og Skagaströnd.
90. Litla stoð nam fólkið fá
Fjarlægari sveita,
Dýrt fram boðið einkum á
Ylgjum voða Dönum frá.

91. Aflar kvíða, sóar seim,
Sannist þannig geipað:
Logar stríðs á láði' og geim
Leiptri víða' í Norðurheim.
92. Hrannar nöðrum sveima' í svip,
Sveifar leita' að hestum,
Hvals á jöðrum hvata grip,
Hver fyrir öðrum taka skip.
93. Norskir láta styrjar stjá
Stofnað dofna hvergi,
Kanón-bátum ólmast á,
Enska plátu börva slá.
94. Æstu laginn odda gný,
Átta' og fjörutygi
Kaupför slagi unnu í,
Enskum bagi varð að því.
95. Hörð ei spörðu herskip þá
Hinna sinna fjanda,
Jörð sem vörðu upsa á,
Örðugt börðu' og hröktu þá.
96. Eldi' og skotum uppgefin
Allnær Kristjánssandi
Kífs að þrotum kaupförin
Keyrðu' í flota' á hafnir inn.
97. Hernað slíkra harðfengan,
Horskur Norskra sjóli
Frankaríkis fregna vann,
Og frægð þvílíka, sagt er hann:

98. Skip tvö allvæn skenkti þýtt
Skírum stýri Dana
Hjörs í svall með fólkið frítt,
Fjölnis hallar-tjöldum skrýtt.

99. Svo og hripar sagan tvenn,
(Sannleik kann jeg varla)
Hundrað skipa' af Enskum enn
Alls, hafi gripið Danskir menn.

100. Í Holstein þeir við uppboð ulls
Eitt herleitt á svanna
Seldu heyrist sagt til fulls
Sex eða fleiri tunnur gulls.

101. Hjer óspör mun helzt ólægð
Horskra Norskra' og Dana
Af unnum knörnm öfluð frægð,
Enskrar vöru hrósa nægð.

102. Beztu stýra buðlung hjá
Bernstorfarnir þóttu;
Fregnir hlýra tvo nú tjá
Tekna dýru ráði frá.

103. Lífs hvað skeiði ljettir að
Líða síðan verður,
Áður en leiðir al-hagnað,
Opt hefur neyðin minnt [illegible] það.

104. Nú um stundir næsta frekt
Neyð afsneið aðdrætti;
Öld hefur fundið ýmislegt
Upp, sem mundi' ei fyrrum þekkt.

105. Klæði tætt úr fífu fær
Fínust Dana sveitin;
þel-ull bætt við þriðjung nær,
þykir mætt áferð og blær.

106. Sikurs líkt og sírópið
Sjóða' af gróðri annað,
Kosta-ríkt við kaffeið
Kynnt er slíkt ný-uppfundið.

107. Norðmenn, síðan nauðsynin
Neyddi' og eyddi flestu,
Fyrir lýð svo far-þæginn,
Úr fífu smíða pappírinn.

108. Að karlmennsku síðan sið
Sátt við áttu Dani
Hafa Svenskir hertekið
Herskip Enskra stórmikið.

109. Kristján Ágúst kjörinn þar
Krónprinz tróni Svía,
Heimi frá þann herra bar
Hastara þá, enn sök til var.

110. Aðalsstjett það ama spann,
Undir- mundi -lýðum
þrældóms rjetti þeirra kann
þenkja' að ljetta, góði mann.

111. Burtför mikið þess skal þreyð,
Þýður og blíður öllum.
Orði' er vikið á þá leið:
Af eitri svikinn hreppti deyð.

112. Grunsemd alla fólkið fann,
Fersen þessu valda
Krónprinz falli, kynstóran
Konungs hallar siðamann.
113. Út þá hreifur keyrði kátt
Karskur marskálk síðar,
Úr vagni þreif hann þjóðin brátt
Þar og reif í sundur smátt.
114. Svo hafa slegið sinn höfund
Svika strykin tíðum;
Hans má segjast heiptar mund
Höggi fegin skamma stund.
115. Rússar tygjast gerð og geir,
Gremja' og lemja Tyrkjann:
Vallakíið vunnu þeir;
Víst af því hann fær ei meir.
116. Allt hvað var af Enskra þó
Auð og skipa kosti,
Rússa hari hönd á sló
Í höfnum þar og Austursjó.
117. Englands krónu' á hauðri' og hyl
Hjer vel er af flestum
Matið tjón við marar il
Milíóna fimmtán til.
118. Reiðarslög um land og lá
Lýð af stríðum hrella;
Þó bardögum Frakka frá
Frjetta sögur minna tjá.

119. Enskir skyldu' í Holland her
Hafa' ákafir settan,
þrjátygi gildar þúsundir,
þjóðina vildu tengja sjer.
120. þar var staddur fyrir frí
Frakka rakkur stillir;
Lið sitt kvaddi orustu í,
Erni saddi krásin ný.
121. Stykkin hlóðu stórvaxin,
Stál-mynnt báli spúðu,
Enskir vóðu að þeim senn,
Af það stóðu Frankis-menn.
122. Bretar feigir, sviptir seim,
Sigruðust vigri hinna,
þar til ei var einn af þeim
Eptir að segja frjettir heim.
123. Hjelt á síðan heimkominn
Hari' í París stefnu,
Stjúpson býður segði sinn
Svo málsklíðar afdrifin.
124. Að skilja fljótt sig vildi við
Vottaða drottning sína,
Stórráð þótti' í stjórnar sið
Styri drótta ofmikið.
125. Skenkja síðan skjöldung vann
Skara' og farar blóma
Bauga hlíð, þá burtu rann,
Og bústað prýðis-ágætan.

126. Síðan víkur sefi hans
Systur listum búnu
Að með síkis elda glans
Austurríkja keisarans.
127. Ekki bærir öldin kvak
Um og krummar þegja,
Að hans væri bilað bak,
Bónorð kæru þegar rak.
128. Hafði að báðum hertygjað
Hliðum lið í röðum;
Sikling tjáður svo af stað
Sótti bráður Wien að.
129. Allt hvað sólu undir var
Unaðs funa glæddi;
Lýður og sjólar lengi þar
Ljeku að hjóli fagnaðar.
130. Allur skein af sólu sjós
Sikling mikli Frakka,
Öld sem greinir æðsta hrós,
Eðalsteina festi rós.
131. Langt af kvendi ljósu bar
Ljóma blómi klæða,
Gulli renndir gimsteinar
Geisla sendu', og perlurnar.
132. Makt gjörvöll um mar og lóð
Mildings gildi fagnar:
Ljórar, höllin, ljónar, fljóð,
Loguðu öll af hrannar glóð.

133. Fjögur hundruð fullkomin
Fríða stríðsmenn sína
Gipti sprundum sama sinn
Sæmdi' og mundum, keisarinn.
134. Augunum rómast að þar gá
Ætti, að mætti' ei spjöllum,
Sól er ljóma sínum brá
Settan blóma skarans á.
135. Allt hvað heimur undi bezt,
Öl og völ kræsinga,
Kæta heima mundi mest,
Og mætar seima-hrundir flest.
136. Unz að kvöldi ölfögnuð
Ótt rjeð nóttin slökkva,
Reiddi öldin rós-förfuð
Rekkju tjöldin gullstöfuð.
137. Sjóla drottning sinni með
síðan blíðu nýrri
Vært og gott þar varð á beð
Við nýsprottið kærleiks geð.
138. Veizlu haldi við jeg sný,
Vísis prís að meira:
Spánar gjald með fólki frí
Frankis valdi leikur í.
139. Færði síðast frjetta tal,
Franskir og Enskir bæði
Etji lýði út, er skal
Ákaft stríða' um Portúgal.

140. Frankaríki fest skal við
Framar, og sama þjóna
Herra slíkum Hollandið,
Helzt það líkar velkomið.
141. Hægð útgjöldum hjer við fann
Hlöðver Bónaparte,
Sig frá völdum segja hann
Sefa köldum áður vann.
142. Spánar mesti fjöldi fer
Framar heim ei keppa,
Sunnan Vestur-álfu er
Ætlar að festa ríki sjer.
143. Fastan skorða framgang sinn:
Ferdínand sjöunda,
Heima' á storði háborinn,
Hylla' í orði krónprinzinn.
144. Stríðs umbrot ei stofna ró;
Stálum rjála Bretar:
Örlögs floti' í Austursjó
Engan rotað hefur þó.
145. Mikilskonar milding þann
Master Jóhann Parker
Íslands konsúl ættstóran
Enskra svona skipa vann
146. Svo jeg halda síðast vil
Siglu trygli lekum
Eikinskjalda' í ýmu byl
Íslands kalda norður til.

147. Hjelt af fróni kjör við kljen
Kær til Englands Trampe
Strengja ljóni' um stökkuls fen
Og stjórnar flónið Jörgensen.

148. Greifinn þangað sótti sjer
Sóma' í dómi Breta;
Hinn sem fangi haldinn er,
Hefndin stranga' á eptir fer.

149. Nú er gengið hofmóð hans,
Hjer sem vera þóttist
Verndar-engill Ísalands;
Ærslum þrengir gortarans.

150. Færi betur enginn illt
Af hans slafri hreppti,
Eða' í metorð ofan sýlt,
Eptir tetur þetta hvílt.

151. Sagt er að nú sje hjer frá
Sýslan Íslands greifinn,
Stiptamtmaður Þrándheims þá,
Þar við glaður uni sá.

152. Meðan hans ei skipar skýr
Skjöldung höld í sæti,
Stiptamtmanns við störfin dýr
Standa landsins herrar þrír.

153. Amtmaður Steffán, assessor
Ísleifur, landfóetinn;
Hinna tefur heiðurs spor
Hærra gefið meðal vor.

154. Út sjer hvíslar illt með happ,
Eið af neyðir mengi,
Við að rýsla' ei vantar kapp
Vaðlasýslu mála stapp
155. Lasta dreggjar lostugar
Lýð að síður villi,
Hrekkja-seggja hreppstjórar
Hrygg á leggja flengingar.
156. Mestu raun það með sjer dró, —
Maður að ef gætir, —
Sjálfir launa þurfa þó
Þeim, er hlaunum skinn af fló.
157. Lagið hafnar ljóða smið,
Lítt mun nýtt af slíku;
Fræða safn er framtalið,
Í frjetta nafni' ei bætist við.
158. Ef að rætist ósannað
Eitthvað hreytt af þessu,
Og frekt ógætið framvarpað,
Fróðari bæta vildu' um það.
159. Tíða-kvæðið svo jeg sel,
Sveit að teiti verði;
Lifið bræður virta vel!
Vísi hæða jeg yður fel.



# Tíðavísur
## um árið 1811.

---

1. Sól um rennur austrið enn nú elfars tóma,
Kætast menn við lopt og ljóma,
Líkan hennar æsku blóma.
2. Ártal fundið átján hundruð inna letur
Tíð að skundar tólfta betur,
Tengð við undanfarna' í vetur.
3. Lofgjörð drottni þýð ei þrotni þúsundfalda,
Heims þó brotni hrofið kalda,
Og hafs að botni tæmist alda.
4. Árið þetta lítt nam ljetta liðna mæðum;
Ef uppspretta gafst af gæðum
Girnd að metta þjóð hagstæðum.
5. Óhöpp víða sterk og stríð þó stemmdu hana,
Skjóls og blíðu skepnur vana
Skæðum síðar drógu' að bana.
6. Árið nýtt var brögnum blítt á brún uppruna,
Sýndist þýtt að óskum una,
Eiga hlýtt við náttúruna.
7. Stóð ei lengi gæfu gengi garpa vorra:
Grimmt harðfengi þótti þorra,
Þjáði mengið hríðar dorra.
8. Hregg þá börðu haf og jörðu, hörkur píndu,
Beitar hjörðu baga sýndu,
Bæði vörð og hamsi týndu.

9. Elztu menn ei muna þenna mánuð strengri,
Hríðar sennu lotalengri,
Lífs- og enn nú -bjargar þrengri.
10. Hafíss renndi að herjans kvendi hálum jökli,
Svella venduð hún stóð hökli,
Hár ei kenndist, minnur ökkli.
11. Hjálpar önn var hartnær bönnuð hesta' og sauða.
Hörkur, fönn, og hríðir nauða
Hrundu mönnum og í dauða.
12. Skaphörð þótti skata dróttum skerjan Góa,
Dag og nótt með driftum snjóa,
Dáð og þrótti vön að sóa.
13. Einmánuður ófögnuði yfir hellti;
Storma suður ei þó elti,
Ísum hruðu landa belti.
14. Veturinn harði barlóm barði býsna stríðan,
Að páskum varði; sýndist síðan
Setja' að garði veðurblíðan.
15. Páska-hláka fje og fáka fögur saddi,
Lands um rákir laust af gaddi,
Lunda snáka foldar gladdi.
16. Ellefu daga auðnu hagur að oss hylltist,
Með sumar- fagri -sólu spilltist,
Sárum baga landið fylltist.
17. Björg nam linna úti og inni eptir vonum;
Hjeldust stinn með hölda sonum
Harðindin að sólstöðonum.

18. Stóðu' í nauðum naut og sauðir næstum víðast,
Hjálpar auða hungrið tíðast
Hor og dauði lyktar síðast.
19. Ýtt var nautum út til þrauta' á auða hnjóta;
Fjúk um brautir þó nam þjóta,
Þaktar lautir holta-móta.
20. Vorið harða virða skarða vann árferði:
Gagnið hjarða' af sinu-sverði
Sárlítt arð í búi gerði
21. Hefði snjór með hörku stór þá hulið grundu,
Er hríða órar hart á dundu,
Hjá oss tóra' ei skepnur mundu.
22. En tíðin hörð ei tók af jörðu til langframa,
Við þær hjörðu' í eymd og ama
Auðs hjá njörðum fóðurlama.
23. Eystra felldu ásauð heldur ullar geira;
Aðrir hjeldu fyrir því fleira,
Að föng til eldis höfðu meira.
24. Lömb um foldu ljetu hold og lífið síðast,
Ám ei toldi undir víða,
Eða þoldu bylji hríða.
25. Bati góður bætti þjóð það brast að vonum,
Fyrsta gróður fannst með honum,
Fæða lóð, og sólstöðonum.
26. Ornaði sólin Ísa-bólum il hagstæðum,
Vinda hjólin vörmu gæðum
Vegnan ólu' og ljettu mæðum.

27. Gráföl tún og grundir búning grænum
skreyttust,
Dags því brúna dögg um fleyttust,
Dáðir fúnu sáði veittust.
28. Mýrar, valda vorið kalda vann til hlítar,
Feldi' ofsjaldan fanna hvítar,
Frosti kvaldar vóru ónýtar.
29. Hafinn sláttur, mest sem mátti menn við
kepptust,
Heyja brátt við hirðing tepptust,
Hægðir þrátt á síðan slepptust.
30. Með hundadögum hófust slög af hafrigningum,
Landið mjög svo langt í kringum
Leiddi dróg af skúra hringum.
31. Á nótt og degi vals um vegi vatns ógrynni
Spillti heyjum úti' og inni,
Upp svo dregin, loks þó brynni.
32. Vatna þungi vætu drunga við nam krakka;
Elfur sprungu, yfir bakka
Aur og klungri hlóðu' í stakka.
33. Fjalla hrundu fast á grundu feikna skriður,
Hauðrið undir hristist viður,
Harmra drundu beltis kviður.
34. Strauma fylli fjalla' á milli fleytti heyi
Út til spillis ýmsa vegi
Áður í stilli niður slegið.
35. Straum beljandi' að storðar bandi stemmdi
kulið;

Flata landið lá þó dulið,
Leir og sandi djúpum hulið.

36. Verkin gleimdust, vonir eymdust, veiktist sinni;
Húsin streymdu, úti' og inni
Efni geymd í töpuninni.

37. Manna nýju minni í ei mun líkt þessu,
Egidíuss allt að messu
Angurs fríjað gat ei pressu.

38. Gafst þá fagur gæfu dagur, gleðjast skatnar,
Vinnu hagur við það batnar,
Vatns af aga mikið sjatnar.

39 Þar um fjalla steina stalla' ei steyptust skriður,
Og grasrót alla grófu niður
Grjót vatnsfalla leyr'gar yður.

40. Þá var heyið hirt, er legið hafði stráða,
Rakað og slegið, þjóðin þráða
Þerri fegin sætti bráða

41. Sagt er hingað, súld rigninga sama grandið
Hafi þvingað happa standið
Hartnær kringum Ísalandið.

42. Haust eitt bezta frekt nam fresta frosti' og snjónum;
Vatnshríð mest enn varð að tjónum;
Vetur ljezt og blíður sjónum.

43. Hann inngenginn fjarskafenginn fannst að regnúm,

Sem og lengi' af sudda megnum
Sígin þrengdust heyin gegnum.
44. Torfi knúin, bustum búin, bezt að unnin,
Ornuð, fúin, blaut og brunnin,
Birtast nú af vatni runnin.
45. Mánuð fyrstan brúnir bistar bærði' ei vetur;
Síðan hristi belginn betur,
Byggd um lysti hríðar tetur.
46. Hret og snjóar hjarðir dró til húsa skjóla;
Foldar hró í fannar kjóla
Fastan bjó og hörkur jóla
47. Fóður bresti fjár og hesta fast á hlóðu,
Hafnaði flest af haldi góðu,
Hungri lestir inni stóðu.
48. Jóla tíðir hreggs og hríða hryðjum fylltu,
Skip allvíða brutu' og biltu,
Bylji gríðar varla stilltu.
49. Víðar þröng í veðrum ströngum við haldandi
Urðu löngum útróandi
Afla föng á suðurlandi.
50. Er í sumar árferð gumum áls á setri
Sæl — óskrumað lýst í letri, —
Lögs í þumað krásir betri.
51. Afla' að vestan ei hið bezta yfirlátið,
Þó hafa flestir fyrðar kátir
Flutt á hestum þaðan átið.
52. Sumar að austan aflalaust með öllu talið,

Viðlíkt haustið, vætum alið,
Von og trausti' að miklu falið.
53. Norðanmegin Íslands eyjar orkar tjónum:
Þunds að mey á þilju ljónum
Þorskur eigi drógst úr sjónum.
54. Hrognkelsanna veiði vann ei vorið tæra;
Ísa hrannar úlpan glæra
Afla-bann það gjörði færa.
55. Aldan þrengdi ís og strengdi ákafasta,
Reiðar- sprengdi -fiska fasta
Fimm, og slengði lands til vasta.
56. Spiki flettu þrjá allþjettu' um þjóttu gyrði
Þjóð á Sljettu' og Þistilfirði,
Þar af mettir sagt er yrði.
57. Hinum lagði löðurs flagð að Langanesi;
Aldrei þagði vinds umvjesi
Vorið sagða', að kaldt ei bljesi.
58. Fjölda manna' í bjarga banni bót varð hressta.
Illviðranna megnið mesta
Meiða vann og drepa hesta.
59. Hvorki fóður fjekkst nje gróður fákum bleyttum.
Horuðum, móðum, svöngum, sveittum,
Sveif að óðum dauði þreyttum.
60. Heilsu kjörum, fylgi og fjöri' fólk rjeð sæta.
Heldri börva höggorms stræta
Hel eða kör ei [redacted] uppræta.

61. Sagt er það, að sýslumaður sje Guðmundur
Burtsofnaður — eðlis undur —
Auð-blómaður Pjeturs kundur.
62. Á Skotlandi æfi grand nam á burt kalla
Bjartan handar býtir mjalla.
Bjarkir standa' og síðan falla.
63. Hallgrím Bachmann hel og stakk, það hetju gildi,
Læknis þakka máttu mildi
Menn, og sakna, við þá skildi.
64. Æfi brestur eins þá beztu orðs- með -týri.
Einar prestur aldurs rýri
Eystra ljezt á Desjarmýri.
65. Skildist viður Gísli' í griðum geðs ráðvöndu
Biskups niður Ólafs öndu
Og embættið á Skagaströndu.
66. Lynges heyrist lát, með fleirum, lengi hraður
Akureyrar einn kaupmaður,
Ýmsum meira trygglundaður.
67. Presta árum eystra tára ekkjur sneyddust,
Hjeðan þrjár frá heimi leiddust,
Himnar klárir móti breiddust.
68. Guðrún ljezt og getin bezta gæfukyni,
Áður fest sem ektavini
Oddi presti biskups syni.
69. Syðra enn þó sveit um renni sótt allþjetta,
Enga menn samt æðri stjetta
Er úr henni dána' að frjetta.

70. Nokkrir að sönnu supu könnu sorgar trauða:
Áföll hrönnum ýmsra nauða
Orkuðu mönnum kvala' og dauða.
71. Gömlum, ungum, þóttu þungir þorra órar,
Hríða sprungu hryðjur stórar,
Í Hróarstungu drápu fjóra.
72. það má spjalla aumt, að allir els í hviðum
Heima' að kalla húsin viður
Hafi fallið dauðir niður.
73. Karlfugl deyði' á kyrkjuleið um kvöldið jóla,
Hríðar neyð því hepti' að róla
Hjörva meið til byggða skjóla.
74. Í Reykjadal er hermt um hal við hirðing sauða
Heima skal og hríðin nauða
Hafa kvalið eins til dauða.
75. Ofhugaður ungur maður einn nam hrapa,
Sýslun að í sjávar stapa,
Sæta skaða' og lifi tapa,
76. Frá Sigluvík, og sonur ríkis sæmdar manna.
Fleira' af slíku sagnir sanna
Safni líku slisfaranna.
77. Örlög þekkir enginn rekka' af auðnu spánni:
Beikir gekk úr búðar kránni,
Bana fjekk í Hofsóss ánni.
78. Hestur sló svo dreng hann dó þó dapurt yrði,
Áður sljó í Axarfirði
Ár fram dró með sjúkdóms byrði.
79. Misti önd á Upsaströndu auðar lína,

Naut með grönd sem náði pína,
Nægði' ei höndum vörn að sýna.
80. Dag og sólu feiknir fólu fjúka hlaða,
Ferða ról nam fyrða svaða,
Frusu' og kólu mjög til skaða.
81. Hjaltalín, í lofi skín sá lista maður,
Breiða- físni -bóls er staður
Bók-hagsýnum ákvarðaður.
82. Votta letur vígðum Pjetri vaxinn þellum
Aptur metinn Ás í Fellum
Orð fram setja' í helgi-pellum.
83. Svo og valdur sjera' Ingjaldur sóma snjöllum
Manns hins aldna meðþjön öllum
Messur halda skal á Völlum.
84. Mjer er ei ljett að mæla rjett um misgöng
presta,
Vígðra, settra, lífi lestra;
Ljósar frjettir þar um bresta.
85. Syðra flesta, færsta vestra, fáka öldu,
Eystra festa og svo töldu
Að þar sezta' úr hafi köldu.
86. Kaupför hingað kornhlaðninga keyrðu forða
Fjögur kringum frónið norðan,
Fátt varninga, klúta, borða.
87. Pappír enginn, lakk, eða lengjur ljerepts,
brýni,
Menn ei fengu messuvínið,
Mjöður, strengi, járn nje línið.

88. Svo var kljent um sakramentis sýslan víða
Vors almennt, þar við má kvíða,
Verði' ei hentra slíks að bíða.
89. Varan dýr, en vor allrír í verði' að mæta,
Fátt aðsnýr það björg má bæta,
Bölið knýr því hinni' að sæta.
90. Konsúl lengi Lundúns þengils lofi hresstur
Þykir mengi syðra' að seztur,
Sjer þar enginn heilla gestur.
91. Íslands farar eiga þar að æskja leiðar-
Brjefs, þá mari bylgju heiðar
Búa snarir heim- til -reiðar.
92. Kramara pyngju peninga dyngju passar ljetta,
Silfri ringu' ei selur þetta
Settur hingað arfi Breta.
93. Enskir Dani veikja, vana' og værðum sneiða,
Ræna svani rostungs heiða,
Ríki bana' og fjárhlut eyða.
94. Utanlands er stórum stans á stríðs umbrotum,
Fær þó vansa' af friðar þrotum
Fjöldi manns og gæða notum.
95. Danaveldis verð uppheldis vex allt hærra,
Nauðum seldur nær til færra,
Norveg geldur enn nú stærra.
96. Skortur regna vanþrif vegnan vann sáð-reitum,

Þaðan fregnað, þegar bleytum
Þjáðumst megnum hjer í sveitum.
97. Enskir dyggða trauðir og tryggda tóku' af
Dönum
Anholt byggða ey á svönum
Öldu, styggða jók það grönnum.
98. Danir í skyndi' á skjervöll hrinda Skott-
um svörðu;
En sjór og vindur sinni hörðu
Sóknir hindra þeirra gjörðu.
99. Styrjar el þar stofnað vel úr stykkjum
springur;
Knúðist helveg kappi slingur,
Ketill Melsteð Íslendingur,
100. Ofhugaður yfirmaður í eklu friðar.
Töpuðust aðrir tyrfings kliðar
Tveir á jaðri fyrirliðar.
101. Hinir flýðu' og flæktust víða' um flyðru reita,
Í stormi gríðar stöfnum beita,
Á stangli síðast heim þeir leita.
102. Frankaríkis finnst ei líki' að frægð og blóma,
Nöðru dýki, sigri, sóma,
Og sóknar ýki' í þrumu skjóma.
103. Siklings dýrð ei son við rírðist sama feldis,
Kostum hýrður kjör uppeldis,
Kóngur skírður rómaveldis.
104. Keisarinn blítt og kættur þýtt af kundi
rjóðum

Gulls útbýtti' og silfurs sjóðum,
Svo sem títt var herrum góðum.
105. Önnungs stjetta ánauð ljetti á alla kanta,
Af lýðnum setta leysti panta,
Ljet ei rjetta gæzku vanta.
106. Hrannar glóðum lofar ljóð að launa' alstaðar,
Óskum góðum öld ef laðar
Auðnu' og hróðurs samfagnaðar.
107. Sendu snarir siklingar á sjó og landi
Hofþjenara' af hæsta standi,
Heill keisarans samprísandi.
108. Um herfarir Frakka par ei frjettir greina;
Við Spánar hara áttu eina,
Enska þar og máttu reyna.
109. Málma gríðar marga hríð að Maðrít gjörðu;
Hinir stríði harðfengt vörðu,
Hrundu lýð á valþings jörðu.
110. Stykkjum þar til styrjaldar að stærri óku,
Harðlundaðir hernað jóku,
Höfuðstaðinn loks inntóku.
111. Styrjar hanzka og heklur kannske' á herðum brunnu.
Sigur Franskir enn nú unnu,
Enskir, Spanskir fjellu' og runnu.
112. Enskra svignar orka, tign og auðna bæði;
Skuldir stignar upp úr æði,
Öllu hnignar, þverra gæði.
113. Ísleifur getinn og fóetinn æ til dáða,

Jafnstór metorð jústizráða
Jöfur ljet þá hljóta báða.
114. Sómi Íslands sá ættkvíslir sjaldan kanna
Þriggja sýslu-merkis-manna,
Matinn rýsli lærdóms anna.
115. Titla nýja til að drýgja tign háleita
Kóngur fríja kjöri veita,
Kanselíeráð þeir heita.
116. Sækóngs heið í haust er leið ein hingað strýkur,
Englands skeið (ef sögn ei svíkur),
Að sækja skreið til Reykjavíkur.
117. Skreytta voðum, skreið úttroðna skrið-hvatasta
Kæfðu boðar Reykja-rastar,
Ráku gnoð á skerjum fasta.
118. Margt vill ama' og lukku lama landi Ísa,
Ei má framar undir rísa
Oki rama feigðar dýsa.
119. Himininn bæti hag, og kæti hreldar lundir!
Þenkjum ætið, þrauta stundir
Þegar græta', á sælli mundir!
120. Linna tárin, læknast sárin, ljettist pína,
Fagnaðar árin fram þá skína
Fögur og klár, sem aldrei dvína.
121. Iðjum þýðir, biðjum blíðir, bræður! hljóðir,
Þreyjum, líðum þolinmóðir,
Þreytum stríðið vonargóðir.

122. Engin hæla má nje mæla' og meta sönsum
Verðkaup, sælu sigurkrönsum
Sí-inndælum þegar glönsum.
123. Öðlist gæði öld hagstæð í öllum stjettum.
Lokið er kvæði' og líka frjettum.
Launið, bræður! kærleik rjettum.

# Tíðavísur
## um árið 1812.

1. Tíða skriði þótt ei þurði,
Þokar mund um stjörnu hvolf;
Eru liðin ár frá burði
Átján hrundruð — Krists — og tólf.
2. Æfi meðan má til vinnast
Mönnum ljenað renni-skeið,
Sorg og gleði samantvinnast,
Sæla kljen og margföld neyð.
3. Aumra hrynur tár af tári,
Teppt er braut, sú varnar pín;
Landið stynur ár frá ári
Undir þrautum barna sín.
4. Árið það, sem út er runnið,
Ofsa strangt að veðra hvin,
Hefur skaða vegnan vunnið
Víða langtum meira' enn hin.

5. Strax nýbyrjað storð ſklæddi
Stakki hríða klökuðum,
Frosthæg yrja fjúka bræddi,
Fraus á síðan jafnóðum.
6. Snjóa-mesti vetur víða
Var skammdegis undir sól;
Fje og hesta fólkið þýða
Fóðra' á heyi varð um jól.
7. Strokur sprungu, skyggðar skýjum,
Skíra veðrið ekki sá,
Þoku drunga niðum nýjum,
Neitt ei með til fróa brá.
8. Ókljúfandi fyrir fönnum
Fólkið skreið opt meir enn gekk,
Rjenaði' um landið reisu önnum,
Ratað leiðir ekki fjekk.
9. Fram að Góu miðri mundu
Megn aðþjetta harðindin;
Frost og sjóar fast á dundu,
Fannst ei ljettir nokkurt sinn.
10. Þá kom bloti, þott ei yrði
Þjóð til hlítar víða hvar,
Eða þrot á baga byrði,
Bjargar lítið eptir var.
11. Hauðrið flísað hálum klökum
Herti fjánum bana sting;
Grænlands ísa þykknm þökum
Þiljuð ránin allt um kring.

12. Halastjarna' á hausti' og vetri
Heiðum farfa' um loptið rann
Undan farna, Ísa-setri
Aptur hvarf, þá leið á hann.
13. Að hún muni — sem að sanna
Sumir—slæmra nokkurn veg
Olla hruni úrfellanna,
Aðrir dæmi heldur enn jeg.
14. Sjóndeildar þá sokkin hringum,
Svo við brá í landi hjer,
Storma fari' og stórrigningum
Stans varð á, en loptin ber.
15. Þurrðaði optar þoku dimmri,
Þegar leið á veturinn,
Heiðríkt lopt með hörku grimmri
Herti neyð og jarðbönnin.
16. Fanna' ógrynnis feld sambarðan
Fróns- og hrannar vor-sólin,
Þótt um rinni' í heiði harðan,
Heit ei vann á kulfenginn.
17. Þrauta hrelldist þjóð álögum,
Þar eð hlánað gat aldrei:
Margir hjeldu' úr merkidögum
Mundi skána', en það varð ei.
18. Vægð úr páskum veittist engi,
Viðraði líkt á sumar kalt;
Stóð í háska mestum mengi,
Mundi slíkt gjörfella allt.

19. Á nörður jaðri og austur undir
Ísa-klökum mest var láð,
Annarstaðar meira mundi
Mýkja jökul sólarbráð.
20. Þenktu tvistir þurða stríðu,
Þyngstu nauða bætast mein,
Er sumars fyrsta sól með blíðu
Sæ og hauður yfir skein.
21. Fáar tíðir við þó varði
Veður blíðan góð og hlý;
Feikna gríðar hamur harði
Hörku stríður reis á ný.
22. Almennt guma eyddi forða
Árferð dauðans þung og hörð,
Fram á sumar fyrir norðan
Fáka' og sauði skorti jörð.
23. Jörðin pressuð jökulbönnum
Jafnt um Sljettu' og Langanes
Allt á messur fram, og fönnum
Frosta grettur andi bljes.
24. Eins á Ströndum, og um Fjörðu
Austur þrýstu' að harðindin;
Lengi böndin heljar hörðu
Horaðan nýstu peninginn,
25. Um fardaga yfirlysti
Aptur hríðum, frosti, snjó,
Feikna baga fólkið gisti,
Fje enn víða niður sló.

26. Suður geima síðan vindar
Sunnu treystir vörmum yl
Yfir sveyma elju rindar,
Ísa leystu vetrar þil.
27. Ofsa flóðum upp þá hleypti,
Undir sljetta landið sökk,
Saurgar móður særinn gleypti,
Soltinn skvettu, galt ei þökk.
28. Frostin stemmdu heljar hörðu
Hafin flóð með strauma sköll,
Vunnu skemmdir votri jörðu;
Vetrar stóðu' í gaddi fjöll.
29. Ýmsir særa þrauta þyrnar,
þótti' æ lakar áhorfast:
Um fráfærur afrjettirnar
Undir klaka lágu fast.
30. Einkum fæddi af sjer baga,
Eyddi mætum gróðrar kost,
Sæl hvað bræddi sól um daga,
Sýldu nætur hörðu frost.
31. Íss ábreiðan yfir sjónum,
Engu stríði vinda ræk;
Fjöll og heiðar fyrir snjónum
fengust síðla grasatæk.
32. Ófögnuður af nam taka
Allt hið bezta þá í senn;
Fóru suður fjöll á klaka
Fiskilesta norðan-menn,

33, Keyrðu' úr hófi köst fardaga,
Kjör hin mestu auðnu banns;
Hríða kófið hundadaga
Hjer eitt vesta norðanlands.
34. Við hjálpar annir heptist öldin,
Hörkum þróað vinda skvak,
Gleyptu fannir grasa tjöldin,
Grimmdar snjóa niður rak.
35. Nokkrir fóru' af neyð úr tjöldum,
Náðu bæjum þeir um síð,
Aðrir vóru í þeim köldum,
Unz að lægja gjörði hríð.
36. Heiman reisa hörku kosti,
Hesta drifu' í brota önn;
Menn og hreysi' í mesta frosti
Mokuðu' og rifu upp úr fönn.
37. Alltaf viðra öllu hægra
Annarstaðar tíðin ljet;
Ekkert syðra, vestra vægra
Var til skaða þetta hret.
38. Eins og bar til í þeim flestu
Árum þröngu dýrtíðar,
Þingeyjar- og Múla- mestu
Mæta ströngu sýslurnar.
39. Veturinn, mest þó vorið kalda,
Víðast hvar um sveitir lands
Fjár og hesta felldi kvalda
Feikna skara búandans.

40. En það sauðfjár eptir hjarði
Ávöxt lengi rýran bar;
Unglömb dauðinn hitti harði,
Hjálp því engin nálæg var.
41. Graslaus storð í máta mestan,
Menn sem getað hafa spurt,
Eins fyrir norðan, austan, vestan,
Ollu hretin, frost og þurt.
42. Um miðsumar fjekkst ei fóður,
Fjenu traust er duga má,
Nýja brum, eða nokkur gróður
Norður- og austur-horni á.
43. Tíðin örðug tæmdi hrönnum
Tilföng megin þetta vor;
Í Austfjörðum og af mönnum
Eitthvað segist dautt úr hor.
44. Keyrir í dróma harðan hungur,
Herðir kvíða til að sjá;
Ströffunardómur þessi þungur
Þegar víðar dynur á.
45. Heyja fengur ljet í landi
Lítt með beimum fyrir því,
Töður engu tóku bandi
Tíndust heim að pokum í.
46. Á ýmsum stöðum, lýsa letur,
Langtum væri fallið skár,
Aflað töðu enn nú betur,
Allt því nær, sem meðal-ár,

47. Hefur syðra vor og vetur
Verið hryðju-minni, þar
Einnig viðrað öllu betur
Allt á liðið mitt-sumar.
48. Regnaföll þá steyptust stórum,
Strauma vöktu rennslin hörð;
Stundu fjöll af ægis órum,
Undan hröktu bleytta jörð.
49. Þaut af storði þoku svæla,
Þám óhreina' úr lopti dró;
Hjer fyrir norðan sumar sæla
Sönn fram skein með Ágústó.
50. Ljetti brimi, löðrið þrifnar,
Lands á hnykkir vinda skvak,
Sævar himin sundur rifnar,
Svo í stykkjum undan rak.
51. Skruggnr bresta' í skyjum lætur
Skjöldung alda hvellum dun,
Er oss mestu unnu bætur,
Einkum valda lopthreinsun.
52. Högum lóðar hægt nam breyta
Hafinn þeyr með sólar il;
Lifnaði gróður lands um reita
Líkur meir enn stóðu til.
53. Veðrafar þá stilltist stríða,
Stóran trega sem að jók;
Úthagar og engið víða
Æskilega við sjer tók.

54. Hægðu skammvinnt heilla tíðir,
Heyja iðjur tepptu' á ný;
Otuðu fram sjer frost og hríðir
Frekt í miðjum Septembrí.
55. Haustið ljet óhýru brýrnar
Hanga síðar þeigi spart,
Frá því hreti fólu kýrnar
Fjósin víða mikinn part.
56. Úr jafndægrum veik til vinda
Veður þó, og frosti brá;
því varð hægra' að þurka' og binda,
það er snjónum undir lá.
57. Sælulítið sumar varði
Síðan regn og krapar út.
Veturinn hvítur gekk að garði,
Gyrtur megnum fanna strút.
58. Einkum þó, hvað aldur skapar
Eptir vana beitar-hjörð,
Ýmist snjófall eða krapar
Áfreðanum steyptu jörð.
59. Svo að kreppti mjög til meina,
Mest af klaka, ljóns um höf,
Að viku eptir vetrar eina
Varð að taka hross á gjöf.
60. Bar að sólir betri tíða,
Batna' og hlána þjóðin fann,
Undir jólaföstu fríða
Fór að skána veðráttan,

61. Fjær þá rýma fjúk og þoka,
Fjár og hesta bætti vörð;
Úr þeim tíma árs til loka
Allra bezta tíð og jörð.
62. Ýmiss kafli' af eyja bandi
Aðföng ljenað hefir skár:
Sjáfar afla' á suðurlandi
Segist gefið meðal-ár.
63. Títt sem áður tíma flestan
Talað er hingað næstliðinn
Afla bráðir og að vestan,
Allt í kringum Jökulinn.
64. Fregnir tína í skrifi' og skrafi,
Skreytni grandar sannindum,
Að marsvína hundrað hafi
Hörfað á land í Njarðvíkum.
65. Happ það veitir hagnað beztan,
Hýrir mengi vel um stund;
Í Eyrarsveit er innt að vestan
Af þeim fengin tvö þúsund.
66. Í Austfjörðum árferð stríða
Enn þótt guma ljeki hart,
Og eyddi hjörðum, er þar víða
Orðið í sumar fiskivart.
67. Allt frá tanga á Hornströndum
Yzta bæði' í vor og haust
Norður á Langanes með söndum
Næstum gæða' og fiskilaust.

68. Ofan á hæpið ár til bjarga
Er og víða' um landið sagt,
Heilsan tæpa hafi marga
Hörðu stríði' í rekkju lagt.
69. Veikindin til sjós og sveita
Sárt út mengi víða ljek,
Svo atvinnu sjer að leita
Síðar lengi bar ei þrek,
70. Sjúkdóms nauða sukku' í öldum,
Sveimuðu næstir við andköf;
Fáir dauðans faðmi köldum
Fast þó læstir byggðu gröf.
71. Lands um áttir sögnum sönnum,
Sem að bera tíma-skrár,
Harla fátt af heldri mönnum
Heyrist vera dautt í ár,
72. Ísafoldar yfirmaður
Æðstur, hafinn sællri von,
Hneig til moldar háaldraður,
Herra' Ólafur Steffánsson.
73. Lengi kættur byr og blóma,
Bezt og stærst er hafði gist,
Amts embættis sat með sóma,
Svo það færstum heppnaðist.
74. Innlendan, að allar hlýði
Aðrar stjettir, hver sem er,
Stiptamtmann að stjórna lýði
Stillir setti fyrstan hjer.

75. Hans gjafmildi, hógvært sinni,
Höfðings geð og lyndið tryggt
Lýðum skyldi lengst í minni,
Landið meðan vort er byggt.
76. Dygða glöðu' og vísdóms vinir,
Við sem klökkna líkför hans,
Bezta föðurs beztu synir
Bæta' oss söknuð höfðingjans.
77. Hæfan líki herrans fróma
Heiður að gröf, og annað meir,
Allt með ríkis afbragðs sóma
Og stór-gjöfum prýddu þeir.
78. Einhvern bezta' að sýna sálum
Sanna veginn farsældar,
Eirík prestinn að Útskálum
Andaðan segja frjettirnar.
79. Dauðinn kostum lífsins lúinn
Leiddi' í beztan alfagnað
Sjera þorstein sæmdum búinn,
Síðast prest að Skinnastað.
80. Gamall, hresstur lýða lofi,
Lífs er þreyði betra von,
Eystra prestur og að Hofi,
Einar deyði Steffánsson.
81. Himin- þreyði heimför ríka,
Heilsu rýra lengi bar,
Ólöf deyði öldruð líka,
Ekkja sjera Tómasar,

82. Heims frá nauðum, hörmung stuttri,
Heyrist víða sann-fregnað,
Bráður dauði fólkið flutti
Í fagnaðar þýðan sælu stað.
83. Fregn barst hingað óhult eigi,
Að því brestur sannleiks skil,
Uppstigningar allnær degi
Óhapp vestra fallið til.
84. Kringum Jökul storma steypti
Stýris jórum harður dans,
Áls um hökul aldan gleypti
Átta' og fjóra tugi manns.
85. Úr Skagafirði er skrafað fjelli
Skikkju eyr með lítinn þys,
Og biltan yrði' að bana' á svelli;
Biðu fleiri voða slis.
86. Ungur hvarf í Eyjafirði,
Elfar trauðu rann um þök,
Meint er djarfa mannsins yrði
Í myrkri' að dauða opin vök.
87. Gamal-kvendi, lífs af lúa
Löngum veikir kraptar því,
Bana sendi brunnur kúa
Bráðan Reykjahverfi í.
88. Lögð þó bláum ísum yrði,
Ei að vonum frosin traust,
Varð Hofsá í Vopnafirði
Vinnukonu' að bana' í haust.

89. Elfar hökuls ótryggð blekkti,
Athuga-ringum daga sleit:
Eystri Jökulsáin drekkti
Umrenningi í þeirri sveit.
90. Hefði' ei sjera hjálpað Jóni,
Og hans án dvalar þjón úr bætt,
Í vötnum- Hjeraðs við líftjóni
Varð Goðdala presti hætt.
91. Framar brestur fregn ótrauða
Fram að bera' um álfur lands:
Vígslur presta og veiting brauða,
Verðar hjer á nokkur stans.
92. Niflung hefur náðugasti,
Næta heitt sem fyr um bað,
Sjera Scheving samt prófasti
Sjálfur veittan Grenjastað.
93. Hannes dýrum horfinn ranni,
Heillum skaptur alfarinn,
Gunnari síra, gömlum manni,
Gáfu þeir aptur Laufásinn.
94. Öfrings brjefa eptir vjesið,
Um sem gekk að tilhlutan,
Sjera Steffán Sandanesið
Síðast fjekk þar kapellan.
95. Einnig heyrist hafi fallið
Heilsu-rýrum, annars vel,
Í vor Hvanneyrar ves'la kallið
Vígðum síra Gamalíel.

96. Að Útskálum settu síra
Sæmund aptur fyrir prest;
Helgi-málum hann skal stýra,
Himin-krapti gæddur bezt.
97. Ungum merkis-Árna syni
Er Steffáni tileinkað
Messuverk, af kosta kyni,
Kapellán að Valþjófstað.
98. Annar vestra auðnu gæddur
Og ekru svana fögrum glæ
Er Jón presta-kápu klæddur
Kapellan að Miklabæ.
99. Það er skrafað, íllt þó yrði
Auði vunnið bana sár,
Að Flensborg hafi' í Hafnarfirði
Heila brunnið nú í ár.
100. Á Möðrudal í húsi hlýju
Holur og stafna byrgði drótt,
Af búsmala' um áttatíu
Inni kafna varð um nótt.
101. Í borg inn setta beitar-hraður —
Belgdi kári ginið ríkt, —
Austur á Sljettu missti maður
Að mestu fjár-eign sína líkt.
102. Thorlacíus silgdi hjeðan
Sýslumaður, og enginn hrín;
Stað hans í skal stjórna' á meðan
Stórættaður Vídalín.

103. Ýmsum lýsir auðnu-dagur
Að ákvarðan himinsins:
það má prisa' að hefjist hagur
Hafnarfjarðar kaupmannsins.
104. Bjarni Sigurðsson nam þyggja
Sín fyrir manndóms verkin hnoss:
Riddaraliga tign af tiggja,
Til með Dannebrogar kross.
105. Landfóeta leiðar hjeðan
Leyfir Fryðensbergi grið;
Sigurði metur sætið tjeða
Sjóli þýður Bjarnar nið.
106. Enn útlenzka, ei jafnstóra, —
Efni mundu fylgja rík, —
Danska' og Enska drafnar jóra
Dreif á sundi' í Reykjavík.
107. Kaupa stands í sumar síðla
Sveit á neglu fylltum már
Hjer á landsins höfnum víða
Hefluðu segl, við urga rár.
108. Á kaupförum frá útlöndum
Fengum vjer nú bæði rírt
Af matvörum oss til-sendum,
Og svo hjer til fjarska dýrt.
109. Marga vega álfar axa
Ísland pína, fyrir því
Ógnarlega vörur vaxa
Verði sínu hjá þeim í.

110. Þyngir hrönnum þessu landi,
Þokar flest til hnignunar;
Allt er mönnum ókaupandi,
Einkum mestu nauðsynjar.

111. Þar af rís hinn þyngsti tregi,
Þetta' er illa misbrúkað;
Slíkir prísar ættu eigi
Okkar á milli hafa stað.

112. Sumir úr máta pína' og plægja
Pressa' út blóð og mergjar saft;
Hinir gráta, hrína' og æja,
Horfnir móð og öllum krapt.

113. Auminginn ef eitthvað segir
Ofhækkað í kaupunum,
Fýldur hinn þá svar til sveigir:
Svona' er það í kaupstaðnum!

114. Allt er á hlaupum, engir bræður,
Ekki finnur regla stað;
Sölum og kaupum soltin ræður
Sjerplægnin, og vænt er það!!!

115. Hamaðist dröfn í ströngu striti
Storma, liðnu hausti á,
Að skip af höfnum skjótt upp sliti,
Og sköflum gliðna nærri lá.

116. Kast- flug -vindar kyrrðir skerða
Kneri mundu' á Skagaströnd,
Of stórlyndir að svo herða,
Akkjers sundur hrukku bönd.

117. Hýddu skatna' á hafið auða
Háreist boðum þegar í svip,
Að lífsbjörg, vatni' og ljósi snauða;
Lukkan stoði menn og skip!
118. Enn tilfellur efni nauða,
Örlög þjett og töpun seims;
Blóðs úthelling, bál og dauða
Bera' oss frjettir Norðurheims.
119. Dýrri tíð enn Danskir mæta,
Dapurt reyna sorgar spil,
Þó ei stríðum þyngstu sæta,
Þegar seinast frjettist til
120. Hafna Svíar haldi tryggða,
Hatri snúa' að Frönskum lýð,
Enn að nýju daufir dyggða.
Danmörk búa' á hendur stríð.
121. Enskir og Franskir ekki dofna,
Unda gríðar hefja rót:
Uppreist Spanska öldin stofnar
Enn þeim síðar töldu mót.
122. Hóta settir hæstu prýði,
Hermanns grúa' og nægtum seims
Nú og Bretum nýju stríði
Norðurbúar Vesturheims.
123. Rússar frið við Enska efna,
Ekki líða Franskir það,
Af því liði að þeim stefna,
Æfa stríð og herbúnað.

124. Rússaveldi ryðst í gegnum
Reyfað brynjum Frakka lið,
Skot-flug-eldi með svo megnum,
Mundu' ei hinir standast við.

125. Frakka hrakar frægða kenndu
Frekum dyn á storði kífs;
Rússar akra brældu' og brenndu,
Brást því hinum forði lífs.

126. Við Moskau báðir fund alfestu,
Freista lukku styrjaldar,
Orustu háðu allra mestu;
Undan hrukku Franskir þar.

127. Rússar flóttann ráku stríðir,
Ræntu fjöri hvörn sem ná;
Vesöld, ótti' og vetrar hríðir
Vurðu kjörin Frakka þá.

128. Hörkur vel ei þeirra þoldi
Þunnhjúpaða Valska lið,
Frosið í hel á hestum toldi,
Hungri svaðað skildist við.

129. Neyddist snart að hopa' á hæli,
Heimur er áður skelfast vann,
Bónaparte sigursæli,
Svo forsmáði lánið hann.

130. Getið er vilji' gæddur hrósi
Gylfi, hnjóð er mætti þar,
Orustu bylja eldar gjósi
Yfir þjóðir rússiskar,

131. Blóðs í nakin elfum yðar
Öldin skapta láðs og geims.
Ó að vakin ósk til friðar
Yrði' í krapti Norðurheims!

131. Ó að vildi íllsku banna
Ofsann stríða' í brjósti manns
Hæstur milding herskaranna,
En hjarta prýða kærleikans!

133. Góða kveð jeg ástmenn alla,
Æðstu náið heill og snill!
Leirburð tjeðan læt svo falla;
Lasta má hann hver, sem vill.



# Tíðavísur
## um árið 1813.

1. Dagveltinga dulið hjól
Drifið grefur árum spor.
Enn nú hring um sína sól
Svifað hefur jörðin vor.

2. Öndvert settir ýmsa leið
Ótal heima' á sínum stað
Leiptraðir hnettir líða skeið,
Líkt [redacted] þeim var ákvarðað.

3. Þessi merki þúsund-kyns,
Þá að gætt er stjörnu krans,

Geisla' á verkum guðdómsins,
Gæzka', almætti' og spekin hans.

4. Skynsemd hreina skortir á,
Að skoða himinljósa gjörð,
Sjónar steina sendum þá,
Sig um skima' á vorri jörð.

5. Vottar sannleik þenna þeim:
(Þar um dæma greindur kann)
Heiminum mann, og manni heim
Mjög samkvæman skapti hann.

6. Skaparans mild var skikkun það,
Skaptra kring hann inndælið
Streyma skyldi öndu að
Um skilningar-vita hlið.

7. Náttúru gæða not hagfelld
Nær alstaðar manni' í vil
Skyldu glæða elsku eld
Ófölskvaðan drottins til.

8. Hversu björt og happi glæst
Herrans blíðu sólin skín!
Á augu' og hjörtu aptur læst,
Eys þó víða geislum sín.

9. Sælli kjörin þjóðir þrá,
Þau tilsendu virða fis,
Sem hjarta' og vörum ættu á
Offur tendra þakklætis.

10. Telur uppfundin tíma-skrá
Til samans [redacted] nýárs bil

Átján hundruð — fæðing frá
Frelsarans — og þrettán til.

11. Næsta ár, sem nú af leið,
Norðurlandi' og víða hvar
Ljet þó skár og ljetti neyð,
Leyfði kransa frjófgunar.

12. það nýrunnið þýddi fönn
þorra dægur fram á mið;
Flóðs að unni fleytti hrönn
Flugi hægu þeyvindið.

13. Veltist síðan veðra hjól
Vetrar hríða frekra til,
Unz hin blíða sumar-sól
Sínum þýða kætti il.

14. Langafastan læsti jörð
Lögum fanna, svellum, og
Frón sem rastir heldur hörð
Hríðviðranna skóku' umflog.

15. Stopult varði storma hlje,
Stærrði kvíða fjölmennan;
Skorti jarðir fáka' og fje
Frekt allvíða tíma þann.

16. Sumar upprann og sælu bar
Sannra gæða landsins hjörð;
Svæfils nanna svasuðar
Svella klæðum fletti jörð.

17. Vorið öldum vonar blítt
Vörmum hlíta sýndist il,

Varð af köldum veðrum strítt,
Víðar Hvítasunnu til.

18. Hafbrim-skvaldurs hörku blak
Hamra gliðnað stöpum frá,
Hafíss- aldrei hingað rak
-Hellur, liðnum vetri á.

19. Sumarið mest-allt síðan heitt
Sýndi tryggðir högum manns.
Grasár bezta eitthvert eitt
Yfir byggðir þessa lands.

20. Súldrigningar sízt til meins
Settu trega vaskri þjóð;
Heynýting varð oss því eins
Æskilega notagóð.

21. Himin-glóðin hita-jöfn,
Hauðurs gróður, með samtök,
Heyja þjöðum sjeleg söfn
Saman hlóðust undir þök.

22. Allvel hjer oss lukkan ljet
Liðnar tíðir. Værð af dró,
September þá sendi hret,
Súld, vatnshríðir, frost og snjó.

23. Þetta mengi þótti strangt,
Þurrð á næði megn um sinn;
Varð ei fengist vikulangt
Við bjargræði' og heyskapinn.

24. Rann upp sunnan hláka hlý,
Hlynnti bráðum veðrafar;

Hirða kunnum nú á ný,
Næst það áður slegið var.
25. Haustið mátti heita gott,
þó hepti kostum annað slag:
Ýmist þrátt gekk þurt eða vott,
þýða' og frost nær sama dag.
26. Vætu drunga skyggðu ský,
Skemmdu fróns og hrannar gögn
Landsfjórðungum öðrum í,
Efni tjóns, að manna sögn.
27. Bráða stemmdir brunnar tveir,
Braut harðinda lögð er ný;
Fyrir skemmdir þessar þeir
þjóðum hrinda dauðann í.
28. Rís æ bylgja stór í stað
Stapann hinnar við, er brast;
þannig fylgist allmargt að
Íslands tvinna þrautir fast.
29. Síga' á dægur sumars tók,
Sízt með styggðum kvaddi það.
Veturinn hægum vagni ók,
Vorum byggðum síðan að.
30. Hann að seztur vals um veg,
Vatns og krapa felldi tár;
Fjár og hesta fjarskaleg
Fóður-tapan varð nú sár.
31. Síðan huldi frosin fönn
Foldar bláan klaka hjúp;

Hófur muldi' ei hann nje tönn,
Hún var þá og líka djúp.

32. Sumstaðar gekk sælli tíð,
Sullur minni, betra' á jörð,
Lá ei þar, þó lysti' á hríð.
Löngum inni beitar-hjörð.

33. Jólafastan jafnframt öll
Jarðlaus, dimm af þoku, snjó;
Hríða-vasturs hörð áföll,
Hörkur grimmar aldrei þó.

34. Betur viðrað, tjáir tal,
Tís ei kvendi jökull fól,
Veturinn syðra' og vestra skal
Vægri sendur allt á jól.

35. Þótti mengi þetta ár,
það sem var og eikur grand,
Afla fengur ofur smár
Alstaðar í kringum land.

36. Bana-stingur Íslands er
Ofan á stranga vetrarfar,
það í kring ef firrast fer
Fiskigangan alstaðar.

37. Lífs fjársjóðu landsins drótt
Ljet hjer talda þessa mest:
Fjár ágóða' og fiski-gnótt,
Fóður alda sonum bezt.

38. Ei til hlítar bættist byr
Bænda hjer og sældar stands.

Aflalítið enn sem fyr
Í útverum norðurlands.

39. Von er unnum vanist bú,
Vant sje mals, og þjóðin tvist;
Sjö eru runnin sumur nú,
Síðan talsvert fiskaðist.

40. En þótt grunnungs yfir beð
Íss ei hvíta sæist par,
Grásleppunnar gengd var með
Gæftum lítil, víða hvar.

41. Í Norðfirði, inna skrár,
Eystra rostungs framan af dal
Þetta stirða afla ár
Upp hafi lostið reiðarhval.

42. Á firði Breiða' af frjófgum hlje,
Fregn um skundar manna tals,
Í haust er leið marsvína sje
Seytján hundruð rekin alls.

43. Auðna' og dugur einum vex
Öðrum meira til að sjá;
Fjórða tugar segjast sex
Sand Þingeyra rekin á.

54. Þó ei hröktu sjúkdóms sár
Sveit í grafar þró á kaf,
Nafns auðþekktir nú i ár
Nokkrir hafa stígið af.

45. Landa vorra lögkænn hjer
Látinn núna, sem menn tjá,

Sigurður Snorra sonur er,
Sýslu Húnvetninga frá.
46. Andaðan spyr og öldin hresst
Ólaf traustan Brynjólfs kund,
Handlæknir sem hægði bezt
Heilsu Austfirðinga' um stund.
47. Enn prestmaður ungur frá
Er Þorgrímur talinn mjeg,
Kolfreyjustaðar söfnuð' sá'
Sýndi' um tíma lífsins veg.
48. Guðrún Steffánsdóttir deyð
Dyggðauðuga hreppti klár;
Ekkja hefur þegar þreyð
Þriðja tugar níu ár.
49. Mjúklynd kona messu-þjóns,
Menn er dáðust fróðleik að,
Egilssonar sjera Jóns,
Sá hjelt áður Laufásstað.
50. Æruborin, afbragðs skýr,
Eymslum gróin nauða stings,
Sigríður Þorláksdóttir dýr
Deyði prófasts Vaðlaþings,
51. Dapur kalla dauði vann
Dáðan tryggðum herrans þjón,
Eyjafjalla Holtið hann
Heilnæmt byggði, sjera Jón.
52. Eru misjöfn auðnu kjör,
Eldum tindra sorgar ský;

Sumra slísin særa fjör,
Svo og hrinda dauðann í.
53. Í logni hvítu' á laxa reit
Lopthverfinga slepptu gát,
Fleyji ýta' á fiskileit
Flateyingar þrír á bát.
54. Buldi stór um bylgju skíð,
Bilti' óstillt með heiptar skap
Vonzku sjór og vestanhríð,
Villti, fyllti' og seinast drap.
55. Hríð þá dimmri hart til meins
Hast á laust um karfa slóð,
Og hörku grimmri undir eins
Ægir brauzt í jötunmóð.
56. Á þessum degi þegn og sprund
Þágu deyð í söltum hil,
Er Flateyjar yfir sund
Áttu leið, af sama byl.
57. Fleiri þágu áföll enn
Elti af leiðum bylurinn:
Í honum lágu úti menn,
Einnin deyði bóndi' í Kinn.
58. Maður einsamall mæddur snjó,
Megnið af og heilsan skerð
Áður, gamall úti dó
Í Ljósavatnsskarði' á ferð.
59. Lífi' og heppni manns til meins
Margt kann verða fyr og síð,

Höfuðskepnur allar eins
Ef þær herða' á kapp og stríð.
60. Bær einn allur brann, og þá
Börn tvö dóu', alkristin gjörð,
Möðruvalla sóknar sá
Sagður, þó ei klausturjörð.
61. Eigur steyptust ekkjumanns,
Annað sinn ný felldi tár,
Bálið gleypti búslóð hans
Í bænum inni', og kýrnar þrjár.
62. Brann og ofan brauzt með þröng —
Bjargráðum hitt varið skal —
Eins baðstofa, eldhús, göng,
Á Ingvörum í Svarfaðsdal.
63. Sels- á Sljettu -veiðar við
Vóru menn í Hraunhöfn tveir,
Bylurinn setti byttu' á hlið,
Báðir enn svo týndust þeir.
64. Angurs dimma' í augum vex,
Ekkjur þreyðu hrelldar pín,
Einn frá fimm, en annar sex
Ungum deyði börnum sín.
65. Viku skeiði einu á —
Æfi þreskja nauðir blæ —
Í Skaga- deyðu -firði frá
Fimm manneskjur sama bæ.
66. Pjeturs niður Pjetur frá
Pörum skara lífsins dró,

Hanzka smiður, áður á
Ásmundar- er -stöðum bjó.
67. Hökla stýrir horfinn þraut
Á Holti spurðist vorðinn lík;
Bráðla síra — brauðið hlaut —
Brynjólfur úr Reykjavík.
68. Bók-víðlesinn bezt forsjáll,
Blíðri lengi fræðing að,
Á Reykjanesi rektor Páll
Rómast fengið hafi Stað.
69. Ljóss ei kárnar vissust von:
Virta sannan kennimann,
Herra Árna Helgason,
Hálærðan fjekk dómkyrkjan.
70. Loks er seztur, líkt sem bað, —
Letur banga' í heyrnar þró —
Baldvin prestur Upsum að,
Eptir langa mæðu þó.
71. Kóngur hefur Kastenskjöld
Kjörið Íslands stiptamtmann;
Tignar gefur titla fjöld
Til að fýsa' á dugnað hann:
72. Fyrir dáð, sem tiggja tjer,
Trúr án efa boðum hans
Konferenzráð nú orðinn er
Amtmaður Steffán norðanlands.
73. Danmörk í um stökkuls stekk
Stefndi knár með börn og frú

Thorlacíus fyr og fjekk
Af fylki Árnes sýslu nú.

74. Múla sýslu suðurþing
Segir mengi Staðfeld ljeð,
Að ættkvísl við íslending,
Alinn lengi dönskum með.

75. Kóföð hraður keyrði fans
Kaups- um djúp til -hafnar mynns.
Sýslu' i staðinn hefur hans
Halldór, stjúpson byskupsins.

76. Allra handa einkar merk,
Oss nam raunin fræða' um það,
Herrar landa heiðursverk
hafa launum kórónað.

77. Forn eru sporin nóg og ný
Nær að slíku töld og skráð,
Kóngar vorir kepptu í því
Kærleiksríka' að sýna dáð.

78. Stjórnar slaðurs flenntist flón
Fljótt um storð, hann Jörgen ör.
Sýslumaður syðra Jón
Seggnum þorði' að hóta dör.

79. Manndóms verk gaf fyrir framt
Fylkir snjall, af voðum pells
Klæði merk og sýslu' ásamt
Sókn yfir alla Skaptafells.

80. Kornleysinga kaupför nú
Um karfa ver af ýmsu þung

Tíndust hingað tvö eða þrjú
Tals í hverjum landsfjórðung.
81. Ekki rísa undir má,
Engin vinna tilendist,
Geypi-prísum öllu á,
Átján sinnum hærra enn fyrst.
82. Aflabrestur alstaðar,
Íslands skerða vesalt táp
Heltök verstu höndlunar,
Hörð árferð, og skepnu dráp.
83. Hepti lengur heill, sem gaf
Hauður, unn og veðra fjöld;
Þessi strengur þáttum af
Þremur spunninn, sálgar öld.
84. Lýðir skrafa liðið vor —
Lífs að dunar þrauta stand —
Að nokkrir hafi nú úr hor
Niður hrunið kringum land.
85, Að hefur svorfið áður flest
Eymdum þunga tímabil;
Enn nú horfir miklu mest
Mönnum hungurs dauða til.
86. Kaupskip brast á köldum hlje,
Kornhlaðninga sölu rík,
Harðfengast því heyrist sje
Hungur kringum Reykjavík.
87. Tugthúss hyski' á sveitir sín
Sópuðu fimmta nóvember;

Þeir ágezka í þess'ri pín
Þar af skrimta muni ver.
88. Skóli færir naumast nafn
Neytt til þess í landi hjer:
Fimmtán lærisveina safn
Suður á Bessastöðum er.
89. Eykur skaða eitt fyrir sig
Illt sem fylgir dýrri tíð:
Öld þjófnaðar ákafleg,
Er sú bylgja þegar stríð.
90. Í grimmdar æði þrífa því
Þjófa hendur skepnurnar,
Húsum bæði, högum í
Heima' og lendum afrjettar.
91. Dóma þrumur skýra skil
Skálka kyni refsingar:
Róma suma tugthúss til,
Taki' út hinir flengingar.
92. Austfirðingar erkiþjóf,
Eptir kviðu dauðans þó,
Utan þinga, prjál og próf
Prestlaust niður hleyptu' á sjó.
93. Skamma veldur skarinn að
Skærust hefur dyggð ei frið;
Himineldum hertygjað
Hefnda krefur rjettlætið.
94. Uppboð dunka ákaft ný,
Út og suður hamri börð,

Klausturs Munkaþverár því
Þeir uppbuðu hverja jörð.
95. Peninga varð ei parið hlíft
Pyngju blaða-fullri neins.
Buðu í jarðir rekkar ríft
Reynistaðar klausturs eins.
96. Grímsey hóli fallin frá,
Fyrrum meir er hrósa rjeð,
Kom boðstóla einnig á
Umboðs fleiri jörðum með.
97. Seint kaupför með tygi traust
Tvö um bólmar linda slík
Stefndu ör að storð í haust
Á Stykkishólmi' og Ólafsvík.
98. Svo nam krækja' um sama bil
Syðra skeið frá Lundún inn,
Átti að sækja Íslands til,
Ærna skreið og Konsúlinn.
99. Hennar bulli frjetta frá
Frakka, Svía' og Dana styr
Trúa' að fullu ekki á;
Opt þeir lygi kveiktu fyr.
100. Sígur að flestu doða dúr,
Durtur stjankar maura hver;
Ganga' að mestu gildi úr,
Góðu bankoseðlarnir.
101. Fyrst þá hlaupa fóru með
Föstum prís, sem væri gull,

Mót þeim kaupmenn felldu fjeð,
Fiskinn, lýsi, tólg og ull.
102. Búðarkrapti svipti senn
Sár úr máta hrekkvísin,
Þegar aptur þurftu menn
Þá að láta' í kaupstaðinn.
103. Hóls af rokum háleitir
Hjer innskriðu' í allar krár,
Urðu loks þó ónýtir,
Eptir liðug þrjátygi' ár.
104. Nefnd hjer milding setti' um sinn,
Sú skal meta' í landi visst
Þeirra gildi út og inn,
Unz að betri myntin flyzt.
105. Stiptamts svarni vörður vor
Vel það skoði', og jústizráð
Ísleifur, Bjarni assessor,
Árni', er boð fær tiggja skráð.
106. Riddari Bjarni Sigurðsson,
Sitja skyldi dóminn með;
Þess á hjarni verður von,
Vjer höfum gildan ekki sjeð.
107. Haldi fróðir þar um þing,
Þess'ra blaða umhlaups skeið
Íslandsþjóð hvort uppbygging,
Eða skaða' af slíku beið.
108. Deyr misþanki, dirfist trú,
Dýrra kemur myntar-val:

Ríks- er -bánki reistur nú,
Rækur sem ei verða skal.

109. Kaups og sala fjölbreytt fá
Föng og skyldur, hve sem vex,
Ríksbánkdalur ytra á
Einn að gilda hina sex.

110. Til að sefa þraut, sem þjett
þrykkir oss af slíku ný,
Kóngur hefur sjálfur sett
Sínar hnossir bánkann í.

111. Skjöldungs höll, er geisla gaf,
Gildi fullu sólar reift,
Borð með öllum búning af
Bezta gulli fyrrum steypt.

112. þangað færa' af gulli ger
Gylfi meira lætur snar
Tevatns skær og kaffi ker,
Krónu fleiri gersemar.

113. Siklings kæti sú er ein —
Sólbjart það af verkum skín —
Ef hann bæta mætti mein,
Mjúkt sem faðir barna sín.

114. Ýmiss háttar illska manns
Auðnukárn í hala dró.
Enn herskátt er utanlands,
Eldur og járn á lopti nóg.

115. Flestu kosta frjófgunar,
Fold algróin viður önd;

Mesti frosta vetur var
Víða þó um Norðurlönd.

116. Sumar á storð og söltum geim
Sólarvega næst afþreytt,
Allan Norður- yfir -heim
Æskilega gott og heitt.

117. Ofurhægur andi bljes
Yggs að kvendi straumfylginn,
Full ánægur fákum hljes
Fám útlendra hingað inn.

118. Franskir og Rússar freka stríð,
Frón um brunar sveitin hörð,
Saman pússa landsins lýð,
Lúðrar duna, en skelfur jörð.

119. Orð ljek manna yzt á því,
Odda hret þess meir er þreytt;
Skoteldanna skruggum í
Skal hafa betur Frönskum veitt.

120. Rússar digrir rauðan brand
Reiðir skóku' á Frönskum hart,
Þöndu sig um Þýzkaland,
Þess inntóku nokkurn part.

121. Járni' og eldi sviptist seim
Særð og brend hin ólma þjóð;
Í Rússaveldi rekst nú heim
Raunakennd af þýzkri lóð.

122. Rússland fyrstri rómu í,
Rýrt þá sigri hrósa vann,

Heima misstan hjeldu því
Hinna vigri keisarann.

123. Ekki dvelja þeir við það,
Þótti nauðsyn kalla bráð,
Annan velja í hans stað,
Æðsta hauðurs stjórnarráð.

124. Rjett þá mengi ráðið spyr
Ríkis þar um afdrifin,
Vissi enginn fyrða fyr,
En fylkir snar er heimkominn.

125. Önd ef týndi' í odda þrá,
Út þá hraður drægi' um frón,
Drottning krýnda setti sá
Sinn í stað á Frakka trón.

126. Frakka' og Enskra fjandskap enn
Fornan vara, greina skrár,
Þó Bretlendskra sigurs senn
Sízt herfara' er minnst í ár.

127. Rússar Franska rífast við,
Rekast horskir til og frá.
Svenskir Danska svipta frið,
Sveitir norskar líka slá.

128. Orustu flani orkar þrá
Illska Svenskra' á láði' og geim,
Undan Danmörk Norveg ná
Nú skulu' Enskir hjálpa þeim.

129. Illu flestu orka stríð,
Eyða forða' um lönd og haf,

Danmörk mestu dýru tíð;
Deyja Norðmenn hungri af.
130. Ófriðs verst þá yfirtók
Illvíg snara Danskri þjóð;
Bankans mesta bilting jók
Bægðir, þar á svona stóð.
131. Frakka trúa fremst í heim
Frægðar mátt vill duga skammt,
þar harðfengt búa' á hendur þeim,
Herlið átta maktir samt.
132. Kórónaðir fyr í Frans
Fengu ríki' af hara dátt,
Og tengdafaðir hefur hans
Hann við líka rofið sátt.
133. Rússar að nýju' og Saxar senn
Sóknir ykja morð og rán,
Preussar, Svíar, Enskir enn,
Austurríki, Bajern, Spán.
134. Spanskir hröktu hara heim
Her frá París settan þar,
Franskir skjöktu' úr hrotta hreim
Með hrakdóms- fara -leifarnar.
135. Austurríkis ólmur her
Unda grílu hvessti byl,
Svo Frakkar víkja' að forða sjer
Fimmtán mílur baka til.
136. Sátt enn fátt í sjóðu hlóð,
Sett ei ljettist gríðar stríð,

þráttan máttug þjóða stóð;
þetta frjett er síðust tíð.

137. Himna stýrir hægi því,
Hörð að rammi synda gjöld,
þó villudýra vonzku í
Vaði fram hin blinda öld.

138. Enda þannig enn mun bezt
Illa spunnin tíða-ljóð,
Sitji' í ranni sælu hresst
Sæmdar kunnu menn og fljóð!



# Tíðavísur
## um árið 1814.

1. Driftar spýju dreifðust senn
Drunga ský við jólin,
Heiðan vígir himin enn
Háleit nýárssólin.

2. Utan biðar annað hjer
Aldar skrið nítjánda;
Hennar liðið árið er
Enn nú hið fjórtánda.

3. Fróns og græðis fegrað krans
Af friðar gæða lundi,
Utan bæði' og innan lands
Öld hagstæðast mundi.

4. Sumar, vetur, sæld og tár,
Með síðri' og betri fylgjum,
Gjörvalt metur herrann hár,
Og hafs- aðsetur -bylgjum.

5. Fanna gyrti fjöll og tún
Feldur stirt óklipinn,
Aðgangs virtist undir brún
Árið firrt á svipinn.

6. Hesta vorra heptist fjer
Hríðar dorru rokum,
Sem um orra vasa ver
Vildu' að Þorra lokum.

7. Fólkið kvíða fyrir tók
Fóðurs víða bönnum;
Harkan gríðar hjer með jók
Hjarta stríðið mönnum.

8. Í efstu viku eyðast vann,
Aptur mikið skaði:
Hláku blika hlý upp rann,
Hlynnti kvikfjenaði.

9. Tóku' að sóast teiknin hörð,
Tæpum dró af kvíðann,
Færði' úr snjóafötum jörð
Fögur góu blíðan.

10. Ísaklastri' á engan fjörð
Ók hjer fast að grundum;
Á henni brast og aldrei jörð,
En ærið hvasst var stundum.

11. Veðurátt laða velsemd kann
Voru glaða' aðsetri:
Einmánaðar öldin fann
Árferð þaðan af betri.

12. Gæfu nýja görpum ól
Gleði' af því og yndi,
Að hita skýjuð sumarsól
Sveif með hlýjum vindi.

13. Sólskin mesta sælt og heitt
Sveitin flest við undi.
Vorið bezta eitthvert eitt,
Auðnu' ei bresta mundi.

14. Ljenti kæti loptið hreint,
Lítill nætur sorti.
Gróður rætast sýndist seint
Samt, því vætur skorti.

15. Vikur tíu værðin ljeð
Vífum hlý og þegnum.
Þingmaríu messu með
Miðluðu skýin regnum.

16. Aukast rjeðu aldin frjó,
Af því skeði' ei bagi.
Gínars beðja gaf oss þó
Gras í meðallagi.

17. Auðnan slinga eyddi móð
Við útrjettingu flesta.
Heynýting varð hýrri þjóð
Hauður um kring sú bezta.

18. Þar að gá ef þenktum vjer,
Þrautum sjáum fróa.
Sumar af fáum eitt það er,
Að ei þágum snjóa.
19. Virða' ei dafnar verka skarð,
Vinna jafnast gáðu;
Heyjum safnað vel því varð,
Veður ei hafna náðu.
20. Um Mikkaelis messu bil
Mundi jel á falla;
Því að vel gekk þangað til,
Það má teljast varla.
21. Veitti lýðum votan koss,
Við oss kvíða náði,
Haustið, síðan hagkvæmt oss,
Harkan stríð ei þjáði.
22. Vefur tíða áfram ófst;
Enginn stríðu mætti.
Vetrar þýða heilsan hófst,
Hún og lýðinn kætti.
23. Fyrsta mánuð fjell dável,
Fold ei grána mundi,
Eður blána höggvörðs hel.
Hafbrim ránar drundi.
24. Ljet þá hrapa loptið snjó; —
Lánið skapa tiðir, —
Fóðurtapan frekast bjó
Frost á krapa-hríðir.

25. Sauðum fólu víðan vang
Veslum, skjóla-fúsum;
Fyrir jólaföstu-gang
Fákar róla' að húsum.
26. Vinda svala vetrarfar
Virðar tala og letra.
Upp til dala alstaðar
Árið skal þó betra.
27. Kólgur sátu' um karfa hlað
Með köldum gráti skýja
Jólahátíð einlægt að;
Ekki má til svía.
28. Hætti kári' um humra garð
Að hreyta báru rokum.
Nokkuð skárra veitt þá varð
Veður að ársins lokum.
29. Optar styður auðna klár
Eptir hryðjur dægra.
Þetta skriðið út er ár
Um- þeim -liðnu vægra. —
30. Raddar hafla runnum bar
Reitur skafla genginn
Vers um kafla víða hvar
Veslan afla-fenginn.
31. Völ aðfanga vart hagstæð
Vekja angur þótti:
Syðra langsöm fiskifæð
Fólki, er þangað sótti.

32. Lestum norðan, svo að sjer
Syðra forða keyptu,
Lítt því vorðið ágengt er,
Yfir storð þeim hleyptu.

33. Jökli beztur afli er
Undir vestur-reita;
Gangur lesta því ei þver
þangað flestra sveita.

34. Lands umgjörð var lífvæn sögð,
Ljentu vörð hin flestu
Í Austfjörðum aflabrögð
Auðs með njörðum beztu.

35. þó um geta merkir menn,
Mars er feta' á gröndum,
Múla betur sýslu senn,
Suður ljet með ströndum.

36. Norður um alla firði fró
Fjórðungs hallar gengi:
þar má kalla þorsk úr sjó
þjóð hafi varla fengið.

37. Um náhvelis auðan garð
Orma jeljum bana
Tekja sela vesöl varð,
Varla að telja hana.

38. Ís þó banna ekki rjeð
Auðlegð hrannar fanga;
Hrognkelsanna' og hákarls með
Heppnast vann ei ganga.

39. Ullar tjörgu uppgefast;
Ei er hörg á tjónum.
Árin mörg hjer af leiðast
Utan björg af sjónum. —

40. Margt umbætti mæðu sár,
Margra kætti hjarta,
Að sjúkdóms-hætt var sízt í ár,
Svo um mætti kvarta.

41. Heims frá nauðum hafa þó enn,
Heiðri, auð og sprundum
Sumir hauðurs sæmdamenn
Sofnað dauða-blundum.

42. Sem var glaður sjera Jón,
Sómamaður beztur,
Mels- fyr -staðar messu þjón,
Mjög gamlaður prestur.

43. Bana sterka bikarinn,
Buguðu' ei merki varnar,
Þáði klerkur Þórarinn,
Þægur að verkum Tjarnar.

44. Sjúkdóm klemmdur, sinnis hreinn,
Sætti fremd ókyrri;
Hærur kembdi ekki einn,
Æfin stemmdist fyrri.

45. Þórður á Völlum dauða' úr dal
Í dýrðar höllu sótti;
Rómi snjöllum söngva sal
Sóma er öllum þótti.

46. Hólum í Vesturhópi frá,
Hans af flestum grátinn,
Sjera Jón, bezta aldri á,
Er og prestur látinn.

47. Líkast blaktir laufi fjer,
Lukka, makt og auður:
Grundtvíg, sagt að austan er,
Og svo faktor dauður.

48. Óhraust þó nær æfinnar
Efra dró að skeiði,
Hústrú prófasts Hannesar
Hjeðan Snjólaug deyði.

49. Hússtjórn prýðis hagfallin,
Heilsu þýð í nauðum,
Auðsæl, blíðlynd, ættrækin.
Aðstoð lýði snauðum.

50. Enn prests kvinna, ár sem mörg
Unni sinnisglöðum,
Úthafin er Ingibjörg,
Ekkja á Skinnastöðum.

51. Bóknámsgjarna ljent var lund
Lífs um farnar slóðir;
Dyggðum svarna segist sprund
Seytján barna móðir.

52. Stað í Reyninesi nú
Náms með greina' íþróttir
Rýmdi, hrein að rausn og trú,
Ragnheiður Einarsdóttir.

53. Að staðfesti' og ýmsri dyggð
Yfir flesta jeg vona,
Þolgóð mest við þraut og styggð,
Þýðlynd, bezta kona.
54. Biskup landi elztum á
Uppfræðandi settum
Sögð Guðbrandi sjötta frá
Sú ættbandi rjettu.
55. Hvíld í jörð þjer verði vær,
Vegsemd kjörð ótaldri,
Mín velgjörðamóðir kær!
Með guðs hjörð útvaldri.
56. Lítt er farið lífi manns
Ljósi' á skari betur,
Svo slysfarir sjós og lands
Sízt hann varast getur.
57. Stúdent, þó með stóran prís,
Stökk um sjóar klaka,
Þórður dó af því að ís-
þar ei dró á -jaka.
58. Eystra þannig er til bar,
Ofan rann í karga,
Með þó annar maður var,
Megnaði hann ei bjarga.
59. Víf rólandi vinda blök,
Veikt ei standast náði,
Í fljóts Skjálfanda fleygðist vök,
Fljótt og andlát báði.

60. Aðra — batna mein ei má
Og mæða sjatna að stundu, —
Hjeraðsvatna ísum á
Andaða skatnar fundu.
61. Úr slíðrum öndu sleppti mann,
Sleipt á mönduls salnum,
Úr klettaböndum háum hann
Hrapaði' í Blöndudalnum.
62. Syðra kvilltur sinnis neið,
Sárlega viltur öru
Æfi stillti skammvinnt skeið
Skólapiltur snöru.
63. Þórs á staupi trönur tvær
Trölla raups með daga
Í Höfða kaupstað þurftu þær
Þreyta hlaup af Skaga.
64. Sú, er undan sigla vann,
Sætir fundi hafnar,
En um stund hin eptir rann,
Unz á sundi kafnar.
65. Veður hvasst þeim gaf ei grið,
Gekk að fast með undur;
Á drösul rastar dragreipið
Drifinu brast í sundur.
66. Bylgjur flana, borða jó
Biltu og granir krepptu;
Fleygðist þanið segl í sjó,
Sex þar bana hrepptu.

67. Undan skilar aldan framt,
Ekki byl þó kyrri.
Manna' á kili sagt er samt
Sæju til þeir fyrri.
68. Kári beindi í Höfðann heim
Hesti steindum gjálpar.
Engum greindu þeir af þeim
þar, eða reyndu hjálpa.
69. Illska bannsett ofmikil
Ei sjer manna leynir,
Hafi þannig tekizt til,
Tal sem annars greinir.
70. Getið varð um garpa þrjá,
Er gistu harðar nauðir,
Siglufjarðar sem að á
Segjast skarði dauðir.
71. Áttu að ganga inn í Fljót
Ullar spanga greiðir;
Harkan stranga og hríða' umrót
Heptu þangað leiðir.
72. Altalað er yfir frón
Ísa, það jeg heyri,
Lima skaða' og lífsins tjón,
Liðu enn aðrir fleiri.
73. Elds umvjes ef æsist blæ,
Eins og hljes, ei sjatnar:
Í Ölvesi brunninn bæ
Brjefað lesa skatnar.

74. Einhvern beztan bónda garð,
Bygging hresstan nýrri;
Búslóð flestri bjargað varð
Bagamestri og dýrri.

75. Hart samknúinn hjermeð brann
Heyja grúa sjóður:
Á sögðu búi sóast vann
Sextygi kúa fóður.

76. þeim ótregur þúfu slær,
það má dregur segja;
Dáfallegur bóndabær
Og bjargarvegur heyja. —

77. Með vista safn og vöru fans
Víða um drafnar bugu
Á allar hafnir Ísalands
Öldu hrafnar flugu.

78. Reisu stirður rölti frá,
Rýmt af byrði, festur,
Á Eyjafirði Lynge's lá
Landa gyrðis hestur.

79. Skyldi rísa' um skelja jörð,
Skeiði frýsa snöru;
Síðan vísa' á Siglufjörð
Sækja lýsi og vöru.

80. Síðar meir um salta dröfn,
Svo sem keyrir alda,
Akureyrar inn á höfn
Ætluðu þeir að halda.

81. Storma fjón ei stilling gaf,
Stælti af fróni báru;
Rastar ljón á reginhaf
Rak með tjóni sáru.
82. Skeið óhlesst um skefldan mar
Skrykki mestu þáði.
Vatn og flest, sem þurftu þar,
þessa bresta náði.
83. Færðist hingað fregn ei meir
Af ferðum Lynge's bráðum.
Íslendingar urðu tveir
Í hrakningi skráðum.
84. Líkt sem trauðla ljek á sjón
Lífi' og auði flettra,
Veiting brauða vítt um frón
Verð jeg snauður frjetta.
85. Stranda þingreið farinn frá
Og fólk-virðing Jón sleppti,
Húnvetninga sýslu sá
Sann-lögslingur hreppti.
86. Yfir hlakka Melstað má
Messu stakki hresstur
Og Halldór þakkir himni tjá
Hjaltabakka prestur.
87. Presti suður- lærðum -lands,
Ljóss elskuðum vini,
Aptur buðu innið hans
Einari Guðbrandssyni.

88. Árni, prestur og á Tjörn,
Að þar flestu styður,
Kjörinn sezt, með konu' og börn
Kominn að vestan, niður.
89. Frá Reyninesstað og sann-forsjáll
(Sje hann það til elli!)
Sómamaður sjera Páll
Seztur er að í Felli.
90. Atall seggjum enn að von,
Elli-kleggjum hlaðinn,
Sjera Eggert Eiríksson
Af nam leggja staðinn.
91. Glaumbær, eitt hið góða brauð,
Guðs orðs skreytt með húsi,
Í Hvammi þreyttum nær að nauð
Nú skal veitt Magnúsi.
92. Sjera skal á settri tíð,
Syðra alinn, haga
Vigfús tali og læra lýð
Í Laxárdal og Skaga.
93. Kominn seinast sunnan frá
Sendi- greina -maður,
Voru' ei neinum veittir þá
Vellir og Reynistaður.
94. Vilja þeir flestir vita' af því,
Völ er að beztri gengið,
Hólar Vesturhópi í
Höfðu' og prest ei fengið.

95. Stipts að völdum stjórnar-hár,
Stormi og öldum fylgdur,
Kastenskjöld vor er í ár
Með oturs gjöldum sigldur.
96. Ísfold þar til unns og lands
Útmæld var nú; drafnar-
Kapteinar með frúr og fans
Fóru á mar til Hafnar.
97. Ýmiss fer í auðnu leit
(Öðlast hver af skamti):
Þrjátygi' er af seggja sveit
Sigldir hjer úr amti.
98. Ofsa stríð nú utanlands
Inna blíðri letur.
Aðalprýði upplýsts manns
Æ það hlýðir betur.
99. Heimsins gliðna haturs ský,
Hers ei yðar logi,
Skjóma kviðu skúrum í
Skín nú friðarbogi.
100. Frakkar hraktir hopa hast,
Hjálpar-naktir þóttu:
Áður sagt er, að þeim fast
Átta maktir sóttu.
101. Hernað bjóða harðsnúinn
Herjans glóða vinir,
Í París vóðu ólmir inn,
Ei við stóðust hinir.

102. Bónaparte dristug drótt
Dreif að hart með skjöldum,
Keisara skarti fletti fljótt,
Fleygði og snart úr völdum.

103. Sikling barður saxa þey
Sætti harður tjónum:
Flæmdur varð á Elbu ey
Í Miðjarðarsjónum.

104. Svipult skapað sjáum enn
Svo fyrir stapann hæsta;
Opt hafa hrapað mestu menn
Og metnað tapað stærsta.

105. Þegar af klökkum þessi hjer
Þengill hrökk hinn stóri,
Settur Frökkum annar er
Árvaks nökkva stjóri.

106. Fengin ríki í Frakka hönd
Funa síkis bornu
Til baka víkja', og stjórnar stönd
Steypt í líking fornu.

107. Hollendingar fiskiför
Á fákum lyngbaks túna
Æddu hingað, afla kjör
Æfðu' óþvinguð núna.

108. Tveir nær hjer um tugar ár
Taldir eru síðan
Þorska veris þeirra már
Þekktum bera' að tíðan.

109. Þess má danska þjóðin nú
Þunglega kannske gjalda,
Að þeim franska trón rjeð trú
Í tráss við fjandska halda.
110. Veldis óðum Dana dýrð
Daprast góð og stórum,
Norvegs þjóðar ríki rýrð
Rænd her-flóða jórum.
111. Pommern Svía fylkir fær,
Fornöld í sem köllum
Sels við kvíar Vindland vær,
Vaxið nýju þöllum.
112. Norskir játa sögnum seint,
Sverðs á bjáta hríðir;
En þó plátu ullar hreint
Undan láta' um síðir.
113. Ó þjer Norðmenn! áður fyr
Undir borði skýja
Að hreysti-orði háleitir,
Herfang vorðnir Svía!
114. Norðurheima reifar ró,
Rekkar gleyma móði;
Í austur-geima álfum þó
Undir streyma blóði.
115. Eitt í Kína upphlaup var
Æst á gínars vífi:
Milíón týna mundi þar
Manna sínu lífi.

116. Sem það eina sorglegt er
Og sárra meina' uppspretta,
Gleði hreina lýðum ljer
Líkt að greina' um þetta:
117. Englands þjóð um alheim fer
Ör með flóða hesta,
Af verkum góðum vinnur sjer
Veraldar hróður mesta.
118. Silfurs eiðast sjóðir mjeg
Sumra', er meiða þrautir;
Heiðnum greiða herrans veg
Og himins leiða' á brautir.
119. Konur, syni, kjör og stand
Kveðja vinir letra,
Frændur, kyn og föðurland,
Fúsir hina' að betra.
120. Lífs með voða heiðnum heim
Helg þeir boða gæði;
Biblíu skoða' og þrykkja þeim
Þótti' aðstoða fræði.
121. Skutu fríjum saman seim,
Sjer biblíu henta
Þrykktu nýja', og heilum heim
Hófu' úr því að prenta.
122. Ár þá bærast átta frá
Upphafi kærleiks verka,
Fimmtygi og tvær þeim tungur á
Tókst að færa merka.

123. Helga vel að treysta trú
Og túlka vjela þálfa
Biblíufjelög nokkur nú
Norður- telur -álfa.
124. Hvar eð sett um heimsins láð
Hjet með rjetti niður,
Fjelag þetta rausn og ráð
Ríflegt Breta styður.
125. Á kostnað líka Enskra enn,
Úr svo mýki vanda,
Í sjerhverju ríki sitja menn,
Sem fyrir slíku standa.
126. Eins biblíu oss á prent
Útlags-fríjum heita,
Til með nýju-testament
Tryggðum í þeir veita.
127. Sent út hingað sjerhvað eitt,
Selt við ringum eyri,
Fátæklingum gefins greitt
Guðleg þing eg heyri.
128. Not svo flestum gæfust greið,
Af gæzku mestri hraður
Enskur prestur um hjer reið,
Einhver bezti maður.
129. Ef biblíu upplags starf
Íslands frí af brenndum seim
Sex spesíu þúsund þarf,
Þá hvað ný um allan heim.

130. Kosta mundi' að þýða þær,
Þrykkja' og bundnar tygja
Fjögur hundruð fimmtygi' og tvær
Fullt þúsund spesía.
131. Sjáum glaðir rjettvís rök
Ríkðar, hvað og sómar;
Gætum að, hve góðvild stök
Guðsinnaðra ljómar.
132. Aldrei ríki hans var hollt:
Höfundsýki slæma,
Ágirnd, fýki, stjórnar stolt
Stór og lík fordæma.
133. Fyr að prenta fimm þúsund
Fast með þjentu dölum
Testament ný, Garðars grund
Gefins ljent og sölum.
134. Herskip, flota heiman senn
Hildar ota' að stjani,
Eldi' og skotum enskir menn
Ætluðu' að rota Dani.
135. Hertoginn þá hafði brennt
Hús, þar inni voru
Tilbúin ný-testament,
Tapaði sinni stóru.
136. Staflann krepptur stansar við,
Stærra heptur kífi,
Eins og teppti almættið,
Eldurinn sleppti lífi.

137. Ei ígrundan, en þótt sterk,
Orsök mundi finna.
Kölluðu stundum kraptaverk,
Kristnir undur minna.
138. Mikið líklegt mundi það,
Myrkur víki' og eyðist,
En Kristí ríki upplýst að
Út með slíku breiðist.
139. Brjósts og munna bænar önn
Brennheit grunni streymi,
Að guðhræðslunnar gullöld sönn
Gæti' upprunnið heimi.
140. Gleði nefna mundi mjer
Og mætti gefnum frama
Fjelag efnað og svo hjer,
Er að stefnir sama.
141. Ritning þýða þjóð um hnött
Þörf og prýði' er mesta.
Úr henni smíða apakött
Ei nam lýði bresta.
142. Verjum pundi vel, sem má,
Velferð grunda keppum!
Svo dauðastund nær dynur á
Dýrðar mundir hreppum.
143. Degi' af klæðir dekkri tíð.
Dottar kvæða smiður.
Allra gæða fylling fríð
Faðmi, bræður, yður!

# Tíðavísur
## um árið 1815.

1. Fjör-eld gjósa', er fákum stýra
Fer hið kjörna skeið
Himinljósa drottning dýra,
Dags og stjörnu leið.

2. þökkum drottni, sem ljet sína
Sól oss renna' í hag,
Árið þrotna og fram skína
Enn nú þenna dag.

3. Allar skepnur undir mána,
Sem eru' í heimi til,
Fagna heppni fróns og ránar,
Falli' hún þeim í vil.

4. Allan kinda sinna seður
Sí-alvaldur hóp,
Og þýðlyndri gæzku gleður
Guð, sem aldur skóp.

5. Eptir mæling kyns og krapta,
Kostum með sem ól,
Æ farsælir allt hið skapta
Ofar og neðar sól.

6. Sköpunar kerfi lýðum ljósa
Líf þá sprottið var,
Mesta' atgervi maðurinn hrósar,
Mynd síns drottins bar.

7. Þessi mynd enn skert að skini
Skýr sig lætur sjá
Í vísindum, kosta kyni,
Kjör sem bæta má.
8. Honum líkjast mest sem megnum
Mæti' og skyldan er;
Hans það ríkis hæfir þegnum
Hún sje fylld sem ber.
9. Til fyrirlagðrar fullkomnunar
Færi' og tíðin hent,
Þessi sagða þó mismunar,
Þjóðum víða ljent.
10, Einn nær gengi, annan kremur
Áfall mæðu kífs;
Einum lengur, öðrum skemur
Unnt er gæða lífs.
11. Gleði' og neyðar mældar mundir,
Makt og rýrð af seim:
Það tilreiða á oss undir
Æðri dýrðar heim.
12. Fólki dándis kveðjur kaldar
Kossi færa vann
Það fimmtánda árið aldar
Er út í gjærkvöld rann.
13. Veðuráttin sízt til sveita,
Sem ei misstu jörð,
Þorra mátti þeigi heita
Þjóðum bist og hörð.

14. Skapstór allmjög hríða hreggi
Hreytt þó fengi' á lóð,
Eða karlinn skirpti' úr skeggi,
Skorpa' ei lengi stóð.
15. Fallin storka' á fyrra ári
Frostið harða við
Mest rjeð orka fákum fári,
Fóður- og jarðleysið.
16. Ofan í lungu Góa gapti,
Geystum fram úr hvopt
Hríðar sprungu hörðum krapti
Hörku rammar opt.
17. Fannir á krapa feldi jókust,
Færðu mesta nauð,
Allar snapir af þá tókust
Eins fyrir hest og sauð.
18. Þá Einmáni hörku harði
Hjer ei seldi grið:
Storð og rán með stormum barði,
Sterkt sem hjeldust við.
19. Ekki skaut upp einni þúfu,
Eður að heppni bar;
Heyið þraut, en hungurs skrúfu
Hjörðu skepnurnar.
20. Fólkið píndi angurs ótti;
Aldrei hlána vann;
Hestar týndu holdi' og þrótti;
Hver svo máni rann.

21. Sorga enn meir syrti' í álinn,
Söfnuðust griða bönn:
Sáu menn við sumarmálin
Setti niður fönn.
22. Rýr að þrifum reyndust heyin,
Rjeð því ullar-hjörð
Af þeim lifa enganveginn
Utan fulla jörð.
23. Illu má það ekki kljenu
Orka fremur þó;
Ormar sáust innan í fjenu,
Útaf sem að dó.
24. Sýndist vetur sízt hagfelldur,
Sælli kost af dró.
Vorið betri veitti' ei heldur
Vægð á frosti' og snjó.
25. Veðurátt mikið bar að beinni,
Bættist þrautin hörð:
Sumars viku síðar einni
Sauðum skaut upp jörð.
26. þessi heppni, þá dýrmæta
þótti fargað traust,
Menn og skepnur mátti kæta
Margt hvað bjargarlaust.
27. Hestar kvikir vart, í vetur
Við þó stæðu hey
Tuttugu vikur tvær enn betur,
Tóku gæðum ei.

28. Þótt að karfir fóðurs fengi
Fákar víða hvar,
Höfðu' ei þarfir hálft svo lengi
Húsa þíðunnar.
29. Hvíta- þó nær -sunnu síðar
Sóaðist fengin hægð:
Fjellu' á snjóar, frost og hríðar,
Fjekkst þá engin vægð.
30. Vílið reis af vesöldinni,
Veður bauð ei grið;
Bjargarleysið úti' og inni;
Allt lá dauðann við.
31. Bylurinn reisti baga mönnum
Bús með smalann hart;
Kafnaði eystra fjeð í fönnum
Frosti kalið margt.
32. Ljósin blánuð lífsins gæða,
Leið að höllun þjóð;
Hálfan mánuð skorpan skæða
Skaðvæn öllu stóð.
33. Lömb nýborin lífi týndu,
Lítil, ung og snauð,
Fjellu' úr hor af fjenu píndu
Fyrrum hungurs nauð.
34. Stoð hagnaðar böl enn bifði,
Bar að mæðu þrátt:
Eins var það, sem eptir lifði,
Ofur gæða smátt.

35. Ofan á þetta' ei upp nam taka
Að sólhvörfum snjó;
Lönd afrjetta lágu klaka
Læst með jöðrum þó.

36. Hjálpar leið að æðstu önnum,
Ei nam bætast ráð:
Grasaheiðum fyrir fönnum
Fólkið gat ei náð.

37. Miðsumars gæða mánuð fengum
Mjög svo fashægan;
Vindar bæði' og vætur gengu,
Vel upp grasið rann.

38. Sunnanvindar bljesu blíðir,
Bleyttu stífan gadd;
Elja rindar og um síðir
Öðlaðist rífan hadd.

39. Þeim heyannir þá ei drógu
Þeir viðbúnir skjótt
Ráði manna ríkir nógu
Rifu' upp túnin fljótt.

40. Því viðstöðu þrotnir flestri
Þreyttu' ólinað starf,
Nýting töðu náðu beztri;
Neyð að hinum svarf.

41. Ágústus með ægum baugum
Úða skýja rann,
Vætu gusum veitti' úr augum;
Vært ei því um hann.

42. Vetur þvinga var því miður
Veittist sjaldan ró;
Stórrigningum steypti niður
Stökum aldrei þó.

43. Afla töðu' í ári bágu
Ei varð gjöf í hag:
Á ýmsum stöðum úti lágu
Yfir höfuðdag.

44. Sælir bljesu sunnanvindar
Septembers um mið,
Eðli hljes og elju rindar
Aptur hressa við.

45. Meðan norðurlandsins lýði
Löður vætu rann,
Syðra storðar þerrir býði
Þjóðir kæta vann.

46. Eins þá stilltist óveðranna
Æði nyrðra' í haust,
Syðra spilltist safnið manna,
Súldið stirða' um brauzt.

47. Haustið ól oss heyja snauðum
Hægð og gleði jók.
Veturinn kjóli víða rauðum
Vist sjer með oss tók.

48. Skjótt um kjóla skipti síðan,
Skorti fóður hjörð.
Fyrir jólaföstu þíðan
Færði' oss góða jörð.

49. Stærrði þörf, en herti hungur
Hjernæst veturinn,
Um sólhvörf og eptir þungur
Æsti hretviðrin.
50. Framar þessu hafbrims harði
Hríðar bylur um frón
Þorláks messu báta barði
Og byttur til í spón.
51. Hóla því að kyrkju kreysti
Kári opt og sló:
Sakristíið sundur leysti,
Súð í loptið fló.
52. Drottins sala drottning mesta,
Dáð á láði hjer,
Horfin vali höfuðpresta
Hokrar snáð og ber.
53. Með hreggviðra megnu blandi,
Menn nú skýra' í ár,
Afli syðra' af eyja bandi
Að sje rýr og smár.
54. Betur má í haust nú heyra
Hefði gengið þó,
Stormar þráir miklu meira
Meinuðu feng af sjó.
55. Þess eru rök enn þá á vetri,
Þeim sem næst frá bar,
Hressir Jökul-búa betri
Björg af æstum mar.

56. Frjettir hingað færðar tjáðu,
Fram um karfa ver
Austfirðingar afla náðu
Og til þarfa sjer.

57. Krásir þar í gaupnir gengu,
Gott þeim duga skal:
Loðmundar í firði fengu
Fullt sjötugan hval.

58. Björg af sjó þar búsitjandi
Betri er enn var
Nokkuð þó fyrir norðurlandi
Núna hjer og hvar.

59. Af því lítið áls um reita
Öldin gat sjer veitt,
Fólk til hlítar fremri sveita
Fjekk ei matar neitt.

60. Á Sljettu sels nam fólkið fanga
Fjöld allmikla þó;
En hrognkelsis engin ganga,
Eða kvik úr sjó.

61. Væntum eptir bif oss betur
Bæri væna flís,
því hvorki hepti' í vor nje vetur
Veiði Grænlands ís.

62. Borið skal ei happ að höndum,
Hægð er greiða má
Engum hval hjer ók að ströndum
Aldan reiði-blá.

63. Hjálpar önnum kemur kappið
Kyrrð og værðum skár:
Fljótamönnum hákarls happið
Hagnað færði' í ár.
64. Sunnanmanna sagnir tína,
Selju tæki' um band
Hundrað annað hálft marsvína
Í haust og ræki' á land.
65. Ekið gátu afla slíkum
Upp að grænum reit
Ellefu bátar í Njarðvíkum,
Árbót væn og feit.
66. Tuttugu vættir beztir báru
Búk af spiki á;
Með sama hætti' af sumum skáru
Sextán kviku frá.
67. Ýmist var það, oss nam bresta,
Og upp rætti móð.
Heilsufar eitt happamesta
Hefir kætta þjóð.
68. Kaupmannshafnar lærðra lýða
Lögðust þrír á bak;
Heiðurs nafn um veröld víða
Vart mun líða blak.
69. Riddari færður Bugge beztur
Braut til himins er;
Stjörnu lærður mið um mestur
Mundi skimast hjer.

70. Víss eru' á láði voru rökin,
Vel nam ganga smíð:
Oss hann skráði almanökin
Áður langa tíð.

71. Störf ókljen við stjórnar iðinn
Studdur snilld og dáð
Kolbjörnsen er líka liðinn
Lofðungs vildar-ráð.

72. Lífs af hjóli líkt er genginn
Landi vor í Höfn,
Vor-frúr skóla vörður lengi
Virta spor með jöfn.

73. Skúli Thorlacius, sómi
Sinn og jústizráð,
Auðnu borinn ættar blómi,
Eðli fúst á dáð.

74. Færðar hingað fregnir sanna,
Framt þá spurt er að,
Hafi nokkuð heldri manna
Hjer og burt sofnað.

75. Davíð Scheving dýrættaður
Dýrðar varð á lönd
Settur, gefinn sýslumaður
Sat hann Barðaströnd.

76. Lofstýr þjóðar, lögum tamur,
Leifði fenginn mest,
Rjettsýnn, góður, ríförsamur,
Ríkti lengi' og bezt.

77. Áls frá ranni að flutningi,
Er þó skyldi' í vil,
Sýslumanni' í Múla þingi
Meiðsli vildu til.
78. Páli dauðinn fast að fylgði,
Fjörið mæddist ungt,
Sorgar í nauð við sína skyldi,
Sárið blæddi þungt.
79. Dæmi hjer það sýna' og sanna
Sögnum framar meir,
Ekki fer að aldri manna,
Ungur og gamall deyr.
80. Breiða- mesta -bóls-er -staður
Brauð á landi tjeð,
Þórhalli prestur, þrifamaður,
Þar og andast rjeð.
81. Drottins verkmann dugnað borinn
Dauðans skarpa ljá
Sæmund prest þeir segja' uppskorinn,
Sat hann Garpsdal á.
82. Sjera Jón Hallgrímsson Þingmúla
Settur hjeðan dó,
Við heilsu galla hafði' að púla
Hjervist meðan dró.
83. Bar frá tíma eilífð alinn
Áður Mela prest,
Sjera' Arngrím, og sá var talinn
Sjer að vel um flest.

84. Bílddals kaupmann bæði' og herra,
Betri glórði von,
Æfihlaup nam einnig þverra
Ólaf Þórðarson.

85. Enga fríun öld má veita
Aura safn og fjeð;
Thorlacius sig nam heita
Sá auknafni með.

86. Hels áfergi' úr sölu solli
Suður í Reykjavík
Þorkels Bergmanns atför olli
Og elli-veikin rík.

87. Ólöf borin æruríka
Alveg dauðans gekk,
Húsfrú Thorlacius síra,
Sælu' ótrauða fjekk.

88. Búsæl lýði bjargráð mesta,
Bauð æ flýtir góðs,
Ættar prýði' og athvarf bezta,
Enn hún[1] nýtur fljóðs.

89. Prófast metinn mikils þreyði,
Mann elskaðan sinn,
Guðrún Ketilsdóttir deyði,
Dyggðum hlaðbúin.

90. Fremri mörgum faktors-inna
Fyrrum valin Jóns
Ingibjörg dó ektakvinna
Arfa Salómóns.

---

[1]) ɔ: ættin.

91. Margir í snöru dauðans detta,
Dirfska veldur títt:
Af slysförum árið þetta
Ei var heldur frítt.
92. Ránar skrugga röm úr hófi
Reis og sendi grand,
Brabants duggu brims í kófi
Braut við Meðalland.
93. Brauzt til lands af brimils inni
Og brotnum strengja jó
Fimmtán manns það sama sinni,
Svo þar enginn dó.
94. Íslendingar ofan á skaðann
Út þá ljeku verst,
Innt er hingað og svo þaðan
Af þeim tekið flest.
95. Einkunn sterk á ódyggð hvötum
Ei til svipsins frið,
Hafi klerkar fýst úr fötum
Færa skipbrots lýð.
96. Vestur síðan leið með landi
Ljetu dragast skjótt;
Hrepptu víða' í hraknings standi
Hryðjur dag sem nótt.
97. Landa vildu leita sinna
Loks um víðan geim,
Ef þá skyldu fá að finna
Og flytjast síðan heim

98. Stelpur unnar, storm ei kyrrði,
Sterkar hjuggu sand,
Við hvítasunnu' á Hvalvatns firði
Hvirfluðu duggu' á land.

99. Brimið hátt svo brast úr æði,
Brátt nær það var stillt,
Fannst hún átta fjærri græði
Faðma hlaðin bilt.

100. Skaði' ei henti skeið á landi,
Skjótt þar fylli rudd,
Mjög því lenti' í mjúkum sandi
Markóngs hylli studd.

101. Siglu hind þó sandi gróin
Samtök manna hörð
Ýttu vindum út á sjóinn,
Eyja- rann um -fjörð.

102. Sterkt enn börðu stökkuls ranna
Stormar í septembrí;
Kaðlar mörðust kaupskipanna,
Kyrrðir heptust því.

103. Skagastrandar skipi þrengdu
Skafla sprengi'-áflog
Hast að landi' af höfn uppslengdu,
Hjeldu engin tog.

104. Sjór með undrum hauðrið harði
Hreggs í önnum sló,
Á grjóti sundur byrðing barði,
Banaði' ei mönnum þó.

105. Eptir skoðun og virðingu
Inni það sem hjelt
Víst uppboðinn, verði ringu
Var og hvað eitt selt.
106. Engelskt far af vinda vjesi
Villt um hlýra naust
Loks eins bar að Langanesi
Lest á stýri' í haust.
107. Vín ei bærðu, vöru' ei seldu,
Veður er rjettstæð gaf
Sig lagfærðu, síðan hjeldu
Suður um Bretlands haf.
108. Áls við ranna að jafnaði
Oss til handa ber
Bæði manna' og skipa skaði,
Skeður í landi hjer.
109. Á Eyrarbakka æfi-bönnum
Ægir nauðir jók:
þilju blakk með þrettán mönnum
þar af dauðinn tók.
110. Eystra þar til enn nú sýndi
Aldan heipt og þrá:
Sex á fari saman týndi,
Soltinn gleypti þá.
111. Getið er tólf á Gufuskálum
Gnoð með drengja val
Lýsu hvólfs í ólgnum álum
Eins forgenginn skal.

112. Skips enn innist skaði svona
Skeður vesturfrá;
Formaðurinn af komst og kona
Kneri lestum á.
113. Ofdirfð skapar álma njótum
Aldur þrátt í bráð;
Af skiptapa og úr Fljótum
Er þessháttar skráð.
114. Sigldu í ergi, sízt þar lægja
Segl, ofbyri sló;
Formaður hvergi vildi vægja
Vindi fyrir nje sjó.
115. Varð óheppni' úr vogun þegna,
Veltist skeið í mar;
Höfuðskepnur meira megna,
Menn sjö deyðu þar.
116. Ótryggð blandin eptir vana
Íss með hökul blá
Vegfaranda varð að bana
Vestari Jökulsá.
117. Í Eyjafirði' einn fótbrotnaði,
Fjell af hesti sá.
Í sýslu Nyrðri samur skaði
Seggi lesti þrjá.
118. Veslir tapast veðrum hörðu
Vermenn, svo til gár:
Hríðin drap á Holtavörðu-
Heiði tvo í ár.

119. Af Eski- frjettist -firði skaði:
Fjell í púður skar;
Elds bál ljett sem upptendraði
Eyddi búðum þar.
120. Brátt á augabragði þannig
Brestir gjósa hvellt;
Eldurinn flaug um allan ranninn
Inni ljós sem hjelt.
121. Kjöts- og sölu-stofum steypti,
Stoppuðum ríkdóms gnægð;
Þriðju' ófölur gaflhlað gleypti,
Gafst ei slíku vægð.
122. Kjöts þegar fólgnar kasir brunnu,
Kornið, grjónin, mjöl;
Lýsi'- og tólgar lækir runnu
Langa' að sjónum möl.
123. Höfðu knöru á höfn þar sveitir
Hingað færða rutt,
En engar vörur Íslands teitir
Í þá hrærðar flutt.
124. Ráða má það af rökum sönnum,
Rjett hver lítur á,
Að ærinn skaði eignarmönnum
Af því flýtur þá.
125. Sönn er prýði sitt embætti
Sífelt stunda rjett,
Gagnast lýði' af mesta mætti,
Meta pund og stjett.

126. Himininn gefur heill þeim öllum,
Hug sem leggja' á það.
Sjera' Steffán veik að Völlum
Vígður, af Skeggjastað.

127. Sjera' Ingjaldur svo umbreytti,
Syðra greinist það,
Yfirvaldið ungum veitti
Aptur Reynistað.

128. Gísli prestur genginn skóla
Getinn Enni bar,
Fjekk í Vesturhópi Hóla,
Hann skal kenna þar.

129. Reisu suður dáðum drýgður
Djákn nam leggja' á hrað:
Sjera Jón Guðmundsson er vígður
Svo og Skeggjastað.

130. Kaupför nú með steindum stöfnum,
Stormar ýgldu brár,
Tvö og þrjú að höfuð-höfnum
Hingað sigldu' í ár.

131. Líkt til hinna áls um yðu —
Auð ei skorti' og þing —
Hrannar linnar hraðir skriðu
Hauður vort í kring.

132. En þótt gumum aura flísar
Auðgum berist skár,
Voru sumrar vöru prísar
Vægri hjer í ár.

133. Lynge' óspakt um landa gyrði
Leiði' ei kyrra gaf,
Sem að hrakti' af Siglufirði
Sumarið fyrra' á haf.
134. Humlung börðu haf-sjó-kvikur,
Hann þá risti geim;
Eptir hörðu' í átta vikur
Útivist kom heim.
135. Ríksbank - milding -seðla sendi,
Sjóður vex af beinn;
Láta skyldum hina' af hendi
Heila sex fyrir einn.
136. Eir- góðmikið -einskildinga
Eru' í ferð með þeim.
Nú er og vikið norður hingað
Nefndar-verði' á seim.
137. Sýnist búi sælu magna
Silfurs þyggja baug
Bændum, nú ei brjefum fagna,
Brigðlynd hyggja þau.
138. Margir freista metorðanna,
Mætara standi ná,
Og því reistu yfirmanna
Ýmsir landi frá.
139. Enn að nýju auðnu hraðir,
Etaz- hjeðan -ráð
Og Thorlacíus sýslumaður
Sigla rjeðu' í bráð.

140. Nyrðra hjer frá Akureyri
Á aski förnum nú
Sekretjera sigldan heyri
Sín með börnin þrjú.

141. Briem þar gaf sig burtu hjeðan
Brims á meyja jörð.
Lögsögn hafa Melsteð meðan
Mun um Eyjafjörð.

142. Assessor og einkar vitur
Ísleifur jústizráð
Stiptamts vor við störfin situr,
Stundar fús á dáð.

143. Páll þá kárnað líf af lagði,
Lengd sem rýra bar,
Sigfús Árnason að bragði
Settur, stýrir þar.

144. Áður með oss umreisandi
Enskur prestur hýr
Í sumar hjeðan silgdi af landi,
Sannlega gestur nýr.

145. Rask á lungi reistur flæða,
Ræmdur annars mest
Vorrar tungu' og fornu fræða
Fróður manna bezt.

146. Enn jafn-blíður og með fyrsta,
Öld það gleðja kann,
Fjelag býður lærdóms lista
Land þá kveðja vann.

147. Skal búnytja skenkt oss fræði,
Skipun landa, stærð,
Sagna rit og sjerleg kvæði,
Sveit til handa færð.

148. Guðmundur Scheving amtmanns áður
Á sig tyllti hatt,
Viku skref þeim virtum háður,
Úr völdunum niður datt.

149. Sigldi makt að sækja stærri
Sjer, en gat ei par,
Vorðinn faktor virta smærri
Vestur Flateyjar.

150. Tínt er að vanda' í tíða kvæðum
Til það nýtt bar hjer.
Annara landa' í frjetta fræðum
Fróður lítt jeg er.

151. Sáttmál nýja friðar framar
Fróns að skorða' og geims
Krýndir í Wíen komu saman
Kóngar Norðurheims.

152. Friðar vart þó komst á kraptur:
Kóngum þakkarlaust
Bónaparte' úr Elbu aptur
Inn í Frakkland skauzt.

153. Kætti hann mikið lýð og láðin
Lukkan traust að gekk.
Á þrem vikum ríkis ráðin
Ræsir hraustur fjekk.

154. Kóngar spyrja hans komu' ódeiga
Kyrrt þá töfðu hjer;
Þorðu' ei styrjar ægan eiga
Yfir höfði sjer.

155. Hver þá gildur annan eggjar,
Ólmir fast sem ljón,
Allir skyldu að honum leggja,
Ofan kasta' af trón.

156. Her óspektar safna saman,
Saxa drógst að klið,
Herrann þekktu hildi taman,
Hraustur bjóst og við.

157. Grimmt á beggja skothríð skelldi,
Skyggði bjarta sól,
Hvorutveggja fólkið felldi
Feigðar snart í ból.

158. Elfur brúsa' á orustu velli
Úr undum seggja hjer;
Sjötygi þúsund sagt er fjelli,
Samt af beggja her.

159. Bónaparte sá nú sjálfur,
Sitja' ei dugði þar:
Víðis snart til Vesturálfu
Vitja hugði' á mar.

160. Hann kjörgripum saman safnar
Sín án tafar í eitt;
Steig á skip, en drottinn drafnar
Dreif á hafið greitt.

161. Brosleit áður, brigðlynd gæfa
Brást þeim klókur var:
Enskir náðu' í hafinu hæfa
Hann og tóku þar.
162. Afarmennið, áður stranga,
Öld sem mikla vann,
Bretar senn í fjötrum fanga,
Færðu sikling hann.
163. Hjer ágætis varla vænti
Vanfær elskan góð:
Hann dýrmætis hnossum rænti
Hin engelska þjóð.
164. Ósk fáráður auðmjúkt hreifði,
Aldins vald sem bar,
Að sjer náðin lofðungs leyfði
Lifa' í haldi þar.
165. Fanga gildum fallinn læsa
Fjötrum mættu þeir,
Sagðist skyldi ófrið æsa
Engum hætti meir.
166. Bón fjekk enga Bónaparte,
Þó buðla lúti þar:
Horfinn gengi, skötnum, skarti,
Skotið í útlegð var.
167. Helena, Suðurálfu eyja
Enskur nærri' í sjó
Á þar buðlung yfir að segja,
Ein með smærri þó.

168. Hingað innist hann af Bretum
Hafinn yfir mar,
Gripa sinna' af rentum rjettum
Rór skal lifa þar.
169. Keisara trón ei ljek á lengi
Lýða þrotinn trú.
Napóleónis giptu' og gengi
Get jeg sloti nú.
170. Fátt sje bráðgjört, langvinnt líka
Lánið manna' í heim,
Dæmið tjáð og reynslan ríka
Rök eru sannleik þeim.
171. Framandi' á grundu Frakka tefja,
Frjett bar síðast það,
Þrisvar hundruð þúsund, krefja
Þessa stríðs kostnað.
172. Frankaríkis auðlegð eyða,
Eður bregða frið,
Sæg ef slíkum gjald það greiða
Greindir tregðast við.
173. Fagnaðar sólin fram rjeð skína,
Fólks það vottar geð:
Dana sjóli sig ljet krýna
Sinni drottning með.
174. Hátíð var með heiðri stórum
Haldin þengils dýrð
Signuð skarans söngva kórum,
Sómans enginn rýrð.

175. Öðling krónast ekki vildi
Yfir storð og geim
Fyr enn sjón af friðar skildi
Færðist Norðurheim.

176. Oss mun hæfa þegnum þýðum
Þæg með artar hót
Árna gæfu fylki fríðum
Fremst af hjartans rót.

177. Enn ótvílugt ein pláneta
Óþekkt greinist sjeð,
Þrjátygi mílur þeir um geta
Þvermæld reynist tjeð.

178. Aldir gegnum allar stunda
En þótt vildum merk,
Aldrei megnum út að grunda
Öll guðs snilldarverk,

179. Hann á jörð og himni bláum
Heiðrar náttúran;
Hann í gjörðum sínum sjáum
Sí-almáttugan.

180. Mál er þrotni mærðin stirða
Mín við tíða-skrár.
Fel jeg drottni víf og virða
Vorum síð og ár.



